# Inngangur

*Einkenni Eddukvæða.*

Eddukvæði eru eins konar þjóðkvæði, sem hver kynslóð kenndi annarri án þess að hafa hugmynd um upphaf þeirra og höfunda. Formið er einfalt og óbrotið og stingur mjög í stúf við hinn íburðarmikla stíl dróttkvæða, sem hirðskáldin iðkuðu, þegar þau fluttu konungum drápur sínar. Eddukvæði skiptast eftir efni í tvo aðalflokka: goðakvæði og hetjukvæði. Goðakvæði voru hvergi skráð með germönskum þjóðum nema á Íslandi, svo að vitað sé, og engar heimildir eru um, að slík kvæði hafi verið ort utan Norðurlanda. Hins vegar var hetjukvæðaskáldskapur iðkaður meðal allra germanskra þjóða, og ýmsar frægustu hetjur Eddukvæða eru ekki upp runnar á Norðurlöndum.

Goðakvæði og hetjukvæði eru að ýmsu leyti sama eðlis, en þó með nokkuð öðrum brag. Goðakvæðin eru ekki trúarkvæði í venjulegum skilningi. Þau eru hvorki bænir né lofsöngvar, sem menn fluttu goðunum til að öðlast hylli þeirra. Heldur eru þau frásagnakvæði, sem leiða fram á sviðið atvik úr lífi goðanna. Oft er efnið látið koma fram í samtölum, svo að sum kvæðin minna helzt á leikrit. Þetta form er einnig á sumum hetjukvæðum. En aðalsnið þeirra er frásögn með samtali. Goð Eddukvæða verða að miklu leyti að heyja sömu lífsbaráttu og mennirnir. Flest þeirra eru dauðleg, þótt þeim sé skapaður lengri aldur en mennskum mönnum. Og þau eru jafn máttvana gegn ofurvaldi örlaganna. Samt er bjart yfir flestum goðakvæðunum. Goðunum heppnast venjulega áform sín, og endirinn er að jafnaði farsæll. Oft er brugðið á leik, og víða kennir gamansemi.



Þetta gengur svo langt, að sum goðakvæðanna, t. d. Þrymskviða og Hárbarðsljóð, minna helzt á gamanleik, en Lokasenna líkist ádeiluleik um goðin.

Fjarri fer því, að í Eddukvæðum sé dregin fjöður yfir hið mannlega í eðli goðanna. Þau hafa sínar þrár og ástríður, vonir og vonbrigði engu síður en mennirnir. Og þau eru meira að segja látin hafast ýmislegt að, sem ekki þætti sæmandi drengskaparmanni. Til að mynda kemur Óðinn áformum sínum jafnan fram með brögðum, og stundum rýfur hann eiða sína. Hann etur saman konungum, en sættir aldrei og ber „sakrúnar með sifjungum". En með þessum aðgerðum stjórnar hann tafli heimsins og reynir í lengstu lög að afstýra þeim óskköpum, sem hann veit, að eru fram undan. En frá siðferðilegu sjónarmiði er Óðinn „handan við gott og illt", eins og Einar Ólafur Sveinsson hefur komizt að orði. Og yfirleitt eru goðin ekki mæld á mælistiku mannlegrar hegðunar. En fjölbreytnin í skapgerð þeirra er heillandi fyrir nútíma lesendur. Hvert goð er mótað sterkum persónulegum dráttum, og þar skiptast á skin og skuggar. Að þessu leyti líkjast persónulýsingar goðakvæða fjölskrúðugustu mannlýsingum Íslendinga sagna.

Það var áður tekið fram, að persónulýsingar goðakvæða eru mjög mannlegar. En stundum finnst lesandanum, að mannlýsingar hetjukvæða séu meira en mannlegar. Ég á hér ekki við líkamshreysti og vígfimi, því að slíkt er algert aukaatriði í Eddukvæðum. Skáldin leggja alla alúð við að lýsa skapstyrk hetjunnar, ástríðum hennar og tilfinningum. Sumar hetjurnar nálgast það að vera óskmyndir manna. Má þar til nefna Sigurð Fáfnisbana og Helga Hundingsbana. Ekkert gat verið fjarstæðara en að slíkir menn yrðu nokkurn tíma broslegir, eins og Þór og Óðinn urðu hvað eftir annað í goðakvæðunum. Jafnmikil fjarstæða væri, að þeir brygðust drengskaparskyldu sinni eða ynnu nokkurt það verk, sem setti blett á sæmd þeirra.

Allt öðru máli gegnir um kvenlýsingar hetjukvæða. Þær eru ekkert ljós á ljós ofan. Flestar kvenhetjurnar eru stórar í sniðum, en þær eru engir englar. Flest illvirki, sem sagt er frá, eru runnin undan rifjum kvenna, og í rauninni eru það konur, sem stjórna tafli örlaganna í flestum hetjukvæðunum. Skáldin leggja líka miklu meiri rækt við að sýna skaphöfn kvenna en karla. Og þótt mörg kvæðin séu kennd við karlmenn, eru það oft kvenlýsingarnar, sem bera þau uppi. Karlmönnum er þar að vísu stundum lýst með miklum glæsi-

brag. En hetjuhugsjón þeirra var í svo föstu formi, að skáldunum var þar ekki gefið slíkt svigrúm til fjölbreytni sem í kvenlýsingunum.

Algengasta yrkisefni hetjukvæða eru menn, sem leiddir eru í þá sjálfheldu að eiga aðeins um tvo kosti að velja og báða illa. Og gildir það jafnt um konur og karla. En hetjurnar velja hiklaust, oftast út frá sjónarmiði sæmdarinnar. Stundum er eina úrræði þeirra að vinna illvirki, sem þær hlýtur sjálfar að hrylla við. Og jafnvel hinar flekklausu hetjur komast ekki hjá að fremja ýmis verk, sem valda þeim sjálfum þungri sorg. Helgi Hundingsbani neyddist til þess að vega föður og bróður ástkonu sinnar og sagði henni sjálfur víg þeirra með miklum trega. Hér er komið að einu algengasta harmsefni hetjukvæða, er nánustu venzlamenn berast á banaspjót. Átakanlegust er lýsingin á Angantý Heiðrekssyni, sem varð bróður sínum að bana, en kvað í valnum yfir líki hans:

Bölvað er okkur, bróðir,
bani em eg þinn orðinn.
Það mun enn uppi,
illur er dómur norna.

En eina svar mannsins við dómi norna (þ. e. örlögunum) var að standa einn og óbugaður.

Eins og sést af þessum dæmum, eru flest hetjukvæðin harmleikir. Og þótt mesta harmsefnið sé að jafnaði fólgið í frændvígum og hermdarverkum, sem hetjurnar töldu sér skylt að vinna, má ekki heldur gleyma hinu, að flest kvæðin lýsa ósigrum hetjanna. En það var aðal þeirra að vera miklar í ósigrinum.

Það er eftirtektarvert, að á þeim öldum, sem flest hetjukvæðin gerast, lögðu germanskar þjóðir undir sig allan vesturhluta Rómaveldis. En um þessa miklu sigurvinninga er ekki til eitt einasta kvæði. Afrek herkonunga voru fánýt yrkisefni í samanburði við persónuleg vandamál þeirra. Og það var fyrst á stund ógæfunnar og ósigursins, sem hetjan gat sýnt, hvað í henni bjó. Aldrei er meiri reisn yfir hetjunni en á banastund hennar. Högni Gjúkason hló, er menn Atla Húnakonungs skáru hjartað úr honum lifandi, og Gunnar, bróðir hans, fagnaði því í ormagarðinum, að nú vissi hann einn, hvar gullið Fáfnisarfur væri fólgið. Hamdir og Sörli börðust vonlausri baráttu við ofureflið í höll Jörmunreks konungs, en þó með glöðu bragði, því að þeir gátu sagt:



Vel höfum vegið,
stöndum á val Gotna
ofan eggmóðum
sem ernir á kvisti.
Góðs höfum tírar fengið
þótt skylim nú eða í gær deyja.
Kveld lifir maður ekki
eftir kvið norna.

Slík var hugsun hetjanna, sem mátu sæmdina meira en lífið. Og frá ævilokum þeirra bræðra segir á þessa leið:

Þar féll Sörli
að salar gafli,
en Hamdir hné
að húsbaki.

Hér að framan hefur verið reynt að draga fram þann mun, sem er á listsköpun goðakvæða og hetjukvæða. En eitt er það kvæði, sem sameinar kosti beggja tegunda. Það er Völuspá. Þar eru goðin í fyrsta sinn mæld á siðferðilegan mælikvarða og verða sjálf að þola afleiðingar verka sinna. Þótt glæsilega sé lýst fyrri æviskeiðum goðanna, gera dauði Baldurs og ragnarök alla baráttu þeirra að harmsögu. En eftir ógnir ragnaraka birtir aftur til, og hin endurborna jörð er full af unaði.

Áður var þess getið, að persónulýsingar goðakvæða, einkum lýsing Óðins, virðast hafa haft djúp áhrif á þær Íslendinga sögur, sem lýsa mönnum með sundurleita skapgerð. Skýrast er svipmót Óðins á Njáli, er verður að heyja vonlausa baráttu við örlögin, sem hann veit sjálfur fyrir. En greinilegastur skyldleiki er með Eddukvæðum og Íslendinga sögum í lýsingum kvenna. Það eru ekki hinar blíðu þolandi ástmeyjar, sem setja svip á þessar bókmenntir, heldur konur, sem veita ástríðum sínum útrás í stórvirkjum og harðræðum. Engum fær heldur dulizt, hve harmsefni Íslendinga sagna sverja sig í ætt við lífsskoðun hetjukvæða.

Hér er ekki rúm til að rekja nánar áhrif Eddukvæða á bókmenntir Íslendinga. En ennþá óma strengir þeirra í kvæðum þeirra skálda, sem leystu íslenzka ljóðagerð úr læðingi á 19. öld.

*Varðveizla, aldur og heimkynni.*

Nafnið Edda er upphaflega heiti á bók Snorra Sturlusonar, sem nú er venjulega nefnd Snorra-Edda. En í bréfi, sem Brynjólfur biskup Sveinsson skrifaði veturinn 1641—42, lætur hann í ljós þá skoðun, að til hafi verið önnur Edda meiri, sem Sæmundur fróði hefði skráð, og Snorra-Edda sé aðeins útdráttur úr henni. Árið eftir eignaðist Brynjólfur forna skinnbók með goða- og hetjukvæðum, og nefndi hann bókina Eddu Sæmundar fróða. Bók þessa sendi Brynjólfur Danakonungi, og er hún enn í Konungsbókhlöðu í Kaupmannahöfn og er nefnd Konungsbók á íslenzku, en Codex Regius á latínu (í útgáfum ýmist skammstöfuð K eða R). Ekki vita menn, á hverju Brynjólfur biskup byggði þá skoðun sína, að Sæmundur fróði hefði skrifað Eddu. En fræðimenn eru sammála um, að sú skoðun geti ekki verið rétt. Rök hafa verið leidd að því, að Eddukvæði hafi ekki verið skráð fyrr en löngu eftir daga Sæmundar, og þau bera þess merki að vera ort af ýmsum mönnum á ýmsum tímum, svo að óhugsandi er, að Sæmundur hafi ort þau. Eigi að síður hefur nafnið Sæmundar Edda verið notað allt til þessa dags, en eins algengt er að tala um Eddukvæði, enda nær það hugtak yfir fleiri kvæði en eru í bók þeirri, sem Brynjólfur eignaði Sæmundi.

Annað helzta Eddukvæðahandrit er geymt í Árnasafni (A. M. 748 4to, í útgáfum skammstafað A). Það hefur að geyma allmörg sömu goðakvæði og Konungsbók og auk þeirra Baldurs drauma. Þá er Völuspá einnig í Hauksbók, og Hyndluljóð ásamt Völuspá hinni skömmu eru aðeins varðveitt í Flateyjarbók. Í Snorra-Eddu eru og allmargar vísur úr Eddukvæðum, einkum goðakvæðunum: Völuspá, Vafþrúðnismálum og Grímnismálum, og í sumum handritum hennar eru einnig Gróttasöngur og Rígsþula, sem hvergi hafa geymzt annars staðar. Í fornaldarsögum eru auk vísna úr Eddukvæðum Konungsbókar varðveitt ýmis kvæði í eddukvæðastíl, sem stundum eru einu nafni nefnd Eddica minora. Af þeim er aðeins tekin í þessa útgáfu Hlöðskviða, sem er í Hervarar sögu og Heiðreks. Loks eru Grógaldur og Fjölsvinnsmál aðeins til í pappírshandritum frá 17. öld.

Misjafnlega mikill munur er á handritum þeirra kvæða, sem geymzt hafa á fleirum en einum stað. Stundum er hann svo lítill, t. d. á K og A, að ætla verður, að þau eigi rót sína að rekja til sameiginlegrar uppskriftar. Í öðrum tilfellum eru handritin svo ólík, t. d. af



Völuspá, að líklegast þykir, að þar sé um fleiri sjálfstæðar uppskriftir að ræða eftir minni manna. Áður en Eddukvæði voru skráð, hafa þau um skeið lifað á vörum þjóðarinnar. Þess er því ekki að vænta, að nokkurt þeirra sé til í nákvæmlega sömu mynd og skáldið gaf þeim í upphafi. Varðveizla þjóðkvæða sýnir bezt, að ljóð, sem geymast í hugum kynslóðanna, eru mjög opin fyrir breytingum. Og þeim mun meiri hætta er á slíku sem kvæðin eru óbrotnari að formi. En að því leyti voru Eddukvæðin miklu minna skorðuð en annar norrænn skáldskapur í þá daga.

Um síðustu aldamót var það tízka meðal fræðimanna að reyna að finna hina upphaflegu gerð Eddukvæða með því að fella úr þeim vísur eða vísubrot, raða erindum upp og breyta þeim, eftir því sem þurfa þótti. Nú eru menn yfirleitt komnir á þá skoðun, að slíkt sé alveg vonlaust verk og ekki verði komizt nær hinum upphaflegu kvæðum með öðru en því að halda sig sem mest við handritin.

Um aldur Eddukvæða vita menn raunverulega mjög lítið. Síðari tímamörkin ákvarðast af aldri Konungsbókar, sem menn telja nokkuð öruggt, að sé rituð á síðara helmingi 13. aldar. Konungsbók er ekki frumrit Eddukvæða, heldur rituð eftir eldra handriti. Það þykjast menn sjá með vissu af mislestri einstakra orða. Ekki verður því sagt með vissu, hvenær Eddukvæðum er fyrst safnað saman. En margir fræðimenn telja líklegt, að það hafi verið skömmu eftir að Snorri samdi Eddu sína, en talið er, að hún sé rituð nálægt 1220. Nokkuð eldri tímamörk er hægt að setja goðakvæðunum með hliðsjón af Snorra-Eddu. Snorri lætur goðin sjálf hafa yfir vísur úr þeim í Valhöll. En slíkt hefði hann tæplega gert, ef hann hefði vitað um upphaf og höfunda kvæðanna. Hafa verður því fyrir satt, að þau kvæði hafi verið talin mjög gömul á dögum Snorra og enginn hafi þá vitað um höfunda þeirra.

Fyrri aldursmörk hetjukvæða ákvarðast af æviskeiðum þeirra manna, er þar koma við sögu. En að minnsta kosti þrjár af hetjum Eddukvæða eru kunnar persónur úr mannkynssögu. Það eru Jörmunrekur Gotakonungur, sem dó 375, Gunnar Borgundakonungur, sem dó 437 og Atli Húnakonungur, sem dó 453. Hetjukvæði um þessa menn hafa því ekki getað verið ort fyrr en nokkru eftir daga þeirra. Svo gömul geta kvæðin þó ekki verið í þeim búningi, sem þau eru til okkar komin. Allir þessir menn lifðu langt frá Norðurlöndum, og

ætla verður, að elztu kvæði um þá hafi verið ort á þýzku eða öðru suðurgermönsku máli. Ekki er vitað, hvenær sagnir um þessa konunga bárust til Norðurlanda, og ekki er fullvíst, hvort það hefur verið í ljóðum eða lausu máli. En flestir hyggja, að megintaug í varðveizlu þeirra og flutningi landa milli hafi verið hetjukvæði. Hin suðurgermönsku kvæði hafa þá annaðhvort verið þýdd á norrænu eða norrænir menn hafa ort ný kvæði af efni þeirra.

Á fyrstu áratugum þessarar aldar töldu málfræðingar fullvíst, að ekkert Eddukvæði gæti verið eldra en frá því um 800. Var sú skoðun studd þeim rökum, að um það leyti hefðu orðið þau málskil, sem greindu að samnorrænu, mál víkingaaldar, og frumnorrænu, sem aðeins var kunn af rúnaristum. En síðan hafa fundizt áletranir, sem sýna, að þessi málskil hafa orðið alllöngu fyrr, og sumir málfræðingar vilja flytja þau aftur undir 600. Í öðru lagi eru menn nú ekki eins vissir um það og áður, að kvæði geti ekki lifað af allmiklar breytingar á máli. Varðveizla þjóðkvæða um aldaraðir og flutningur þeirra frá einu málsvæði til annars benda eindregið í þá átt, að svo geti verið. Þessi málfræðilegu rök um aldurstakmörk Eddukvæða eru því að miklu leyti úr gildi fallin. En með því er ekki sagt, að minnstu líkur séu til, að nokkurt Eddukvæði sé eldra en frá því um 800.

Mesta andlega bylting, sem varð á þeim öldum, sem ætla má, að séu sköpunartími Eddukvæða, var kristnitakan. Og þar sem verulegur hluti Eddukvæða fjallar um goðin, sýnist að óathuguðu máli vera auðvelt að skera úr því, hvort þau séu ort af heiðnum mönnum eða kristnum. Í flestum kvæðunum er efnið alheiðið án þess vart verði kristinna hugmynda. Það hefur því lengst af verið talið, að slík kvæði séu frá heiðnum tíma. Á síðari árum hefur þessi skoðun þó verið gagnrýnd með þeim rökum, að sjaldan gæti heiðinnar trúhneigðar í kvæðunum og stundum séu goðin sýnd í skoplegu ljósi. En þetta getur einnig legið í eðli kvæðanna. Þau eru frásagnakvæði, en ekki sálmar. Og auðvelt er að benda á hliðstæður úr öðrum trúarbrögðum um skoplegar lýsingar á þeim goðum, sem skáldin sjálf trúðu á. Nægir að minna á lýsingar Hómerskvæða á goðum Grikkja. En einnig verður að hafa hugfast, að heiðnar goðasögur lifðu áfram með kristnum mönnum eftir kristnitökuna, og er Snorra-Edda skýrast vitni um það. Það verður því sjaldnast sagt með fullri vissu, hvort goðakvæði Eddu séu til orðin í heiðni eða kristni. Hér hefur Völuspá þó nokkra sérstöðu. Hún virðist ort af trúuðum heiðnum manni, sem hefur



öðlazt nýjan skilning á heiðinni trú vegna þekkingar á kristnum dómi. Fræðimenn eru sammála um, að hún sé ort á þeim tímamótum, þó heldur fyrir kristnitökuna.

Loks skal minnzt á tengsl Eddukvæða og dróttkvæða. Flest dróttkvæði eru eignuð ákveðnum skáldum, sem nokkurn veginn er vitað, hvenær voru uppi. Þótt höfundanöfn dróttkvæða séu ekki alltaf örugg, þekkja menn þó þróun þeirra í stórum dráttum. Fyrst skal getið elztu kvæðanna. Einn þáttur Ragnarsdrápu Braga gamla fjallar um sama efni og Hamdismál. Nokkrar orðalagslíkingar eru með kvæðunum, og eru Hamdismál almennt talin upphaflegri. Samkvæmt ættartölum á Bragi að hafa verið uppi á fyrra helmingi 9. aldar, og ættu Hamdismál þá ekki að vera miklu yngri en frá því um 800. En samkvæmt skoðunum fræðimanna á þróun Eddukvæða eru Hamdismál þar í fyrsta aldursflokki ásamt Atlakviðu, Hlöðskviðu, Broti af Sigurðarkviðu og Völundarkviðu. Hin frægu orð Hávamála:

Deyr fé
deyja frændur

hefur Eyvindur skáldaspillir tekið upp í Hákonarmál, sem ort eru ekki löngu eftir 960. Og orð Völuspár:

Sól tér sortna
sígur fold í mar

enduróma í Þorfinnsdrápu Arnórs jarlaskálds (um 1065):

Björt verður sól að svartri
sökkur fold í mar dökkvan.

Fleiri slík dæmi væri hægt að nefna, þótt það verði ekki gert hér. En ef innri þróun Eddukvæða er rakin og tekið tillit til tengsla þeirra við dróttkvæði, ber allt að sama brunni um það, að blómaskeið Edduskáldskapar sé tímabilið 800—1100, þótt einstök kvæði séu sennilega yngri og eitthvað kunni að vera eldra.

Þegar rætt er um heimkynni Eddukvæða, er átt við, hvar hin varðveittu kvæði séu ort. Nú eru fræðimenn yfirleitt sammála um, að

þau séu til okkar komin í vesturnorrænum búningi. En ekkert mælir gegn því, að sum elztu kvæðin séu að stofni til að einhverju leyti austurnorræn eða lengra að komin. Hið vesturnorræna málsvæði nær yfir Noreg og öll þau lönd, sem byggð eru þaðan: Færeyjar, Ísland, Grænland og hinar norrænu byggðir á Bretlandseyjum. Ef höfð er hliðsjón af þróun dróttkvæða, má ætla, að Norðmenn og Íslendingar eigi drýgstan þátt í sköpun varðveittra Eddukvæða og séu hin eldri norsk, en hin yngri íslenzk. Mikið hefur verið deilt um heimkynni einstakra kvæða, en út í það verður lítið farið hér. Þó má geta þess, að náttúrulýsingar sumra kvæðanna, t. d. Hávamála og Helgakviðu Hundingsbana II, minna eindregið á Noreg, en Völuspá verður bezt skilin með hliðsjón af íslenzkum staðháttum. Ekkert er heldur því til fyrirstöðu, að einhver Eddukvæði séu ort í norrænum byggðum á Bretlandseyjum. Í sumum þeirra, t. d. Rígsþulu, eru greinileg tengsl við vestræna (írska og enska) menningu. En auðvitað nægir það ekki til að færa sönnur á, hvar kvæðin séu ort.

Í Konungsbók eru tvö kvæði kölluð „in grænlenzku": Atlakviða og Atlamál. Um Atlamál er það að segja, að margt fleira bendir til, að kvæðið sé ort á Grænlandi. Þar er minnzt á draum um hvítabjörn, sem skilinn er svo, að hann boði „hregg austan", og óvenjulegur einangrunar- og kotungsbragur er á lýsingum kvæðisins. Hins vegar eru fræðimenn sammála um, að Atlakviða hljóti að vera eldri en byggð norrænna manna á Grænlandi. Er þá eðlilegast að hugsa sér, að nafngift kviðunnar stafi af því, að henni hafi verið ruglað saman við Atlamál.

Lengra verður ekki farið út í að gizka á heimkynni einstakra Eddukvæða, enda var hið vesturnorræna málsvæði ein menningarheild.

*Goðakvæði (Yfirlit).*

Það var áður tekið fram, að goðakvæðin í Eddu eru hvorki bænir né lofsöngvar, heldur frásagnir af atvikum úr lífi goðanna. Oftast eru goðin ein á sviðinu, og menn koma sjaldnast við sögu. Eigi að síður getur þar leynzt vitneskja um afstöðu manna til goða. Hér á eftir verður reynt að rekja feril goðakvæðanna út frá þessu sjónarmiði, en engin tilraun gerð til að gizka á aldur einstakra kvæða. Þá er fyrst að athuga, hvort í þeim sé að finna nokkra vísbendingu um



heiðna dýrkun. Slík spurning er ekki óeðlileg um goðsagnakvæði, því að í ýmsum trúarbrögðum haldast goðsagnir og helgisiðir í hendur. En það er venjulega aðeins deila um orð, hvort menn líta svo á, að goðsagan eigi upptök sín í helgisiðunum eða þeir séu táknræn eftirlíking hennar.

Þá verða fyrst fyrir okkur Skírnismál og Rúnatal Hávamála. Goðsögn Skírnismála um samgang frjósemdarguðsins og konuefnis hans á sér hliðstæðu í trúarathöfnum, þar sem karlmaður og kona eiga að hafa mök hvort við annað til að efla frjómagn jarðarinnar. En þess háttar helgileikir eru veigamikill þáttur í mörgum trúarbrögðum og eiga rót sína að rekja til þeirrar skoðunar frumstæðra þjóða, að frjósemi mannlífsins orki á frjósemi náttúrunnar. Skírnismál eru samt enginn blótsöngur, heldur listræn túlkun goðsögunnar.

Frásögnin í Rúnatali Hávamála um sjálfsfórn Óðins, þegar hann hékk níu nætur á tré „geiri undaður og gefinn Óðni" virðist vera nákvæm lýsing á fórnarsiðum Óðinsdýrkenda. Eftir því sem næst verður komizt, voru þeir, sem blótað var Óðni, bæði hengdir og markaðir geirs oddi. Píslir þær, sem Óðinn þoldi í trénu, er hann fékk hvorki mat né drykk, hafa verið bornar saman við vígslur ungmenna, sem framdar voru til að efla þroska þeirra (sjá nánar í skýringum). Hér við má bæta 24. vísu Völuspár, sem segir frá því, er Óðinn fleygði geiri sínum yfir lið óvinanna líkt og Steinþór á Eyri skaut spjóti „að fornum sið til heilla sér" yfir flokk Snorra goða. Í Hymiskviðu er lýsing á því, er goðin leituðu frétta með því að horfa í fórnarblóðið. En um svipaðan sið er getið meðal Kimbra, er þeir herjuðu á Rómverja rúmri öld fyrir Krists burð. Annars er Hymiskviða með nokkrum ævintýrabrag og er af flestum fræðimönnum talin meðal yngri goðakvæða. Í Baldurs draumum og Völuspá segir frá því, er Óðinn leitar til spákonu til að frétta um framtíðina, en athafnir af þessu tagi gátu jafnt átt sér stað í heiðnum sið og kristnum.

Næst eru kvæði eins og Grímnismál og Vafþrúðnismál, þar sem meginþættir goðafræðinnar og heimssögunnar birtast í ræðum Óðins og í samtölum við hann. Með þessum kvæðum er eðlilegast að taka 1. kvæði Hávamála, sem er raunverulega ekki goðakvæði, heldur lífsspeki og siðareglur, sem Óðinn birtir mönnunum.

Ef leita skal tengsla við lífsskoðun Hávamála í tiltekinni menningarstefnu, hlýtur hugurinn fyrst að beinast að einstaklingshyggju

víkingaaldar, sem setur vináttu og óvináttu í stað fornra ættartengsla og sóun fjármuna í stað búandlegra hygginda. Ef til vill er það líka umrót þessa tímabils, sem svipt hefur goðin frumkrafti náttúruaflanna og gætt þau mannlegri eiginleikum.

Í kvæðum þeim, sem næst verður vikið að, leggja skáldin alúð við að sýna ólíka skapgerð einstakra goða. Það er ekki þrumuvaldurinn Þór, sem við kynnumst í Þrymskviðu. Heldur er hann hinn óeigingjarni verndari goða og manna, sem leggur það á sig að dulbúast brúðarklæðum til að ná aftur hamri sínum, þótt honum sé annað betur gefið en vera góður leikari. Sama staðfesta og umhyggja fyrir goðum og mönnum ásamt yfirnáttúrlegum mætti kemur fram í mannjafnaðinum, sem hann þreytir við Óðin í Hárbarðsljóðum. En þar er Óðinn sami heimsmaðurinn og bragðakarlinn og þegar hann lýsir ástarævintýrum sínum í 2. og 3. kvæði Hávamála. Lokasenna lítur út eins og hvöss ádeila á goðin. Þó er hún ef til vill aðeins gamanleikur. Goðin eru leidd fram á sviðið í gervi mennskra manna. En ýmsar goðsögur, sem tengdar voru dýrkun náttúrunnar, hlutu að verða ruddalegar, ef litið var á goðin eins og venjulegt fólk. Þess vegna eru þau svo berskjölduð fyrir brigzlyrðum Loka.

Í Völuspá eru goðin hins vegar dæmd eftir ströngustu siðareglum hetjukvæða, eins og áður hefur verið tekið fram. Saga þeirra er gerð að harmleik, þótt látið sé birta til eftir ragnarök. Loks eru svo Alvíssmál og Hyndluljóð ásamt Völuspá hinni skömmu. En efni þeirra er að mestu fróðleikstíningur, sem minnir einna helzt á nafnaþulur Snorra-Eddu, þótt það sé sett í umgerð goðsagna. Rígsþula hefur algera sérstöðu. Hún er heimspekilegt kvæði, sem leitast við að skýra uppruna stéttaskiptingar í mannfélaginu út frá þróunarkenningu síns tíma.

*Völuspá.*

Völuspá minnir að listsköpun meir á hetjukvæði en önnur goðakvæði. Líkt og hetjur fornsagnanna eru goðin leidd í þann vanda, að illvirki er eina úrræðið. Og eftir það verður saga þeirra öll að harmsögu, þangað til ragnarök dynja yfir. Þegar lýst hefur verið sköpun heimsins, segir frá fyrsta æviskeiði goðanna, er þau lifðu glöðu og saklausu lífi í Ásgarði. En þessi gullöld þeirra fékk skjótan endi við komu þriggja þursameyja úr Jötunheimum. Ekkert er frekar



vitað um meyjar þessar, en ætla verður, að jötnar hafi sent þær ásum til tortímingar. Næst segir frá komu völvunnar Gullveigar til Ásgarðs. Æsir vógu hana þrisvar sinnum, en hún lifnaði jafnskjótt aftur. Gullveig virðist vera ímynd gullþorstans, svo að eðlilegt var, að illa gengi að ganga af henni dauðri. Eftir víg Gullveigar brauzt út styrjöld milli ása og vana. Þá var borgarveggur ása brotinn og vanir æða yfir lönd þeirra. Í einfeldni sinni eru æsir ginntir til að gera samning við smið af jötnakyni um byggingu nýrrar borgar, og að launum lofa þeir honum Freyju, Sól og Mána. En þegar smíðinni er lokið, geta æsir ekki staðið við heit sín, og Þór drepur smiðinn í griðum. Nú eru æsir orðnir sekir um eiðrof, og eftir það fer að síga meir og meir á ógæfuhliðina hjá þeim. Þótt enn sé mikill lífsþróttur með goðum, hlutu þau samt að eiga tortíminguna fram undan. Og ragnarök eru eins konar hreinsun hins spillta heims, þar sem bæði goð, menn og jötnar farast. En eftir ógnir ragnaraka rís heimurinn upp aftur betri og fegurri en nokkru sinni fyrr. Og æsir, sem þrátt fyrir allt eru „öflgir og ástkir" (máttugir og kærleiksríkir), byggja þann heim ásamt þeim mönnum, sem reynzt hafa góðir og dugandi. En hið illa er horfið af sviðinu.

Völuspá fjallar að verulegu leyti um sama efni og Vafþrúðnismál. En bygging kvæðanna er næsta ólík. Í Vafþrúðnismálum er saga heimsins sögð án sýnilegra orsakatengsla. En í Völuspá er hver atburður rökrétt afleiðing þess, sem á undan er gengið, og siðferðilegur aflvaki ræður sköpum tilverunnar. Enn fremur hefur höfundur Völuspár losað sig við allt hið ruddalega í heimi goðsagnanna og fágað efni þeirra samkvæmt þroskaðri fegurðarsmekk.

Flestir munu sammála um, að skáldið, sem orti Völuspá, hafi haft einhver kynni af kristinni trú. Samt er efniviður kvæðisins næstum alheiðinn. Og það skiptir tiltölulega litlu máli, þótt einhver atvik, sem sagt er frá, eigi rót sína að rekja til kristinna hugmynda. Hitt skiptir miklu meira máli, að Völuspá á það sameiginlegt með kristnum dómi, að engin skil eru milli guðstrúar og lífsskoðunar. Þannig tekst höfundi Völuspár að gæða ásatrúna siðrænum boðskap og samræma alþýðlegar frásagnir um goðin hinu háleitasta í lífsskoðun hetjualdar.

Völuspá er lögð í munn völvu af jötnaættum, sem Óðinn hefur kvatt til þess að segja sér örlög heimsins. Hún flytur honum kvæðið í áheyrn goða og manna.

*Hávamál.*

Nafnið Hávamál merkir tal Óðins. Auðsætt er, að sá maður, er fyrstur færði Hávamál í letur, hefur litið svo á, að Óðinn flytti þau öll. Annars bera Hávamál það með sér, að þau eru safn kvæða eða kvæðabrota, en ekki eitt einstakt kvæði. En vitneskjan um, að Óðinn væri mælandinn í þeim öllum, hefur fært þau saman í eina heild. Fræðimenn eru vanir að skipta Hávamálum í sex aðalkvæði og auk þess nokkrar vísur, sem eru utan gátta. Fyrsta kvæðið hefur verið nefnt *Gestaþáttur*. Það hefst á því, að gestur kemur á bæ, og hann launar góðar móttökur með hollum ráðum, sem hann flytur húsráðendum. Hann byrjar á þörfum og skyldum gesta og gestgjafa. En síðar verður efnið víðtækara og fjallar um almenn verðmæti mannlegs lífs. Þetta kvæði er látið enda á 77. vísu. Síðan koma nokkrar vísur, áður en næsta kvæði hefst. Þvínæst koma tvö kvæði, sem nefnd hafa verið *Dæmi Óðins*. Í þeim báðum segir Óðinn frá ástarævintýrum sínum. Fyrra dæmið hefst á orðunum: Meyjar orðum skyli manngi trúa, og hyggja sumir, að það sé eins konar dæmisaga um fláttskap kvenna. En Óðinn dregur enga dul á það, hve háðulega hann er leikinn af konu einni, sem hann nefnir Billings mey og hann reyndi að tæla til ásta. Síðara dæmið getur á sama hátt verið dæmisaga um brigðlyndi karlmanna. Þar segir Óðinn frá því, hvernig hann náði skáldamiðinum af Gunnlöðu, dóttur Suttungs jötuns, með því að draga hana á tálar og rjúfa eiða sína.

Fjórða kvæðið líkist fyrsta kvæðinu að því leyti, að það er lífsspeki og siðareglur. Það er nefnt *Loddfáfnismál,* vegna þess að Loddfáfnir er ávarpaður í hverri vísu og heilræðunum beint til hans. Fimmta kvæðið er nefnt *Rúnatal*. Fyrri hluti þess fjallar um sjálfsfórn Óðins og píslir þær, sem hann þoldi, er hann hékk níu nætur á tré til að öðlazt vizku. Er þeim þætti gerð nánari skil í skýringunum. Síðari hluti þessa kvæðis fjallar eitthvað um rúnir, en er frekar sundurlaus. Í sjötta kvæði, sem nefnt er *Ljóðatal,* telur mælandinn upp galdraljóð þau, er hann kann, og lýsir áhrifum þeirra. En ljóðin sjálf birtir hann ekki. Hvergi nefnir hann nafn sitt. En allur svipur kvæðisins mælir með því, að það sé Óðinn, sem hefur orðið. Á eftir Ljóðatali er ein vísa, þar sem áheyrendur eru kvaddir og þeim árnað allra heilla. Er það fagurt niðurlag alls Hávamálasafnsins.

Ýmsir fræðimenn hafa dregið í efa, að Óðinn sé upphaflega mælandinn í öllum kvæðum Hávamála. Sérstaklega hefur þessi gagnrýni beinzt að heilræðakvæðunum tveimur: Gestaþætti og Loddfáfnismálum. En því er til að svara, að í 13. og 14. vísu Gestaþáttar skýrir Óðinn frá eigin reynslu. Gagnrýnendurnir verða því að telja þær innskot. Og í upphafi Loddfáfnismála segist mælandinn þylja á þularstóli við Urðarbrunn fræði þau, er hann nam í Hávahöllu. En hvað sem um þetta má segja, eru Hávamál öll til okkar komin sem ræða Óðins.

Þegar rætt er um lífsskoðun Hávamála, er oftast átt við Gestaþátt og að nokkru við Loddfáfnismál. Lengst af hefur verið talið, að Hávamál væri spegilmynd af hinni fornu heiðnu siðaskoðun. En Sigurður Nordal hefur fært gild rök að því, að þau eru miklu fremur uppreisnaróður gegn hefðbundnu ættarþjóðfélagi og rótgróinni bændamenningu. Ættarinnar gætir lítið í samanburði við vináttuna, og fjáreyðsla er tekin fram yfir auðsöfnun. Maður á ekki að safna fé handa niðjunum, heldur njóta þess sjálfur. Annars er auðurinn lítils virði, og mestu máli skiptir að vera sjálfbjarga, svo að ekki þurfi að leita til annarra. Skáldið þreytist aldrei á því að brýna fyrir mönnum, hve sá, er víða ratar, sé miklu fremri að mannviti en hinn, sem alltaf er bundinn við sömu torfuna. En mannvitið er æðsta dyggð Hávamála. Samt getur það orðið of mikið, því að það eykur áhyggjurnar að vita örlög sín fyrir. Fegurstu vísur kvæðisins eru um verðmæti mannlegs lífs, og sumar þeirra eru svo fullkomnar að formi, að ekki er unnt að gera betur:

> Ungur var eg forðum
> fór eg einn saman.
> Þá varð eg villur vega.
> Auðigur þóttumk,
> er eg annan fann.
> Maður er manns gaman.

Allir eiga að njóta lífsins og vera glaðir og reifir, meðan það endist. Ekkert er eins fyrirlitlegt og að una sér ekki við neitt. Aldrei getur lífið orðið svo aumt, að ekki sé vert að lifa því. Hins vegar er hinn dauði til einskis nýtur. Samt hefur lífið varanlegt gildi fyrir manninn, sem nær út yfir gröf og dauða, því að „orðstír deyr aldregi, hveim er sér góðan getr“. Hér mætir hin forna bölsýni og sæmdarhugsjón

hetjualdar hinum nýja boðskap um gleði og lífsnautn. En lífsnautn Hávamála er hvorki fólgin í svalli né sællífi, heldur lífsfyllingu hins vitra manns, sem á máli Jónasar Hallgrímssonar nefnist „lífsnautnin frjóva".

Áður hefur verið tekið fram, að lífsskoðun Hávamála bendir einna helzt til víkingaaldar.

*Vafþrúðnismál.*

Vafþrúðnismál gerast á tveim sviðum. Á fyrra sviðinu eru Óðinn og Frigg. Óðinn skýrir frá því, að hann ætli á fund Vafþrúðnis jötuns að reyna speki hans. Frigg letur hann fyrst fararinnar, en árnar honum síðan allra heilla. Þá kemur ein vísa, sem tengir sviðin saman. Á síðara sviðinu fer fram vizkukeppni Vafþrúðnis og Óðins, sem er í dulargervi og nefnist Gagnráður. Þeir veðja höfðum sínum um, hvor þeirra sé vitrari. Lengi leysa báðir vel úr öllum spurningum. Að lokum spyr Gagnráður, hvað Óðinn hafi mælt í eyra Baldri, áður en hann steig á bálið. En það veit enginn nema Óðinn sjálfur, svo að Vafþrúðnir varð að láta höfuð sitt. Svör þeirra Óðins og Vafþrúðnis mynda aðalefni kvæðisins, og í þeim er fólgin mikil vitneskja um upphaf og endi heimsins og margt fleira í goðafræðinni. Efnið er því að verulegu leyti hið sama og í Völuspá. En sá er munurinn, að í Vafþrúðnismálum er þetta allt sundurlaus fróðleikur, en ekki samfelld saga. Enn fremur eru frásagnir um sömu viðburði alltaf miklu frumstæðari og grófgerðari í Vafþrúðnismálum, og má ætla, að þau geymi réttari hugmyndir um trú alþýðunnar. Umgerð Vafþrúðnismála minnir að því leyti á gátukeppni Óðins og Heiðreks konungs, að í bæði skiptin sigrar Óðinn með sömu lokaspurningunni. En báðar þessar frásagnir benda til þess, að fróðleikskeppni hafi verið iðkuð sem íþrótt á Norðurlöndum.

*Grímnismál.*

Grímnismál eru eintal Óðins. Í inngangsorðum kvæðisins í lausu máli segir frá tveimur ungum konungssonum, Agnari og Geirröði. Þeir lentu í hrakningum og komu á kotbæ einn til karls og kerlingar, sem í rauninni voru Óðinn og Frigg. Frigg fóstraði Agnar, en Óðinn Geirröð. Geirröður kom illa fram við bróður sinn, svo að Frigg



varð honum óvinveitt og sagði Óðni, að hann væri matníðingur. Jafnframt sendi hún orð til Geirröðar, að kominn væri í land fjölkunnugur maður, er hann skyldi varast. Síðan fór Óðinn í dulargervi til Geirröðar konungs og nefndist Grímnir. Konungur hugði, að hér væri kominn galdramaðurinn, sem hann var varaður við, og lét setja hann milli elda tveggja og pína hann til sagna. Þar sat Óðinn átta nætur. Að þeim tíma liðnum flutti hann kvæðið. Í því segir Óðinn konungi frá bústöðum goðanna, aski Yggdrasils og ýmsu fleira úr goðafræðinni, og að lokum telur hann upp nöfn á sjálfum sér. En Geirröður þekkir hann samt ekki. Verður Óðinn þá að segja til sín. Ætlar konungur þá að fagna gesti sínum, en steypist á sverð sitt og fær bana.

Ýmsir fræðimenn telja, að Grímnismál séu opinberun þeirrar vizku, sem Óðinn öðlaðist við píslir þær, sem hann þoldi í höll Geirröðar (sbr. Rúnatal Hávamála). En hér er fleira, sem bendir á forneskjulegar trúarhugmyndir. Eitt er það, að Óðinn á sína óskasyni meðal mannanna. En það efni kemur fram í ýmsum myndum, meðal annars í sögunni um Starkað gamla. Einnig er til eldforn sögn um glettur Óðins og Friggjar, sem lýkur með sigri hennar. Sagan er fyrst skráð í latnesku riti um uppruna Langbarðaþjóðar, sem talið er frá 7. öld. Þar segir frá tveim þjóðflokkum, sem áttu í stríði, og leitaði annar fulltingis Óðins, en hinn Friggjar. Óðinn hét þeim sigri, er hann sæi fyrr næsta morgun og lagðist þannig fyrir, að andlit hans vissi að þeim, er til hans höfðu leitað. En Frigg sneri Óðni sofanda, svo að heit hans hafði gagnstæð áhrif. Þegar allt þetta er haft í huga, verður að hafa fyrir satt, að ekki einungis Grímnismál sjálf, heldur einnig umgerð þeirra, eigi rót sína að rekja til forns átrúnaðar.

Grímnismál eru ásamt Völuspá og Vafþrúðnismálum aðalheimild um goðafræðina meðal Eddukvæða, og Snorri hefur mjög farið eftir þeim öllum í Gylfaginningu.

*Skírnismál.*

Skírnismál eru byggð upp á leikrænan hátt. Sviðin eru tengd saman með stuttum innskotsgreinum. Og meira að segja tekst skáldinu að skapa eftirminnilega mynd af ferðalagi með því að láta Skírni ávarpa hest sinn. Lýsingar kvæðisins eru óvenju myndrænar. Lesand-

inn skynjar harm Freys, er hann situr einn „endlanga sali“ og fær ekki notið sólskinsins, sem ljómar allt í kringum hann. Efni kvæðisins er á þessa leið: Freyr settist eitt sinn í Hliðskjálf, hásæti Óðins, og sá um heima alla. Þá sá hann meðal annars jötunmey eina fagra, sem Gerður Gymisdóttir hét. Freyr fékk svo mikla ást á henni, að hann mælti ekki við menn og neytti hvorki svefns né matar. Þá kom Njörður að máli við Skírni, skósvein Freys, og bað hann grennslast um hagi sonar síns. Þegar Freyr hafði sagt honum hið sanna, bað hann Skírni að fara fyrir sig í Jötunheima og færa sér meyna. Síðan fór Skírnir til garða Gymis og náði fundi Gerðar og bað hennar til handa Frey. Hún var treg til ráðahagsins, en Skírnir neyddi hana með göldrum til að lofast honum. Átti Freyr að hitta hana að níu nóttum liðnum við lundinn Barra. Að því búnu heldur Skírnir heim, og kvæðið endar á því, að Freyr lýsir óþreyju sinni yfir að þurfa að bíða svona lengi eftir henni.

Það er engin tilviljun, að eina goðsagan, sem til er um Frey, er ástarsaga. Freyr var guð ársældar og frjósemi, og það var starfssvið hans að lifa stöðugu ástalífi til að halda við frjósemi náttúrunnar. Og dýrkun Freys var að verulegu leyti fólgin í helgileikjum, sem miðuðu að því að sýna ástalíf guðsins sjálfs. Eigi að síður er ástæðulaust að líta á Skírnismál sem blótsöng, er hafður hafi verið um hönd við slíkar athafnir. Goðsagan og helgileikirnir eru tvær hliðar sömu trúarhugmyndar. Vart verður dregið í efa, að hvorttveggja eigi upptök sín í þeirri trú, að frjósemi goðheims orki á frjósemi náttúrunnar. En í Skírnismálum er goðsagan um Frey og Gerði orðin að ástarsögu, sem að öllu leyti lýtur lögmálum listarinnar.

*Hárbarðsljóð.*

Hárbarðsljóð eru mannjafnaður Þórs og Óðins. Þór fór úr Austurvegi og kom að sundi einu. Ferjukarl var handan sundsins. Þór kallaði til hans og beiddi hann fars, en karlinn svaraði skætingi einum og neitaði að ferja hann. Allt kvæðið er orðasenna, sem þeir háðu yfir sundið. Ferjukarlinn nefndist Hárbarður (þ. e. Gráskeggur), en af svörum hans er ljóst, að hann er enginn annar en Óðinn sjálfur, enda er Hárbarður Óðinsheiti. Báðir telja þeir upp afrek sín, en niðra hvor öðrum. Þór hælir sér mest af bardögum við tröll og þakkar sér einum, að jötnar hafa enn ekki lagt Miðgarð (bústað



mannanna) í eyði. Óðinn raupar hins vegar mest af prettvísi sinni og kvenhylli. En hann segir líka þessi eftirminnilegu orð:

Óðinn á jarla,
þá er í val falla,
en Þór á þrælakyn.

Það er auðvitað fjarstæða, að Þór hafi aðallega verið guð þræla. En öllu gamni fylgir nokkur alvara. Það kemur víða fram, að Óðinn var höfuðguð konunga, víkinga og skálda, en Þór var meir blótaður af alþýðu. Þegar hér er komið sögu, hafa guðirnir tekið á sig svipmót þeirra manna, sem mest tignuðu þá. Óðinn er ímynd hins lífsreynda heimsmanns, sem er fullur af stríðni og kerskni. En Þór er í ríkum mæli búinn dyggðum góðs bónda. Skáldið leiðir þessa tvo höfuðleiðtoga goðanna mjög hlutlaust fram á sviðið. En samt hlýtur áhorfandinn að finna til þess, hve hinn sterki og drenglyndi Þór er umkomulaus, er hann mætir andlegum yfirburðum Óðins.

*Hymiskviða.*

Hymiskviða virðist vera sett saman úr aðskiljanlegum goðsögum og ævintýrum. Inntak sögunnar er ferð Þórs til Hymis jötuns til að sækja ketil einn mikinn til ölheitu. En inn í hana er skotið hinni alkunnu sögu um fiskidrátt Þórs, er Miðgarðsormur beit á öngulinn hjá honum. Enn fremur segir frá aflraun í höll Hymis, sem fólgin var í því að brjóta bikar jötunsins, sem hvergi varð brotinn nema á hausi hans. En „hin fríða frilla“ Hymis kenndi Þór leyndarmálið. Hér eru greinilega tvö ævintýraminni: annað um fríða konu í híbýlum trölla, sem veitir ferðamönnum hjálp, en hitt um bikarinn, sem gat ekki brotnað, nema honum væri kastað í haus eigandanum. Einnig eru í Hymiskviðu minni um hafra Þórs úr sögunni um för Þórs til Útgarða-Loka. Hymiskviða hefur fleiri kenningar en önnur Eddukvæði og sver sig að því leyti í ætt til dróttkvæða.

*Lokasenna.*

Lokasenna er orðadeila milli Loka annars vegar og flestra annarra goða hins vegar. Kvæðið hefst fyrir utan höll Ægis, þar sem Loki á nokkur orðaskipti við þjónustumann hans. Síðan gengur Loki inn í höllina, þar sem goðin sitja að drykkju. Loki atyrðir þau hvert af

öðru mjög harkalega. Goðin bregðast misjafnlega við, en öll andmæla þau, og flest þeirra hóta honum hörðu. En Loki lætur engan bilbug á sér finna, fyrr en Þór kemur og hótar að slá hann með hamri sínum. Þá varð Loki að hætta leiknum og ganga út.

Mörg af brigzlyrðum Loka styðjast við kunnar goðsögur, en Loki leggur allt út á versta veg. Önnur eiga enga stoð í kunnum heimildum, og sum þeirra eru þess eðlis, að þau virðast vera almenn fúkyrði, sem þjóna þeim tilgangi einum að sýna innræti Loka.

Mikið hefur verið deilt um, hvort Lokasenna sé ort af heiðnum manni eða kristnum, og einnig um það, hver sé tilgangur kvæðisins. Út í það verður lítið farið hér. En flestar kunnar ásakanir Loka er hægt að skýra á einn veg. Goðsagan er í upphafi annars eðlis en hetjusagan. Kjarni goðsögunnar er dýrkun goðanna og starfssvið þeirra. Þess vegna urðu þau goð, sem sáu um ávöxt jarðar, að lifa stöðugu ástalífi til að efla hann með eigin frjósemi. Og Óðinn, guð hinnar æðstu speki, hlaut að taka öðrum fram í kunnáttu og meðferð galdra, sem ekki voru greindir frá öðrum vísindum í þá daga. En í Lokasennu gerir skáldið sér leik að því að sýna goðin eins og venjulegt fólk. Þá var starfsemi frjósemdargoðanna ekkert frábrugðin venjulegu lauslæti karla og kvenna, og galdrameistarinn Óðinn keimlíkur venjulegum seiðskratta. Það er aðeins einn úr hópi goðanna, sem þolir slíka meðferð: Þór, hinn máttugi verndari goða og manna.

Þegar þetta er haft í huga, er sennilegast, að Lokasenna hafi engan trúarlegan tilgang. Skáldið hefur haft í huga ýmsar orðasennur, sem það þekkti úr samtíð sinni og jafnvel hafa verið iðkaðar sem íþrótt. Og það hefur haft gaman af að láta Loka, frumkvöðul flærðanna, sýna goðin í þessu skoplega ljósi. Um aldur Lokasennu verður ekkert fullyrt. En þó er eðlilegra að hugsa sér, að slíkur gamanleikur verði til á þeim tíma, þegar goðin eru lifandi veruleiki í hugum manna.

*Þrymskviða.*

Í upphafi Þrymskviðu hrífst lesandinn snögglega inn í spennandi viðburðarás. Þór er reiður, þegar hann vaknar og saknar hamars síns. Sjá nú æsir ekki fram á annað en jötnar muni leggja undir sig Ásgarð, ef þeir ná ekki aftur hamrinum. Fékk þá Loki léðan fjaðurham, sem Freyja átti, og flaug í honum til Jötunheima. Þar



átti hann orðaskipti við Þrym jötun, sem kvaðst hafa stolið hamrinum, en neitaði með öllu að láta hann af hendi, nema hann fengi Freyju fyrir konu. Flaug þá Loki aftur heim í Ásgarð og sagði tíðindin. Freyja brást reið við, er hún heyrði, að æsir vildu gefa hana jötnum, og neitaði að fara. Þá gengu æsir á ráðstefnu, og var það til bragðs tekið að binda Þór brúðarlíni og senda hann til Jötunheima í gervi Freyju. Loki ók með honum, og skyldi hann vera ambátt Freyju. Þór kunni illa við sig í brúðarklæðum, og lá við sjálft, að hann kæmi upp um sig með því, hve hann át mikið og sjónir hans voru ógurlegar. En Loki bjargaði öllu með því að segja, að Freyja hefði hvorki neytt svefns né matar undanfarið af tilhlökkun að komast í Jötunheima. Að lokum lætur Þrymur sækja hamarinn til að vígja þau saman með. Var hann lagður í kjöltu brúðarinnar. En Þór var þá ekki seinn á sér að grípa hamarinn, og drap hann Þrym fyrstan, en síðan allt hans hyski.

Söguefnið streymir áfram með miklu lífi og fjöri, ýmist í frásögn eða samtölum. Persónulýsingar eru með ágætum. Þór er vandræðalegur í gervi sínu, Loki lævís og slunginn og Þrymur tröllheimskur. Og ekki má gleyma hinni blíðu ástagyðju Freyju, þegar hún hvæsir af reiði, er hún er beðin að giftast Þrym jötni. Yfir öllu kvæðinu er létt gamansemi. En auðséð er, að skáldið metur Þór mikils, þótt það láti eftir sér að gamna sér við hið broslega í fari hans. Í Þrymskviðu eru heilir vísupartar oft endurteknir með litlum breytingum. Ýmsir fræðimenn rekja þetta snið til áhrifa frá danskvæðum og telja því kviðuna mjög unga, helzt frá 13. öld. En torvelt reynist að benda á fyrirmyndir úr þeirri átt, því að engin slík danskvæði eru til frá Norðurlöndum eldri en Konungsbók.

*Alvíssmál.*

Alvíssmál gerast öll á einu sviði. Þau eru orðaskipti Þórs og dvergsins Alvíss, sem bjó í steini fyrir neðan jörð. Alvís kom til Þórs að krefja hann um dóttur hans, sem dvergurinn sagði, að sér hefði verið heitin. Þór kvaðst ekki hafa verið heima, er honum var lofað meynni, og neitaði að gefa honum hana, nema hann segði sér, hvað þeir hlutir, er hann spyrði um, væru nefndir í hverjum heimi. Síðan spyr Þór þrettán spurninga um heiti á jörð, himni, sól, mána og fleiri hlutum í heimi manna, goða, jötna, álfa o. s. frv. Dvergurinn

leysti vel úr öllu, en gáði ekki að sér. Og er sól skein á sali, dagaði hann uppi. Þór er hér ólíkur sjálfum sér, því að þetta er í eina skiptið, sem hann beitir brögðum af sjálfsdáðum. En honum hefur þótt dvergurinn of lítilmáttugur til að beita afli við hann.

Svör dvergsins við spurningum Þórs eru aðalefni Alvíssmála. Og þótt þau séu eins konar samheitaorðabók, bregður víða fyrir ljóðrænni fegurð. Sérstaklega fögur eru sum heitin í heimi álfa. Þar heitir jörðin: gróandi, himinninn: fagraræfur, sólin: fagrahvel og vindurinn: dynfari. Um tveir tugir heitanna koma hvergi fyrir annars staðar, og er trúlegast, að skáldið hafi búið sum þeirra til. Alvíssmál skera sig að því leyti úr öðrum nafnaþulum, að þar virðist fegurðarsjónarmiðið skipa hærri sess en fróðleikurinn. Sögnin, sem myndar umgerð kvæðisins, er ekki kunn úr öðrum heimildum. Hins vegar er það algengt þjóðsagnaminni, að vættir verði að steini, er þær sjá dagsljósið.

*Baldurs draumar.*

Kvæðið Baldurs draumar á það sameiginlegt með Völuspá, að bæði kvæðin segja frá því, að Óðinn fer til spákonu að leita frétta. En Baldurs draumar eru ekki eintal völvunnar, heldur frásagnarkvæði með samtölum, þar sem bæði Óðinn og völvan taka til máls. Kvæðið hefst á þingi goða, er þau ræða um erfiða drauma Baldurs. Síðan ríður Óðinn til Heljar og sér, að þar er allt búið til veizlu. Þvínæst kemur Óðinn að völuleiði þar fyrir austan dyr og vekur upp völvuna og tekur að spyrja hana. Hún segir Óðni, að undirbúin sé koma Baldurs. Þá svarar hún spurningum Óðins um örlög hans, hver verði honum að bana og hver hefni hans. Og að lokum ógnar hún Óðni með ragnarökum. Milli Baldurs drauma og Völuspár eru mikil tengsl, og ein vísa er sameiginleg. Ekki er fullvíst um afstöðu kvæðanna. En samkvæmt efninu er eðlilegast að hugsa sér, að Baldurs draumar séu heimild Völuspár um fyrri fund Óðins og völvunnar, er hún sagði honum örlög Baldurs.

*Rígsþula.*

Rígsþula greinir frá uppruna stéttanna í mannfélaginu. Rígur, einn af ásum, var á ferðalagi og kom til þriggja hjóna: Áa og Eddu (langafa og langömmu), Afa og Ömmu og Föður og Móður. Hann



gisti hjá þeim öllum og lagðist milli hjónanna. En svo bar við níu mánuðum síðar, að allar konurnar ólu syni. Hét sonur Eddu Þræll og varð forfaðir þræla. Sonur Ömmu hét Karl og varð forfaðir karla (bænda). Sonur Móður hét Jarl og varð forfaðir jarla. Yngsti sonur Jarls hét Konur ungur. Hann bar langt af bræðrum sínum, sem allir voru þó mikils háttar menn. Hann sigraði einnig föður sinn í rúnakunnáttu og annarri speki og hlaut Rígs nafn. Niðurlag kvæðisins vantar, en greinilegt er, að gert er ráð fyrir, að Konur ungur verði forfaðir konunga. Í lausu máli á undan kvæðinu segir, að Rígur sé raunverulega guðinn Heimdallur, sem nefndi sig svo í þetta sinn. En höfundur Völuspár kallar mennina „meiri og minni mögu Heimdallar". Verða þessi ummæli ekki skilin öðruvísi en að hann hafi þekkt Rígsþulu eða sögu um sama efni.

Uppistaða Rígsþulu er eins konar þróunarkenning. Skáldið lætur ekki sitja við það eitt að rekja þrælaættir til elztu kynslóðarinnar, en jarlaættir til hinnar yngstu. Það sýnir einnig, hvernig yngsti sonur Jarls lyftir sér hátt yfir föður sinn og bræður með þeim hæfileikum, sem hann hefur þroskað með sér sjálfur. En hvaðan er þessi þróunarkenning runnin? Sumir fræðimenn telja Rígsþulu meðal yngstu Eddukvæða, helzt frá 13. öld. En ekki hef ég heyrt getið um svipaðar skoðanir í kristnum miðaldaritum. Og ekki geyma Íslendinga sögur neinar hugmyndir um þróun kynslóðanna. Það er eins og kunnugt er aðalsmerki þeirra að skapa gullöld úr lífi óbreyttra bænda, sem voru uppi tveim til þrem öldum áður. En ef litið er aftur til heiðni víkingaaldar, verður annað uppi á teningnum. Í sköpunarsögu ásatrúar urðu jötnar til á undan goðum og mönnum. Og hvergi er þroskaferli einstaklings betur lýst en í þessu erindi Hávamála:

Þá nam eg frævast
og fróður vera
og vaxa og vel hafast.
Orð mér af orði
orðs leitaði,
verk mér af verki
verks leitaði.

Hér erum við komin að kjarnanum í heimspeki Rígsþulu. Yngri kynslóðir taka hinum eldri fram, og einn einstaklingur getur hafið

sig yfir samtíð sína og náð áður ókunnum þroska. Ef litið er á þjóðfélagslega hlið Rígsþulu, er eðlilegast að hugsa sér, að hún eigi að sýna þróun konungsvaldsins.

*Hyndluljóð.*

Hyndluljóð eru samtal Freyju og Hyndlu tröllkonu. Freyja hittir Hyndlu fyrir utan helli hennar og biður hana að fara með sér til Valhallar að rekja ættir Óttars nokkurs, svo að hann nái föðurleifð sinni. En Freyju er vel til Óttars, því að hann hafði blótað hana. Meginhluti kvæðisins er mannanöfn úr ætt Óttars, sem Hyndla þylur upp. Að lokum verður þeim Freyju og Hyndlu sundurorða, og kvæðið endar á orðasennu þeirra. Meðal annars brigzlar Hyndla Freyju um lauslæti. Ættrakning Hyndlu er keimlík öðrum nafnaþulum. En orðræða Freyju er annars eðlis og stundum gædd nokkrum þokka.

*Völuspá in skamma.*

Völuspá in skamma er sundurlaus upptalning ýmissa atriða úr goðafræðinni. Fyrst er getið dauða Baldurs, en síðast ragnaraka. Í handriti hefur kvæðinu verið skotið inn í Hyndluljóð eftir 28. vísu. Nafnið Völuspá in skamma kemur aðeins fyrir í Snorra-Eddu, en þar er tilfærð ein vísa úr kvæðinu með þessum orðum: „svo sem segir í Völuspá inni skömmu". Það hefur því ekki verið tekið upp í Hyndluljóð fyrr en eftir daga Snorra. Að efni til hefur Völuspá in skamma líka algera sérstöðu innan Hyndluljóða og er greinileg stæling á Völuspá.

*Völundarkviða.*

Völundarkviða er byggð upp af ævintýri og hetjusögu. Fyrst er ævintýrið um svanameyjarnar þrjár, sem fljúga úr suðurátt og setjast að hvíla sig á vatnsbakka nærri Úlfdölum, þar sem Völundur og tveir bræður hans hafast við. Þeir bræður náðu svanahömum þeirra og gerðu þær að eiginkonum sínum. En að níu vetrum liðnum flugu allar meyjarnar brott. Bræður Völundar héldu þegar af stað að leita kvenna sinna, og eru þau öll úr sögunni. Hér hefst hin eiginlega



harmsaga um Völund. Hann situr einn eftir í Úlfdölum, smíðar gersemar úr gulli sínu og bíður þess, að kona sín komi aftur. En Níðaður Njárakonungur hefur fregnir af auðæfum Völundar og hagleik og lætur taka hann höndum og leggja í fjötur sofanda. Síðan er Völundur fluttur í konungsgarð. Konungur lét skera sundur knésinar Völundar, svo að hann gæti ekki flúið, fékk honum smiðju og lét hann smíða gersemar handa sér. En Völundur hefndi sín grimmilega. Hann náði lífi tveggja sona Níðaðar og gerði drykkjarker handa konungi úr hauskúpum þeirra, en skartgripi handa móður þeirra og systur úr augum og tönnum. Síðan lagðist hann með Böðvildi konungsdóttur og gerði henni barn. Eftir það hófst hann á loft og flaug brott. Verður að ætla, að hann hafi áður smíðað sér flugham. Úr lofti sagði hann konungi frá því, er hann hafði gert. En jafnframt lét hann konung sverja þess eiða að gera konungsdóttur og barni hennar ekki mein. Kviðunni lýkur með því, að konungur kallar til sín dóttur sína, og játar hún fyrir honum allt um skipti þeirra Völundar.

Völundarsagan hefur verið kunn meðal allra germanskra þjóða. Elzta frásögn um Völund er í forn-ensku kvæði, sem nefnt er Tregróf Dýra (Deors Lament), og milli þess og Völundarkviðu eru jafnvel smávægilegar líkingar á orðalagi. Einnig eru tvær útskornar myndir úr sögu Völundar á fornu skríni ensku, sem talið er frá 7. eða 8. öld.[1])

Þýzkar frásagnir um Völund eru skráðar í Þiðriks sögu af Bern, sem að verulegu leyti er byggð á fornum kvæðum. Álitið er, að sögnin um Völund sé ekki norræn að uppruna, en hafi borizt til Norðurlanda frá Englandi eða Þýzkalandi. Einnig minnir Völundarsaga á grísku sögnina um Daidalos, sem smíðaði Völundarhúsið á Krít og var þar í haldi Minosar konungs, unz hann bjó sér til vængi og flaug burt. Norræna orðið Völundarhús, sem haft var um smíð Daidalosar, sýnir, að mönnum hefur frá fornu fari verið ljós skyldleiki þessara tveggja sagna.

Oftast er Völundarkviðu skipað í flokk með fornlegustu Eddukvæðunum eins og Hamdismálum og Atlakviðu. Sniðið er hið sama: frásögn með samtali, og söguhetjur allra kvæðanna eru mótaðar af

1) Skrín þetta er nú í British Museum og er ýmist kallað The Clermont Casket eða Franks Casket.

skaphörku og miskunnarleysi. En í Völundarkviðu er slegið á fleiri strengi. Skáldið leggur mikla alúð við að lýsa tilfinningum manna, og gætir þar furðulegrar fjölbreytni. Meira að segja eru mörg litbrigði á lýsingu Völundar. Fyrst er lýst hamingju hans, er Alvitur er hjá honum, síðan hryggð hans og einmanaleik og loks heiftarhug hans og hefnigirni. En jafnvel á stund hefndarinnar er harkan ekki alger. Auðsætt er vinarþel Völundar til Böðvildar konungsdóttur, er hann krefst þess, að hún sé ekki látin gjalda sín. Og frásögn Böðvildar í síðasta erindinu um samskipti þeirra er mótuð af hluttekningu höfundar í kjörum hennar. Meira að segja finnur hann til með Níðaði, er hann mætir hinni kaldlyndu konu sinni eftir dauða sona sinna.

Stundum eru skapbrigði manna sýnd með einfaldri mynd, t. d. eirðarleysi bræðranna eftir hvarf svanameyjanna:

Gengu út og inn
og um sáust.

Sjálf atburðarásin birtist einnig í myndum. Þannig verður frásögn um næturferð að litríku málverki:

Nóttum fóru seggir,
negldar vóru brynjur,
skildir bliku þeirra
við inn skarða mána.

Völundarkviða telst ótvírætt til hetjukvæða, þótt Völundur sé talinn álfakyns í kviðunni og í Konungsbók sé henni skipað með goðakvæðum. En þar sem efni hennar er í engum tengslum við söguefni annarra hetjukvæða, er hennar getið á undan yfirlitsköflunum um þau.

*Völsungar og Niflungar.*
(Úr Snorra-Eddu)

Svo er frá sagt, að þá er æsir fóru að kanna heim, Óðinn og Loki og Hænir, þeir komu að á nokkurri og gengu með ánni til foss nokkurs, og við fossinn var otur einn og hafði tekið lax úr fossinum



og át blundandi. Þá tók Loki upp stein og kastaði að otrinum og laust í höfuð honum. Þá hrósaði Loki veiði sinni, að hann hefði veitt í einu höggi otur og lax. Tóku þeir þá laxinn og oturinn og báru eftir sér, komu þá að bæ nokkrum og gengu inn. En sá búandi er nefndur Hreiðmar, er þar bjó. Hann var mikill fyrir sér og mjög fjölkunnugur. Beiddust æsir að hafa þar náttstað og kváðust hafa með sér vist ærna og sýndu búandanum veiði sína. En er Hreiðmar sá oturinn, þá kallaði hann sonu sína, Fáfni og Regin, og segir, að Otur, bróðir þeirra, var drepinn og svo hverjir það hefðu gert. Nú ganga þeir feðgar að ásunum og taka þá höndum og binda og segja þá um oturinn, að hann var sonur Hreiðmars. Æsir bjóða fyrir sig fjörlausn, svo mikið fé sem Hreiðmar sjálfur vill á kveða, og varð það að sætt með þeim og bundið svardögum. Þá var oturinn fleginn. Tók Hreiðmar oturbelginn og mælti við þá, að þeir skuli fylla belginn af rauðu gulli og svo hylja hann allan, og skal það vera að sætt þeirra. Þá sendi Óðinn Loka í Svartálfaheim, og kom hann til dvergs þess, er heitir Andvari. Hann var fiskur í vatni, og tók Loki hann höndum og lagði á hann fjörlausn allt það gull, er hann átti í steini sínum. Og er þeir koma í steininn, þá bar dvergurinn fram allt gull, það er hann átti, og var það allmikið fé. Þá svipti dvergurinn undir hönd sér einum litlum gullbaug. Það sá Loki og bað hann fram láta bauginn. Dvergurinn bað hann eigi bauginn af sér taka og lézt mega æxla sér fé af bauginum, ef hann héldi. Loki kvað hann eigi skyldu hafa einn pening eftir og tók bauginn af honum og gekk út, en dvergurinn mælti, að sá baugur skyldi vera hverjum höfuðsbani, er ætti. Loki segir, að honum þótti það vel, og sagði, að það skyldi haldast mega fyrir því, sá formáli, að hann skyldi flytja þeim til eyrna, er þá tæki við. Fór hann í braut og kom til Hreiðmars og sýndi Óðni gullið. En er hann sá bauginn, þá sýndist honum fagur og tók hann af fénu, en greiddi Hreiðmari gullið. Þá fyllti hann oturbelginn, sem mest mátti hann, og setti upp, er fullur var. Gekk þá Óðinn til og skyldi hylja belginn með gullinu, og þá mælti hann við Hreiðmar, að hann skal sjá, hvort belgurinn er þá allur huldur. En Hreiðmar leit á vandlega og sá eitt granahár og bað það hylja, en að öðrum kosti væri lokið sætt þeirra. Þá dró Óðinn fram bauginn og huldi granahárið og sagði, að þá voru þeir lausir frá oturgjöldunum. En er Óðinn hafði tekið geir sinn, en Loki skúa sína, og þurftu þá ekki að óttast, þá mælti Loki,

að það skyldi haldast, er Andvari hafði mælt, að sá baugur og það gull skyldi verða þess bani, er ætti, og það hélzt síðan.

Hreiðmar tók þá gullið að sonargjöldum, en Fáfnir og Reginn beiddust af nokkurs í bróðurgjöld. Hreiðmar unni þeim einskis penings af gullinu. Það varð óráð þeirra bræðra, að þeir drápu föður sinn til gullsins. Þá beiddist Reginn, að Fáfnir skyldi skipta gullinu í helminga með þeim. Fáfnir svarar svo, að lítil von var, að hann myndi miðla gullið við bróður sinn, er hann drap föður sinn til gullsins, og bað Regin fara braut, en að öðrum kosti myndi hann fara sem Hreiðmar. Fáfnir hafði þá tekið hjálm, er Hreiðmar hafði átt, og setti á höfuð sér, er kallaður var ægishjálmur, er öll kvikindi hræðast, er sjá, og sverð það, er Hrotti heitir. Reginn hafði það sverð, er Refill er kallaður. Flýði hann þá braut, en Fáfnir fór upp á Gnitaheiði og gerði sér þar ból og brást í ormslíki og lagðist á gullið, en Reginn fór þá til Hjálpreks konungs á Þjóði og gerðist þar smiður hans. Þá tók hann þar til fósturs Sigurð, son Sigmundar, sonar Völsungs, og son Hjördísar, dóttur Eylima. Sigurður var ágætastur allra herkonunga af ætt og afli og hug. Reginn sagði honum til, hvar Fáfnir lá á gullinu, og eggjaði hann að sækja gullið. Þá gerði Reginn sverð það, er Gramur heitir, er svo var hvasst, að Sigurður brá niður í rennanda vatn og tók í sundur ullarlagð, er rak fyrir strauminum að sverðsegginni. Því næst klauf Sigurður steðja Regins ofan í stokkinn með sverðinu. Eftir það fóru þeir Sigurður og Reginn á Gnitaheiði. Þá gróf Sigurður gröf á veg Fáfnis og settist þar í. En er Fáfnir skreið til vatns og hann kom yfir gröfina, þá lagði Sigurður sverðinu í gegnum hann, og var það hans bani. Kom þá Reginn að og sagði, að hann hefði drepið bróður hans, og bauð honum það að sætt, að hann skyldi taka hjarta Fáfnis og steikja við eld, en Reginn lagðist niður og drakk blóð Fáfnis og lagðist að sofa. En er Sigurður steikti hjartað og hann hugði, að fullsteikt myndi, og tók á fingrinum, hve hart var. En er frauðið rann úr hjartanu á fingurinn, þá brann hann og drap fingrinum í munn sér. En er hjartablóðið kom á tunguna, þá kunni hann fuglsrödd og skildi, hvað igðurnar sögðu, er sátu í viðnum. Þá mælti ein:

Þar situr Sigurður
sveita stokkinn,



Fáfnis hjarta
við funa steikir.
Spakur þætti mér
spillir bauga,
ef fjörsega[1])
fránan æti.

Þar liggur Reginn — kvað önnur,
ræður um við sig,
vill tæla mög,
þann er trúir honum,
ber af reiði
röng orð saman,
vill bölvasmiður
bróður hefna.

Þá gekk Sigurður til Regins og drap hann, en síðan til hests síns, er Grani heitir, og reið til þess, er hann kom til bóls Fáfnis, tók þá upp gullið og batt í klyfjar og lagði upp á bak Grana og steig upp sjálfur og reið þá leið sína.

Þá reið Sigurður til þess, er hann fann á fjallinu hús. Þar svaf inni ein kona, og hafði sú hjálm og brynju. Hann brá sverðinu og reist brynjuna af henni. Þá vaknaði hún og nefndist Hildur. Hún er kölluð Brynhildur og var valkyrja. Sigurður reið þaðan og kom til þess konungs, er Gjúki hét. Kona hans er nefnd Grímhildur. Börn þeirra voru þau Gunnar, Högni, Guðrún, Guðný. Gotþormur var stjúpson Gjúka. Þar dvaldist Sigurður langa hríð. Þá fékk hann Guðrúnar Gjúkadóttur, en Gunnar og Högni sórust í bræðralag við Sigurð.

Því næst fóru þeir Sigurður og Gjúkasynir að biðja Gunnari konu til Atla Buðlasonar, Brynhildar, systur hans. Hún sat á Hindarfjalli, og var um sal hennar vafurlogi, en hún hafði þess heit strengt að eiga þann einn mann, er þorði að ríða vafurlogann. Þá riðu þeir Sigurður og Gjúkungar, þeir eru og kallaðir Niflungar, upp á fjallið, og skyldi þá Gunnar ríða vafurlogann. Hann átti hest þann, er Goti heitir, en sá hestur þorði eigi að hlaupa í eldinn. Þá skiptu

1) fjörsegi = hjarta.

þeir litum, Sigurður og Gunnar, og svo nöfnum, því að Grani vildi undir engum manni ganga nema Sigurði. Þá hljóp Sigurður á Grana og reið vafurlogann. Það kveld gekk hann að brúðhlaupi með Brynhildi. En er þau komu í sæng, þá dró hann sverðið Gram úr slíðrum og lagði í milli þeirra. En að morgni þá er hann stóð upp og klæddi sig, þá gaf hann Brynhildi að línfé gullbauginn, þann er Loki hafði tekið af Andvara, en tók af hendi henni annan baug til minja. Sigurður hljóp þá á hest sinn og reið til félaga sinna. Skipta þeir Gunnar þá aftur litum og fóru heim til Gjúka með Brynhildi. Sigurður átti tvö börn með Guðrúnu, Sigmund og Svanhildi.

Það var eitt sinn, að Brynhildur og Guðrún gengu til vatns að bleikja hadda sína. Þá er þær komu til árinnar, þá óð Brynhildur út á ána frá landi og mælti, að hún vildi eigi bera í höfuð sér það vatn, er rynni úr hári Guðrúnu, því að hún átti búanda hugaðan betur. Þá gekk Guðrún á ána eftir henni og sagði, að hún mátti fyrir því þvo ofar sinn hadd í ánni, að hún átti þann mann, er eigi Gunnar og engi annar í veröldu var jafnfrækn, því að hann vó Fáfni og Regin og tók arf eftir báða þá. Þá svarar Brynhildur: „Meira var það vert, er Gunnar reið vafurlogann, en Sigurður þorði eigi." Þá hló Guðrún og mælti: „Ætlar þú, að Gunnar riði vafurlogann? Sá ætla eg, að gengi í rekkju hjá þér, er mér gaf gullbaug þenna. En sá gullbaugur, er þú hefir á hendi og þú þátt að línfé, hann er kallaður Andvaranautur, og ætla eg, að eigi sótti Gunnar hann á Gnitaheiði". Þá þagnaði Brynhildur og gekk heim. Eftir það eggjaði hún Gunnar og Högna að drepa Sigurð. En fyrir því að þeir voru eiðsvarar Sigurðar, þá eggjuðu þeir til Gotþorm, bróður sinn, að drepa Sigurð. Hann lagði Sigurð sverði í gegnum sofanda. En er hann fékk sárið, þá kastaði hann sverðinu Gram eftir honum, svo að sundur sneið í miðju manninn. Þar féll Sigurður og sonur hans þrevetur, er Sigmundur hét, er þeir drápu. Eftir það lagði Brynhildur sig sverði, og var hún brennd með Sigurði, en Gunnar og Högni tóku þá Fáfnisarf og Andvaranaut og réðu þá löndum.

Atli konungur Buðlason, bróðir Brynhildar, fékk þá Guðrúnar, er Sigurður hafði átta, og áttu þau börn. Atli konungur bauð til sín Gunnari og Högna, en þeir fóru að heimboðinu. En áður þeir fóru heiman, þá fólu þeir gullið Fáfnisarf í Rín, og hefir það gull aldrei síðan fundizt. En Atli konungur hafði þar lið fyrir og barðist við þá Gunnar og Högna, og urðu þeir handteknir. Lét Atli konungur skera hjarta úr Högna kvikum. Var það hans bani. Gunnari lét hann kasta í ormagarð, en honum var fengin leynilega harpa, og sló hann með tánum, því að hendur hans voru bundnar, en svo lék hann hörpuna, svo að allir ormarnir sofnuðu nema sú naðra, er renndi að honum og hjó svo fyrir flagbrjóskað, að hún steypti höfðinu inn í holið, og hangdi hún á lifrinni, þar til er hann dó. Gunnar og Högni eru kallaðir Niflungar og Gjúkungar. Fyrir því er gull kallað Niflunga skattur eða arfur. Litlu síðar drap Guðrún tvo sonu sína og lét gera með gulli og silfri borðker af hausum þeirra, og þá var gert erfi Niflunga. Að þeirri veizlu lét Guðrún skenkja Atla konungi með þeim borðkerum mjöð og var blandið við blóði sveinanna, en hjörtu þeirra lét hún steikja og fá konungi að eta. En er það var gert, þá sagði hún honum sjálfum með mörgum ófögrum orðum. Eigi skorti þar áfenginn drykk, svo að flest fólk sofnaði þar, sem sat. Á þeirri nótt gekk hún til konungs, er hann svaf, og með henni sonur Högna, og vó að honum. Það var hans bani. Þá skutu þau eldi í höllina, og brann það fólk, er þar var inni.

Eftir það fór hún til sjávar og hljóp á sæinn og vildi týna sér, en hana rak yfir fjörðinn, kom þá á það land, er átti Jónakur konungur. En er hann sá hana, tók hann hana til sín og fékk hennar. Áttu þau þrjá sonu, er svo hétu: Sörli, Hamdir, Erpur. Þeir voru allir svartir sem hrafn á hárslit sem Gunnar og Högni og aðrir Niflungar. Þar fæddist upp Svanhildur, dóttir Sigurðar sveins, og var allra kvenna fegurst. Það spurði Jörmunrekur konungur inn ríki. Hann sendi son sinn, Randvé, að biðja hennar sér til handa. En er hann kom til Jónakurs, þá var Svanhildur seld honum í hendur. Skyldi hann færa hana Jörmunreki konungi. Þá sagði Bikki jarl, að það var betur fallið, að Randvér ætti Svanhildi, er hann var ungur og bæði þau, en Jörmunrekur var gamall. Þetta ráð líkaði þeim vel inum ungum mönnum. Því næst sagði Bikki þetta konungi. Þá lét Jörmunrekur konungur taka son sinn og leiða til gálga. Þá tók Randvér hauk sinn og plokkaði af fjaðrirnar og bað senda feður sínum. Þá var hann hengdur. En er Jörmunrekur konungur sá haukinn, þá kom honum í hug, að svo sem haukurinn var ófleygur og fjaðurlaus, svo var ríki hans ófært, er hann var gamall og sonlaus. Þá leit Jörmunrekur konungur Svanhildi, er hann reið úr skógi frá veiðum, hvar hún sat að haddbliki. Þá riðu þeir á hana og tróðu hana undir hestafótum til bana.

En er þetta spurði Guðrún, þá eggjaði hún sonu sína til hefndar eftir Svanhildi. En er þeir bjuggust til ferðar, þá fékk hún þeim brynjur og hjálma svo sterka, að eigi mundi járn á festa. Hún lagði ráð fyrir þá, að þá er þeir kæmi til Jörmunreks konungs, að þeir skyldu ganga um nótt að honum sofanda. Skyldi Sörli og Hamdir höggva af honum hendur og fætur, en Erpur höfuðið. En er þeir komu á leið, þá spurðu þeir Erp, hver liðsemd þeim myndi að honum, ef þeir hitti Jörmunrek konung. Hann svarar, að hann myndi veita þeim þvílíkt sem hönd fæti. Þeir segja, að það var alls ekki, að fótur styddist við hönd. Þeir voru svo reiðir móður sinni, er hún hafði leitt þá út með heiftyrðum, og þeir vildu gera það, er henni þætti verst, og drápu Erp, því að hún unni honum mest. Litlu síðar, er Sörli gekk, skriðnaði hann öðrum fæti, studdi sig með hendinni. Þá mælti hann: „Veitti nú höndin fætinum, betur væri nú, að Erpur lifði". En er þeir komu til Jörmunreks konungs um nótt, þar sem hann svaf, og hjuggu af honum hendur og fætur, þá vaknaði hann og kallaði á menn sína, bað þá vaka. Þá mælti Hamdir: „Af myndi nú höfuðið, ef Erpur lifði". Þá stóðu upp hirðmennirnir og sóttu þá og fengu eigi sótt þá með vopnum. Þá kallaði Jörmunrekur, að þá skal berja grjóti. Var svo gert. Þar féllu þeir Sörli og Hamdir. Þá var og dauð öll ætt og afkvæmi Gjúka.

*Hetjukvæði (Yfirlit).*

Hetjukvæðin í Eddu eru með öðrum svip en hetjuljóð flestra annarra þjóða. Þau hafa ekki hina breiðu frásögn Hómerskvæða né hinn þjóðernislega boðskap franskra hetjuljóða frá miðöldum, svo að tvö dæmi séu nefnd. Þótt mörg kvæðanna í Eddu fjalli um konunga, sem áttu í stórstyrjöldum, skipta hin þjóðernislegu og stjórnmálalegu sjónarmið engu máli. Og þótt efni sumra Eddukvæða sé rakið til styrjalda, sem geisuðu þjóða milli, gera skáldin þau að deilum milli einstaklinga, sem risu af einkamálum þeirra og tilfinningum. Hvergi eru langar lýsingar, enda eru kvæðin stutt, séu þau borin saman við hina löngu ljóðabálka, sem tíðkuðust með öðrum þjóðum. Orðfærið er knappt, og svipmyndir þær, sem brugðið er upp, eru dregnar fáum dráttum. Oft eru söguhetjurnar leiddar fram á sviðið, og lesandinn er settur í stöðu áhorfandans og áheyrandans, sem sér þær fyrir sér og hlýðir á orð af vörum þeirra sjálfra.



Að því leyti eru skáld Eddukvæða líkari leikritaskáldum en sagnahöfundum okkar tíma.

Næst liggur að bera hetjukvæði Eddu saman við forn hetjuljóð annarra germanskra þjóða. Á Englandi og í Þýzkalandi tíðkaðist fyrir víkingaöld stuðlaður skáldskapur með svipuðum bragarhætti og Eddukvæði. Í Þýzkalandi dó hann út um 900, en á Englandi hélzt hann fram um 1400. Enn eru til nokkur hetjukvæði í þessu formi, flest frá Englandi, en aðeins eitt frá Þýzkalandi. Snið þeirra er frásögn með samtali: skáldið segir sögu, en gefur söguhetjum sínum orðið, hvenær sem tækifæri gefst. Ef kvæði þessi eru borin saman við hetjukvæðin í Eddu, hlýtur niðurstaðan að verða sú, að til hafi verið samgermanskur hetjuskáldskapur með þessu sniði og sé það elzta form Eddukvæða. Yfirleitt eru flest hinna erlendu hetjukvæða miklu lengri og margorðari en Eddukvæði. Þó eru til tvö forngermönsk hetjuljóð erlend: Hildibrandskviða hin þýzka og enska kvæðið um Finnsborgarbardaga, sem eru stuttorð og hnitmiðuð og líkjast að flestu leyti hinum fornlegustu hetjukvæðum í Eddu. En til þess flokks teljast: Atlakviða, Hamdismál, Hlöðskviða og Brot af Sigurðarkviðu.

Efni allra þessara kvæða er harmsögulegt. En þó kennir hvergi tilfinningasemi. Ástum karls og konu er aldrei lýst, og innri barátta söguhetjanna miðast við það eitt að varðveita sæmdarhugsjón þeirra og fullnægja hefndarskyldunni. Oft verða hetjurnar að grípa til óhæfuverka til þess að fá þessu framgengt. En lesandinn skynjar jafnan þann harða hug, sem býr að baki athöfnunum. Völundarkviða er einnig oftast talin til þessa flokks, en þar er slegið á fleiri strengi, eins og tekið var fram í kaflanum um hana. Söguefnið í þessum kvæðum birtist jöfnum höndum í frásögn og samtölum, en oftast fylgir mestur máttur þeim vísum, þar sem söguhetjurnar taka sjálfar til máls.

Önnur tegund hetjukvæða er samtalskvæði, en um upphaf þeirra er allt óljósara, því að þau eiga sér enga hliðstæðu utan Norðurlanda. Eins og áður hefur verið tekið fram, eru flest goðakvæðanna með því sniði. Skyldust þeim meðal hetjukvæða eru Reginsmál og Fáfnismál, sem eru hrein samtalskvæði. Þau líkjast goðakvæðunum einnig að því leyti, að í þeim er mikið fræðiefni, bæði lífsreglur og goðsögulegur fróðleikur. Þriðja kvæðið um æsku Sigurðar Fáfnisbana: Sigurdrífumál, er einnig hlaðið slíku efni, en það er að

mestu lagt í munn einni persónu eins og sum goðakvæðanna. Þessi kvæði skera sig líka úr flestum öðrum hetjukvæðum að því leyti, að efni þeirra er ekki harmsögulegt. Hvergi er þó brugðið á leik með gamansemi, eins og títt er í goðakvæðunum. Nokkur unglegri hetjukvæði í Eddu eru líka í samtalsformi og auk þeirra ýmis kvæði í fornaldarsögum, sem telja verður til hetjukvæða, t. d. Hervararkviða og Hálfsrekkaljóð.

Aðalsnið hetjukvæðanna var þó alla tíð frásögn með samtali. En kvæði þau, sem nú verður vikið að, eru með nokkuð öðrum svip en hin fyrst nefndu. Sá munur liggur eingöngu í smekk og efnismeðferð, en ekki sjálfu kvæðaforminu. Harmsefnin eru svipuð og áður, en harkan er ekki eins mikil og tregablærinn allur mildari. Meira er lýst tilfinningum manna, og meira er slegið á ljóðræna strengi. Og í sumum kvæðanna verður ástin það meginafl, sem allt snýst um, t. d. í Helgakviðunum. Einnig eru tregaljóð með löngum eintölum, þar sem lífsþreyttar konur telja harma sína. Slík kvæði eru Guðrúnarkviða in forna, Guðrúnarhvöt og Oddrúnargrátur. Stundum er líka eitt atvik tekið út úr langri sögu og gert að yrkisefni. Merkast slíkra kvæða er Guðrúnarkviða in fyrsta. Þar sýnir skáldið okkur Guðrúnu Gjúkadóttur yfir líki Sigurðar bónda síns og lýsir viðbrögðum hennar með kvenlegum næmleik.

Loks eru svo Sigurðarkviða in skamma og Atlamál, sem eru með raunsærri brag en flest hin hetjukvæðin. Sérstök alúð er lögð við sálarlífslýsingar, og ber þar hæst lýsingu Brynhildar í Sigurðarkviðu og lýsingu Guðrúnar í Atlamálum. Þessi tvö kvæði eru lengst og ýtarlegust allra hetjukvæða í Eddu, og bent hefur verið á, að í þeim sé stigið fyrsta sporið í áttina til sagnljóðabálks. En ekki var haldið lengra á þeirri braut hér á Norðurlöndum. Skilyrði til sköpunar slíkra ljóðabálka er kunnátta í bókagerð. Og þegar sú kunnátta barst hingað norður, hafði skapandi ljóðagerð um hetjur þjóðflutningaaldar að mestu runnið skeið sitt á enda á þeim slóðum. Íslendingar kusu þá heldur að skrifa sögur í óbundnu máli. Hetjukvæðum Eddu var snúið í söguform og úr þeim gerð Völsunga saga. En þegar hér var komið sögu, höfðu Íslendingar skapað sér nýja hetjuöld úr lífi þeirra kynslóða, sem fyrstar byggðu þeirra eigið land. Og í Íslendinga sögum fundu þeir í fyrsta sinn þann búning hetjusagna, sem að breidd og fyllingu er sambærilegur við ljóðabálka suðlægari þjóða.



*Söguefni hetjukvæða og erlend rit.*

Hetjukvæði þau, sem í Eddu mynda eina heild, eru byggð á þremur sögum, sem upphaflega virðast hafa verið hver annarri óháðar. Þessar sagnir eru:

1. Sögnin um Helga Hundingsbana.
2. Sögnin um Sigurð, Brynhildi, Niflunga (Gjúkunga) og Atla. (Hér til hægðarauka kölluð Niflungasagan.)
3. Sögnin um Jörmunrek Gotakonung.

Eftir því sem næst verður komizt, eru þessar sagnir upp runnar hver hjá sinni þjóð. Sögnin um Helga Hundingsbana er sennilega komin frá Dönum, Niflungasagan frá Þjóðverjum og Jörmunrekssagan frá Gotum.

Síðan hefur öllum þessum sögum verið steypt saman með því að gera Helga hálfbróður Sigurðar, og Svanhildi, Hamdi og Sörla börn Guðrúnar Gjúkadóttur. Langt er samt frá því, að eitt kvæði taki við af öðru, svo að úr verði samfelldur ljóðabálkur. Hvert kvæði er sjálfstæð heild, þótt oft verði að gera ráð fyrir því, að lesandinn þekki alla söguna. Stundum er fleira en eitt kvæði um sömu atburði, og er þá hetjunum lýst frá mismunandi sjónarmiðum.

Frá Helga Hundingsbana er fátt sagt í erlendum ritum. Þó má geta þess, að Saxi hinn málspaki telur hann sama mann og Helga Hálfdanarson, föður Hrólfs kraka. En eins líklegt er, að Saxi blandi hér saman tveimur konungum með sama nafni. En örnefni í Helgakviðu Hundingsbana styðja þá skoðun, að Helgi hafi verið danskur konungur.

Helgakviða Hjörvarðssonar hefur þau efnistengsl ein við önnur hetjukvæði, að í lausamálsgreinum, sem fylgja Helgakviðu Hundingsbana II, segir, að Helgi Hundingsbani væri heitinn eftir Helga Hjörvarðssyni, og Sigrún, ástkona hans, væri Sváva endurborin.

Niflungasagan er hins vegar alkunn úr þýzkum heimildum. Frægust þeirra er sagnljóðabálkurinn Niflungaljóð (Niebelungenlied), sem ortur var í Austurríki um 1200 undir kvæðaformi samtímans, óstuðlaður og með endarími. Fullvíst þykir, að heimildir Niflungaljóða séu fornþýzk kvæði, sem nú eru glötuð. Önnur heimild um Niflunga, sem einnig er byggð á þýzkum kvæðum, er Þiðriks saga af Bern, sem skrifuð var í Noregi á 13. öld.

Mesta missögn hinna þýzku og norrænu frásagna er sú, að í þýzku

sögnunum er Guðrún, sem þar er nefnd Grímhildur (Kriemhilde), látin ráða Gunnari og Högna bana til hefnda fyrir Sigurð. En í Eddukvæðum drepur Atli bræður Guðrúnar, en hún vegur síðan Atla til að hefna þeirra.

Af samanburði við söguleg gögn er ljóst, að Eddukvæði geyma upphaflegri mynd sögunnar um þetta atriði. Hins vegar er Grímhildur sennilega hið rétta nafn á konu þeirri, sem Atli gekk að eiga á gamals aldri og tengir sögu hans við Gjúkunga og Sigurð Fáfnisbana. En í íslenzkum heimildum er móðir hennar nefnd Grímhildur.

Árið 437 réðust Húnar á ríki Borgunda fyrir vestan Rín og drápu konung þeirra, sem í latneskum ritum er nefndur Gundaharius eða Gundicarius (Gunnar), og stráfelldu lið hans. Sextán árum síðar gekk Atli (Attilla) Húnakonungur að eiga germanska konu, sem nefnd er Ildico eða Hildico (þ. e. Hildur litla, sbr. nafn Grímhildar). En morguninn eftir fannst Atli dauður liggjandi í blóði sínu. Samkvæmt samtíma heimildum dó Atli ölóður úr áköfum blóðnösum. En brátt kom upp sú sögn, að kona hans hafi vegið hann í rúminu. Fróðir menn telja, að Atli hafi ekki verið í herförinni, er Gunnar var veginn, og engin orsakatengsl séu milli falls Gunnars og dauða Atla. Enda liðu sextán ár á milli í veruleikanum, þótt Eddukvæði láti alla þessa atburði gerast á fáum dögum.

Ekki hefur tekizt að finna með vissu sannsögulegar fyrirmyndir að Sigurði og Brynhildi. Svipuð nöfn koma þó fyrir í sögu Mervíkinga á Frakklandi á 6. öld, og mikið er þar um samsæri, morð og brögð kvenna. En hvergi er líking sagnanna svo mikil, að teljast megi sagnfræðilegur grundvöllur.

Sagan um Jörmunrek verður hins vegar rakin til sannsögulegra viðburða. Jörmunrekur er sami maðurinn og í latneskum ritum er nefndur Ermenrichus og var konungur Austur-Gota við Svartahaf. Samtíma heimildir herma, að hann hafi ráðið sér bana af ótta við Húna, er þeir brutust vestur í Evrópu 375. En sagnaritarinn Jordanes, sem skrifaði sögu Gota um miðja 6. öld og hefur ef til vill stuðzt við gotnesk hetjukvæði, segir, að hann hafi skömmu áður verið særður miklu sári af bræðrum tveim, sem hétu Sarus (Sörli) og Ammius (Hamdir), og hafi þeir verið að hefna systur sinnar, er Sunhilda (Svanhildur) hét, sem Jörmunrekur hafði pínt til dauða með því



að láta binda hana aftan í ótemjur, er slitu hana sundur. Jörmunrekur dó þó ekki strax, en lifði við örkuml, þangað til Húnar gerðu árás á ríki hans. En þá lézt hann af völdum sársins og af hugarvingli.

Gaman er að bera efnisröð hetjukvæðanna saman við tímatal hinna raunverulegu viðburða, sem taldir eru liggja að baki þeim. Þá kemur í ljós, að í hetjukvæðunum líður tíminn öfugt við það, sem var í veruleikanum. Ef Sigurður Fáfnisbani er Sigibert í sögu Mervíkinga, sem helzt hefur verið gizkað á sem fyrirmynd hans, var hann tekinn af lífi 575, en Brynhildur 614. Eftir dauða Sigurðar giftist Guðrún Atla, sem lézt 453. Að honum látnum eignaðist Guðrún tvo syni: Hamdi og Sörla, sem veittu Jörmunreki konungi árás 375.

*Helgakviða Hjörvarðssonar.*

Í Helgakviðu Hjörvarðssonar er sögð ástarsaga þeirra Helga og Svávu valkyrju. Kvæðið er allt í samtalsformi utan ein vísa, en söguefnið er skýrt í lausu máli. Upphafið er frekar ruglingslegt. Þar er sagt frá foreldrum Helga, Hjörvarði og Sigurlinn, og hvernig hann fékk hennar. Þvínæst segir frá uppvexti Helga. Hann var þögull í æsku, og ekki festist nafn við hann, fyrr en Sváva birtist honum og ávarpaði hann með Helga nafni. En hann kvaðst ekkert vilja þiggja í nafnfesti nema hana sjálfa. Síðan vísaði hún honum til sverðs, er hann skyldi eiga, og eftir það hlífði hún honum oft í orustum. Þá segir frá því, er Helgi hefndi móðurföður síns. Inn í þá frásögu er skotið klúryrtri orðasennu milli eins af mönnum Helga og Hrímgerðar tröllkonu. Samtal þeirra er með öðrum bragarhætti en aðrar vísur kviðunnar og virðist vera sjálfstætt kvæði og er oftast nefnt Hrímgerðarmál.

Helgi bað þvínæst um hönd Svávu, og þau „veittust várar og unnust furðu mikið". Helgi var löngum í hernaði, en Héðinn, bróðir hans, var heima með föður sínum. Einn jólaaftan mætti Héðinn tröllkonu, ríðandi á vargi, og bauð hún honum fylgd sína. Hann svaraði neitandi, en hún lagði það á hann, að hann skyldi að bragarfulli strengja heit til Svávu, unnustu Helga, bróður síns. Héðinn iðraðist þegar, er hann hafði unnið heitið, fór suður í lönd að hitta Helga og mæltist til þess að verða höggvinn með sverði hans. En Helgi mælti, að „ölmál" hans mundu reynast sönn, því að sér

væri dauði ætlaður. Helga grunaði um feigð sína, því að hann skildi, að það var fylgja hans, sem hafði vitjað Héðins á jólaaftan. Síðan fór Helgi til orustu og fékk banasár. Þá lætur hann senda eftir Svávu og biður hana að leiða Héðin ástum. En hún kveðst hafa heitið því að gefast engum eftir Helga. Þá kemur Héðinn á vettvang og biður Svávu að kyssa sig, en heitir því jafnframt að koma ekki aftur, fyrr en hann hefði hefnt Helga, „þess er buðlungur var beztur und sólu".

Hér lýkur kviðunni, og skáldið lætur áheyrandanum eftir að skapa sögulokin. Ekki verður sagt með vissu, hvað fyrir því hefur vakað. En trúlegast er, að heit Héðins í síðasta erindinu eigi að gera hann verðugan þess að ná ástum Svávu, er hann hefur komið því fram. En skáldið hefur ekki viljað rjúfa blæ harmleiksins með því að láta Svávu huggast í örmum annars manns.

Orðalag Helgakviðu er víða ljóðrænt og flest örnefni sköpuð með skáldlegum blæ, t. d. Glasislundur og Röðulsfjöll. Aðeins eitt raunverulegt staðarheiti kemur fyrir í kviðunni. Það er, þegar Helgi spyr Héðin „nýrra spjalla úr Noregi". Bendir það til, að sögnin um Helga Hjörvarðsson sé norsk að uppruna.

*Kviðurnar um Helga Hundingsbana.*

*Helgakviða Hundingsbana II* eða *Völsungakviða in forna* er ástarsaga þeirra Helga og Sigrúnar valkyrju. Flestar vísur kviðunnar eru orð söguhetjanna. Þó eru nokkrar frásagnarvísur, en meginhluti söguefnisins er sagður í lausu máli. Nafnið Völsungakviða in forna, sem er eina nafnið, sem kviðan hefur í handriti, er nefnt í innskotsgrein á undan 14. vísu, og er vafasamt, hvort vísurnar þar á undan eru úr sama kvæði. Fyrst segir frá því, er Helgi kemur dulbúinn á njósn til hirðar Hundings konungs, sem hafði verið óvinur þeirra frænda. Helgi bjargaði sér undan konungi með því að taka á sig gervi ambáttar og mala korn. Síðan er sagt í lausu máli, að Helgi safnaði liði og felldi Hunding konung. Á heimleiðinni úr þeirri herferð kemur Sigrún til skipa hans og spyr hann að nafni og um ferðir hans. Helgi dylur enn nafn sitt, en Sigrún kveðst þekkja hann, því að hún hafi ekki verið fjarri, er Hundingur var veginn. Næst er frásögn af því, að faðir Sigrúnar fastnar hana Höðbroddi Granmarssyni. En er Sigrún spyr það, þá ríður hún með valkyrjum um loft og lög að leita Helga. Þá er komið að vísum þeim, sem sagðar



eru úr Völsungakviðu inni fornu. Sigrún finnur Helga og rennur á háls honum og kyssir hann og biður hann ásjár, því að hún vill alls ekki eiga Höðbrodd. Helgi heitir henni hjálp sinni, og þau bindast heitum. Þá segir í lausu máli frá því, að Helgi safnar miklum skipaher og felldi alla Granmarssyni. Í þeirri orustu féllu einnig Högni, faðir Sigrúnar, og Bragi, bróðir hennar. En Dagur Högnason fékk grið og vann Helga eiða. Inn í þessa frásögn er skotið orðasennu milli Guðmundar Granmarssonar og Sinfjötla, bróður Helga, og minnir hún á Hrímgerðarmál í Helgakviðu Hjörvarðssonar. Í næstu vísum segir frá fundi þeirra Helga og Sigrúnar eftir orustuna. Helgi segir henni vígin. Hún verður mjög hrygg, en lætur huggast í faðmi hans. Í næstu innskotsgrein segir frá því, að Helgi fékk Sigrúnar, en Dagur Högnason blótaði Óðin til föðurhefnda og varð banamaður Helga. Þá hefst kviðan aftur á því, að Dagur fer til Sigrúnar og segir henni vígið. Hann býður henni allt, sem hún girnist, til að ná sáttum við hana. En Sigrún vill engum sáttum taka og biður honum hinna ægilegustu bölbæna.

Lokaþáttur kviðunnar segir frá því, að Helgi fékk leyfi Óðins til að vitja haugs síns eina nótt. Þangað fer Sigrún til fundar við hann. Helgi er allur blóði drifinn, en blóðið myndaðist af tárum Sigrúnar. Síðan njóta þau alsælu ástarinnar þessa nótt, þótt Helgi verði að hverfa aftur til Valhallar að morgni. Næstu nótt bíður Sigrún við haug Helga og væntir komu hans. En hann kemur ekki.

Í lausu máli á eftir kviðunni segir, að Sigrún var skammlíf af harmi og trega, og enn fremur, að þau Helgi og Sigrún yrðu endurborin, og „hét hann þá Helgi Haddingjaskati, en hún Kára Hálfdanardóttir, svo sem kveðið er í Káruljóðum".

Káruljóð eru nú glötuð, en efni þeirra hefur varðveitzt í íslenzkum rímum. Virðist harmsagan hafa verið með þeim hætti, að Kára var valkyrja og sveif yfir höfði Helga til að vernda hann í orustu. En hann særði hana af vangá til ólífis, er hann sveiflaði sverði sínu.

Enn má geta þess, að sama efni og í lokaþætti Völsungakviðu innar fornu, er tár ástmeyjarinnar verða að blóði í gröf elskhugans, kemur fyrir í dönsku þjóðkvæði um Åge og Else.

*Helgakviða Hundingsbana I* eða *Völsungakviða* fjallar að mestu um sama efni og Völsungakviða in forna að öðru leyti en því, að í hana vantar frásögn um víg Braga og Högna, hefnd Dags, dauða

Helga og fund þeirra Sigrúnar í hauginum. Völsungakviða er augljóslega yngri og ort af manni, sem er fráhverfur sjónarmiðum harmleikaskáldsins og vill láta söguna enda vel. Þess vegna sleppir hann öllu harmsefninu úr henni. En kviðan er vel ort og orðalagið sums staðar með glæsibrag. Skáldlegast er upphafið, þar sem lýst er fæðingu Helga.

Völsungakviða in forna er einna fegurst allra hetjukvæðanna. Hvergi er betur lýst baráttu í hug einstaklinga milli ættarskyldu og tilfinninga. Með sárum trega segir Helgi Sigrúnu fall föður hennar og bróður, er hann hafði sjálfur vegið. En Sigrún svarar með fáum orðum, sem í einfaldleik sínum sýna okkur innst inn í hugskot hennar:

Lifna mynda eg nú kjósa,
er liðnir eru,
og knætta eg þér þó í faðmi felast.

Dagur Högnason kvaðst nauðugur hafa vegið þann mann, sem „buðlungur var beztur í heimi". Og hann kennir Óðni um að valda öllu bölvi. En Sigrún hefur engin orð handa bróður sínum nema römmustu bölbænir. Áhrifamest er þó lýsing Sigrúnar, þegar hún gengur í haug elskhuga síns til fundar við hann látinn. Þá fær ást hennar nýja eldskírn við hinn ömurlega dauðablæ, sem grúfir yfir samfundum þeirra. Sigrún vill ekki bíða eftir því, að Helgi kasti frá sér blóðugri brynjunni, og sofnar alsæl í faðmi hans, þótt hann sé nákaldur og allur blóði drifinn. Og Helgi undrast þá hamingju, að hann, dauður maðurinn, fái að njóta ástar lifandi unnustu sinnar. Einnig eru skýrar andstæður í lýsingunni á Sigrúnu og ambátt hennar kvöldið eftir, þegar þær bíða þess, að Helgi vitji aftur haugs síns. Ambáttin varar Sigrúnu við að ganga á fund drauga. En í huga Sigrúnar er Helgi ekki draugur, heldur sami elskhuginn og í lifanda lífi.

Náttúrulýsingar kviðunnar eru óvenju myndrænar og lifandi, hvort sem lýst er umhverfi atburðanna eða um samlíkingar er að ræða. En samlíkingar kvæðisins eru með allt öðrum brag en tíðkast í fornum skáldskap íslenzkum. Þær eru myndir úr náttúrunni með ívafi frásagnar.



Fegurst er sú mynd, sem Sigrún dregur upp, þegar hún líkir Helga við hjört,

er efri fer
öllum dýrum
og horn glóa
við himin sjálfan.

Hér hrífur skáldið okkur snöggvast burt frá sjálfu söguefninu og fylgir hirtinum, sem dregur að sér alla athyglina. Það eru sömu listbrögð og Hómer er frægur fyrir: að snúa samlíkingu í lifandi mynd með því að fella inn í hana frásögn.

*Grípisspá.*

Grípisspá er yfirlitskvæði um ævi Sigurðar Fáfnisbana. Sigurður er ungur og fer til Grípis, móðurbróður síns, að leita frétta um ókomna ævi sína. Grípir er tregur til að segja Sigurði um öll hin þungbæru örlög, sem bíða hans, en lætur þó undan beiðni Sigurðar. En Sigurði er mest í mun að hafa alltaf góðan málstað, hvað sem á dynur. Í kvæðislok er fallega lýst skilnaði þeirra og árnaðaróskum. Grípisspá er af flestum fræðimönnum talin meðal allra yngstu Eddukvæða, frá seinni hluta 12. aldar eða 13. öld. Jafnvel hefur verið gizkað á, að Grípisspá sé ort til þess að vera inngangur að kvæðunum um Völsunga og Niflunga og sé verk þess manns, er safnaði þeim í eina heild.

*Reginsmál og Fáfnismál.*

Kvæðin fjögur um æsku Sigurðar Fáfnisbana, sem í útgáfum eru nefnd Grípisspá, Reginsmál, Fáfnismál og Sigurdrífumál, eru ekki aðskilin í Konungsbók. Hins vegar eru Grípisspá og Sigurdrífumál að efni skýrt afmörkuð frá hinum kvæðunum. Allt öðru máli gegnir um Reginsmál og Fáfnismál. Engin rök eru fyrir því að draga markalínu milli þeirra. Allar vísur kvæðanna eru samtöl, en innan um þær eru langar greinar í lausu máli. Það hefur vakið sérstaka athygli, að vísur þær, sem teljast til þessara kvæða, eru ekki allar undir sama bragarhætti. Á sumum er fornyrðislag (átta vísuorð), á

öðrum ljóðaháttur (sex vísuorð). Flestir fræðimenn hallast að því, að þær geti ekki verið úr sama kvæði og séu vísurnar undir ljóðahætti eldri en hinar. Í þeim er einnig meira af fróðleik, óskyldum söguefninu. Þó verður að geta þess, að stundum eru náin efnistengsl milli vísna, sem kveðnar eru hvor með sínum bragarhætti.

Í Reginsmálum segir fyrst frá upphafi gullsins mikla, er varð bölvaldur Völsunga og Niflunga, en síðar frá föðurhefnd Sigurðar.

Fáfnismál eru fyrst samtal Sigurðar og Fáfnis deyjanda, þá samtal Sigurðar og Regins. Loks segir frá igðum, sem klökuðu í hrísinu. Þær flytja Sigurði spásögn um það, sem næst er framundan, og gefa honum ýmis holl ráð. Fyrst ráðleggja þær honum að drepa Regin. Þá segja þær, að leið hans muni liggja til Gjúka og hann kvænast dóttur hans. Að síðustu vísa þær honum leið upp á Hindarfjall, þar sem hann muni finna sofandi valkyrju.

Í samtölum þessara kvæða eru margar vísur, sem ekki snerta sjálft söguefnið, heldur eru almenn heilræði og goðsögulegur fróðleikur. Að þessu leyti minna þau á goðakvæðin, einkum Hávamál og Vafþrúðnismál.

*Sigurdrífumál.*

Sigurdrífumál eru að mestu leyti rúnaspeki og heilræði, sem valkyrjan Sigurdrífa kennir Sigurði. Í lausu máli á undan kvæðinu segir frá því, að Sigurður fann valkyrjuna sofandi á Hindarfjalli, og lék eldur um skjaldborgina, sem hún svaf í. Hún var í öllum herklæðum, en Sigurður risti af henni brynjuna, og þá vaknaði hún. Kvæðið hefst á samtali þeirra, og segir hún honum, að Óðinn hafi stungið hana svefnþorni. Síðan koma tvær vísur, þar sem kvæðið rís í mesta hæð. Þær hefjast á hinum glæsilegu ávarpsorðum: „Heill dagur, heilir dags synir" og „Heilir æsir, heilar ásynjur". Síðan telur Sigurdrífa upp ýmsar tegundir rúna, er Sigurður skuli kunna, og segir honum, til hvers þær séu nytsamar. Þvínæst kemur ein vísa, þar sem Sigurður biður hana að kenna sér holl ráð. Þá hefst lokaþáttur kvæðisins, sem er heilræði, er valkyrjan flytur honum.

Umgerð Sigurdrífumála minnir óneitanlega á ævintýrið um Þyrnirós, og má vera, að hér sé ævintýrið á frumstigi.

Í Völsunga sögu og Snorra-Eddu segir, að Sigurdrífa sé hin sama valkyrja og Brynhildur og hafi þau bundizt heitum á fjallinu. En



engar bendingar eru um slíkt í varðveittum Eddukvæðum nema Helreið Brynhildar. Þess vegna telja flestir fræðimenn nú, að þessi tengsl séu ekki upphafleg. En hafa verður í huga, að vel gat vitneskja um þetta efni verið í kvæðum, er stóðu á hinum týndu blöðum Konungsbókar. Í öðru lagi á Sigurdrífa ekkert erindi í sögu Sigurðar, ef hún hverfur jafnskjótt af sviðinu. Í þriðja lagi væri það einkennileg tilviljun, ef Sigurður heimsækti tvisvar sinnum konu í höll, sem væri umvafin vafurloga, ef engin tengsl væru þar á milli. Í fjórða lagi er harmsaga Sigurðar öll áhrifameiri, ef hann binzt heitum við Brynhildi í þetta sinn, en gleymir henni svo gersamlega um hríð vegna galdra illrar konu, að hann ríður hinn sama vafurloga í annað sinn til að biðja Brynhildar öðrum til handa.

*Eyðan í Konungsbók.*

Í Sigurdrífumálum hefst eyða í Konungsbók, og síðari hluti kvæðisins er aðeins varðveittur í pappírshandritum. Ekki er vitað með fullri vissu, hve mikið vantar í bókina, en líklegast er talið, að það sé eitt hefti eða átta blöð. Hins vegar er nokkuð vitað um efni þeirra kvæða, sem staðið hafa á hinum týndu blöðum, því að það er varðveitt í Völsunga sögu og að nokkru í Snorra-Eddu. Sagt hefur verið frá því, að Sigurður kom til Gjúka konungs, sem átti Grímhildi hina fjölkunnugu. Þau vildu fá Sigurð til handa Guðrúnu, dóttur sinni, og Grímhildur gaf Sigurði töfradrykk, svo að hann gleymdi Brynhildi. Þvínæst kvænist hann Guðrúnu. Nokkru síðar fór Sigurður með Gunnari Gjúkasyni að biðja Brynhildar honum til handa. Sigurður reið þá í líki Gunnars vafurlogann, sem lék um höll Brynhildar. Hjá henni svaf hann þrjár nætur og hafði sverð sitt bert á milli þeirra. Einnig skiptust þau á hringum. Síðan kvænist Gunnar Brynhildi, og er allt kyrrt um hríð. En eitt sinn, er þær Guðrún og Brynhildur voru að bleikja hadda sína í ánni Rín, verður þeim sundurorða og Guðrún segir Brynhildi frá þessum svikum öllum. Verður þá Brynhildur óðfús að láta drepa Sigurð, því að hún vill ekki eiga tvo eiginmenn innan hallar. Gunnar er fyrst tregur til stórræðanna. En Brynhildur telur Gunnari trú um, að Sigurður hafi rofið heit sín við hann, er þau hvíldu saman bak við vafurlogann. Þá lætur Gunnar loks undan. Síðan reynir Gunnar að telja Högna, bróður sinn, á sitt mál. Í miðju samtali þeirra er eyðunni

lokið. Það er í kvæði, sem hér er nefnt *Brot af Sigurðarkviðu.* Í sumum útgáfum Eddu er þetta kvæði nefnt *Sigurðarkviða in meiri* til samræmis við *Sigurðarkviðu ina skömmu,* er stendur litlu síðar í Konungsbók. En eins getur verið, að Sigurðarkviða in meiri hafi öll staðið í eyðunni og sé þetta brot úr öðru kvæði. Í þessum hluta Völsunga sögu standa nokkrar vísur, sem væntanlega eru úr hinum týndu kvæðum. Hér eru þær prentaðar undir heitinu: *Vísur úr Völsunga sögu.*

*Brot af Sigurðarkviðu.*

Brot af Sigurðarkviðu stendur næst á eftir eyðunni í Konungsbók. Ekki er vitað, hve langt er liðið á kvæðið, þegar hið varðveitta brot hefst. En það er í samtali bræðranna Gunnars og Högna, þegar Gunnar er að reyna að sannfæra bróður sinn um, að þeir verði að láta drepa Sigurð. Högni hreyfir andmælum, en lætur til leiðast. Það verður að ráði, að þeir fá Guttorm, bróður sinn, til að vinna verkið, því að hann var ekki bundinn eiðum við Sigurð eins og þeir Gunnar og Högni. En fyrst urðu þeir að gefa honum úlf og orm að eta til að herða hug hans. Vígið sjálft er afgreitt með tveimur vísuorðum. En jafnskjótt kveða fuglar við í skóginum og spá óheillum. Guðrún biður Gunnari bölbæna, er þeir koma frá víginu, en Brynhildur hlær hátt og þakkar þeim bræðrum verkið. Um kvöldið fóru allir að sofa nema Gunnar. Hann hugleiddi spá fuglanna og gat ekki sofnað fyrir áhyggjum. Litlu fyrir dag vaknar Brynhildur og er nú í öðrum ham en daginn áður. Hún kveður Sigurð hafa haldið alla eiða við sig og álasar Gunnari harðlega fyrir vígið og spáir honum tortímingu og allri hans ætt. Hér grípur skáldið til listbragða, sem alkunn eru í Íslendinga sögum. Það stendur sjálft þögult að baki atburðunum, en vitnar til ummæla sjónarvotta:

Fár kunni þeim
fljóða látum,
er hún grátandi
gerðist að segja,
það er hlæjandi
hölda beiddi.



Frásögn kvæðisins er stuttorð og hnitmiðuð. En hvert orð og atvik miðar að því að skýra skapgerð söguhetjanna. Dýpst leggst skáldið í lýsingu Brynhildar. Þar eru innstu hugrenningar þessarar stórlátu konu dregnar fram í dagsljósið með því að sýna hin snöggu og gagngerðu umskipti, sem urðu á skapi hennar.

*Guðrúnarkviða in fyrsta.*

Guðrúnarkviða in fyrsta lýsir aðeins einu atviki úr lífi Guðrúnar Gjúkadóttur. Það er, þegar hún situr yfir líki Sigurðar, bónda síns. Hún var svo harðhuguð, að hún mátti hvorki mæla né klökkna. Þá koma þrjár konungbornar konur og vilja hugga hana. Tvær hinar fyrri hafa engin önnur ráð en að reyna að skýra fyrir henni, hve þær sjálfar lifi við mikla harma, sem þær telja upp. En skáldið hefur það andsvar eitt við orðræðum þeirra að endurtaka stefið:

Þeygi Guðrún
gráta mátti,
svo var hún móðug
að mög dauðan
og harðhuguð
um hrör fylkis.

Þá kemur fram hin þriðja, Gullrönd, systir Guðrúnar. Hún sviptir blæju af líkinu og mælir þessi orð:

Líttu á ljúfan,
leggðu munn við grön
sem þú hálsaðir
heilan stilli.

Þá er eins og stífla bresti. Tárin renna niður andlit Guðrúnar, og hún fær aftur málið. Fyrst lofar hún ágæti Sigurðar með fögrum orðum. Síðan hallmælir hún bræðrum sínum, sem höfðu vegið hann. Þá kemur Brynhildur inn á sviðið í öllu sínu veldi, og „brann eldur úr augum, eitri fnæsti“. Hún atyrðir Gullröndu fyrir að hafa gefið Guðrúnu málið, en kennir Atla, bróður sínum, um allt ólán þeirra.

Allt bendir til, að efni Guðrúnarkviðu innar fyrstu sé hugsmíð skáldsins, sem orti hana. Harðlyndi Guðrúnar er alkunnugt úr öðrum Eddukvæðum. Í Atlakviðu er mest áherzla lögð á hefnigirni hennar og miskunnarleysi. Í Guðrúnarkviðu inni fornu telur Guðrún sjálf harma sína og lýsir skaphörku sinni frá eigin sjónarhóli. Þegar hún hefur sagt frá vígi Sigurðar, bætir hún við:

Gerðig-a eg hjúfra
né höndum slá
né kveina um
sem konur aðrar.

Þessi orð standa næstum óbreytt í upphafserindi Guðrúnarkviðu innar fyrstu, og er líklegast, að þau séu kveikjan að kvæðinu. Skáldið hefur viljað sýna, að Guðrún bjó yfir mildum, kvenlegum tilfinningum þrátt fyrir hörku sína. Og með því að tefla henni gegn Brynhildi í sínum grimmasta ham verða þessir þættir enn eftirminnilegri í fari Guðrúnar.

Fegursti hluti kvæðisins er ræða sú, sem líður af vörum Guðrúnar, þegar hún fær málið aftur. Þar lýsir hún sjálfri sér og Sigurði með myndum úr náttúrunni. Sigurður bar af sonum Gjúka sem „geirlaukur úr grasi vaxinn". Og meðan hann lifði, var Guðrún hverri konu meiri. En eftir dauða hans varð hún eins lítil og lauf á víðirunni, og söknuðurinn fylgir henni hvert sem hún fer. Og sárast er, að bræður hennar skuli valda allri ógæfu hennar „og sinnar systur sárum gráti".

*Sigurðarkviða in skamma.*

Sigurðarkviða in skamma er næstlengst hetjukvæðanna í Eddu. Þótt kviðan sé kennd við Sigurð Fáfnisbana, fjallar aðeins lítill hluti hennar um hann. Aðalsöguhetjan er Brynhildur. Í upphafi kviðunnar segir frá því, er Sigurður kom til Gjúka konungs, gekk að eiga Guðrúnu, dóttur hans, en sórst í fóstbræðralag við bræður hennar, Gunnar og Högna. Síðan fór Sigurður með þeim bræðrum að biðja Brynhildar til handa Gunnari. Sigurður hvíldi hjá Brynhildi og lagði nakið sverð á milli þeirra og hélt þannig alla eiða sína við Gunnar. Ekki er getið um ástarhug til Brynhildar af Sigurðar hálfu,



en hún unni honum svo mjög, að hún gat ekki unnt neinni annarri konu að njóta hans. Og eina úrræði hennar var að láta vega Sigurð. Hún kom að máli við Gunnar bónda sinn, og hvatti hann til vígsins. Gunnar var tregur til stórræðanna og miklaði fyrir henni, hvílíkur styrkur þeim bræðrum væri að mágsemd við Sigurð. En er Brynhildur hótaði að ganga frá honum að öðrum kosti, lét hann til leiðast. Gunnar reynir að telja Högna á sitt mál, og þrátt fyrir tregðu hans verður það að ráði hjá þeim bræðrum að fá Guttorm, bróður sinn, til að fremja vígið. En hann var utan eiða við Sigurð. Síðan vegur Guttormur Sigurð í sænginni við hlið Guðrúnar. En Sigurður kastar sverði sínu að Guttormi, og dó hann þegar. Guðrún vaknar við það, að hún flýtur í blóði Sigurðar. Þá segir nokkuð frá samtali þeirra hjóna, áður Sigurður deyr. Síðan er lýst viðbrögðum þessara tveggja kvenna við dauða Sigurðar. Guðrún grætur hástöfum. En er grátur hennar berst til eyrna Brynhildi, hlær hún „af öllum hug". Gunnar reiðist hlátri hennar, og segir meðal annars:

Hví hafnar þú
inum hvíta lit.

Þetta minnir óneitanlega á orð Bolla við Guðrúnu Ósvífursdóttur eftir víg Kjartans: „Ósýnt þykir mér, að hún (Hrefna) fölni meir við þessi tíðindi en þú". Síðan rekur Brynhildur harma sína og segist engum hafa unnað nema Sigurði. Að lokum segist hún munu svipta sig lífi og fylgja honum. Gunnar reynir að telja henni hughvarf, en það tjáir ekki. Þá leggur hún sig sverði. Og enn hefur hún upp raust sína og þylur spásögn yfir Gunnari. Hún segir honum frá ævilokum hans og rekur ókomna ævi Guðrúnar, systur hans. Að loknum þeim raunatölum hefst kvæðið í mesta reisn, er Brynhildur biður Gunnar að gera þeim Sigurði bálköst og brenna þau saman með sverðið nakið á milli sín. Hún kveðst vilja segja fleira, en má það ekki, því að líf hennar fjarar út.

Í Sigurðarkviðu inni skömmu leggur skáldið mikla alúð við að lýsa sálarlífi manna. Gunnar Gjúkason situr heilan dag að velta vöngum yfir því, hvort hann eigi að láta að orðum Brynhildar og drepa Sigurð. Sigurði er hins vegar lýst sem hinni flekklausu hetju. Guðrún er að öllu leyti kvenleg, og hvergi er minnzt á hinn harða hug hennar. En hæst ber lýsingu Brynhildar. Í upphafi kvæðis er

hún ung og saklaus. Og skáldið gerir sér mikið far um að sýna, að það voru hin illu örlög, en ekki innræti hennar, sem gerðu hana grimma og ofsafengna. Brynhildur er sjálf látin lýsa hugarstríði sínu, sem gekk svo langt, að hún á enga huggun í hörmum sínum aðra en þá að velta sér upp úr kvöl sinni og heift:

verð eg mig gæla
af grimmum hug.

Þess eru ýmis dæmi úr bókmenntum heimsins, að konur réðu bana þeim mönnum, sem þær elskuðu. En hér er þetta efni gert að eins konar sáttarfórn með því að leiða þau Sigurð og Brynhildi saman á bálið. Og gegnum alla heift Brynhildar brýst fram sakleysið frá æskuárunum, er hún heimtar nakið sverð á milli sín og Sigurðar.

*Helreið Brynhildar.*

Helreið Brynhildar er málsvörn fyrir Brynhildi eins og Sigurðarkviða in skamma og beint framhald hennar. Kvæðið segir frá því, er Brynhildur ók á helveg, eftir að hún hafði verið brennd með Sigurði. Leið hennar lá um tún tröllkonu einnar, sem bannaði henni að fara um garða sína og bar hana þungum sökum. Brynhildur andmælir tröllkonunni, rekur ævi sína mjög stuttlega og segir margt sér til málsbóta. Að lokum sér Brynhildur tilgangsleysið í þessu þrefi og hefur upp raust sína með þeim orðum, að ávallt muni konur og karlar fæðast til að búa við harma, en hér eftir verði þau Sigurður alltaf saman.

Helreið Brynhildar er mjög unglegt kvæði í sínum hópi, og hefur höfundur hennar viðað að sér efni úr öðrum Eddukvæðum, sem hann þekkti.

*Guðrúnarkviða in forna.*

Í Guðrúnarkviðu inni fornu segir Guðrún Gjúkadóttir ævisögu sína allt frá æskuárum og þar til hún er gift Atla Húnakonungi. Fyrri hluti kvæðisins er að öllu leyti eintal Guðrúnar, en síðan snýst það í samtalsform. Samt virðist Guðrún mæla fram allt kvæðið, en í síðari hlutanum tilfærir hún orðrétt samtöl manna. Í upphafi



kviðunnar er Guðrún hamingjusöm í föðurgarði og er gefin Sigurði Fáfnisbana, sem var allra konunga ágætastur. En hamingja hennar fær skjótan enda, er bræður hennar vega Sigurð. Guðrúnu grunar fyrst, að eitthvað illt sé á seyði, er Grani, reiðhestur Sigurðar, kemur heim mannlaus og „drap í gras höfði". Þetta fær henni svo þungrar áhyggju, að hún grætur. Síðan spyr hún Gunnar, hverju þetta sæti, en hann glúpnar við og má ekki mæla. Hins vegar segir Högni henni hranalega frá víginu og tjáir henni, að Sigurður liggi dauður úti á víðavangi „gefinn úlfum". Þá fer Guðrún út í skóg að hirða það af líkinu, sem úlfarnir höfðu skilið eftir. Þá gerist hún svo harðhuguð, að hún getur ekki grátið og óskar þess eins, að úlfarnir verði sér að bana. Eftir þetta fær kvæðið mildari blæ um sinn. Guðrún flýr að heiman og dvelst sjö misseri hjá Þóru Hákonardóttur í Danmörku. Þar reynir hún að gleyma hörmum sínum við hannyrðir og myndvefnað. Loks fréttir Grímhildur, móðir Guðrúnar, hvar hún er niður komin, og lætur senda eftir henni. Grímhildur blandar gleymskudrykk og gefur Guðrúnu, svo að hún gleymi fyrri hörmum sínum, og giftir hana nauðuga Atla Húnakonungi. Guðrún spáir illa fyrir þessu hjónabandi og tjáir móður sinni, að Atli muni verða bræðrum sínum tveimur að bana. Síðasti þáttur kviðunnar gerist í borg Atla. Hann hefur haft erfiða drauma og biður Guðrúnu að ráða þá. Guðrún veit, að þeir boða dauða Atla og sona þeirra af hennar völdum. En hún reynir að ráða þá svo, að Atli uggi ekki að sér. Hér lýkur kvæðinu skyndilega.

Guðrúnarkviða in forna er eins konar tengiliður milli kvæðanna um Sigurð og Atla. En í þessum kvæðum birtist Guðrún í tveim ólíkum myndum. Í Sigurðarkviðunum er Guðrún mild og gædd kvenlegum þokka, en í Atlakviðunum er hún miskunnarlaus og ofsafengin. Í Guðrúnarkviðu inni fornu sýnir skáldið okkur Guðrúnu í báðum þessum myndum. Framan af er hún mild og kvenleg. En er hún situr ein úti yfir sundurhöggnu líki bónda síns, umkringd af úlfum, harðnar skap hennar. Aftur virðist það þó mildast, er hún situr yfir hannyrðum með vinkonu sinni í Danmörku. En mest verður breytingin á Guðrúnu, eftir að hún hefur verið gefin Atla gegn vilja sínum og hann hefur látið drepa bræður hennar. Þá birtist Guðrún fyrst í gervi hinnar grimmlyndu valkyrju, sem við þekkjum úr Atlakviðunum.

Skáld Guðrúnarkviðu innar fornu er meistari að draga upp mynd-

ir. Guðrún hefur mál sitt á hugþekkri lýsingu á unaði æskuáranna. Þá dregur hún glæsilega mynd af Sigurði með samlíkingum úr náttúrunni. Sú mynd gengur næst lýsingu Sigrúnar á Helga í Völsungakviðu inni fornu. Það eitt skortir á, að í samlíkingu Guðrúnarkviðu er engin hreyfing. En mestum töfrum nær höfundurinn, er hann leiðir Guðrúnu og Grana saman eftir víg Sigurðar og sýnir okkur, hvernig hryggðin drýpur af þeim báðum. Ekki má heldur gleyma hinni átakanlegu mynd af Guðrúnu yfir líki Sigurðar né hinum geðfellda blæ, sem skáldið breiðir yfir saumaskap þeirra Guðrúnar og Þóru. Í síðari hluta kviðunnar er blærinn allur harðari, og þar kveður mest að hátterni Grímhildar, er hún neyðir Guðrúnu til að giftast Atla.

*Guðrúnarkviða in þriðja.*

Í Guðrúnarkviðu inni þriðju er aðeins sagt frá einu atviki úr ævi Guðrúnar Gjúkadóttur. Guðrún spyr Atla, hví hann sé ókátur. Hann svarar því til, að Herkja hafi sagt sér, að vingott væri með Guðrúnu og Þjóðreki. Guðrún kveður þau Þjóðrek ekkert hafa aðhafzt, sem ekki sé þeim sæmandi, hún hafi aðeins einu sinni tekið um háls honum, er þau töldu hvort öðru harma sína. Síðan býðst Guðrún til að sanna sakleysi sitt með skírslu. Skírslan fer fram á þann hátt, að sóttur er ketill með sjóðandi vatni, og Guðrún dýfir í hann hendinni og tekur stein upp af botninum. Voru hendur hennar óbrunnar. Þá lét Atli Herkju ganga undir sömu skírslu, og sviðnuðu hendur hennar. Var þá Herkja leidd í mýri fúla og henni drekkt þar.

Það er eftirtektarvert við þessa kviðu, að hún geymir tvö alkunn nöfn, sem ekki koma fyrir annars staðar í Eddukvæðum. Það eru Þjóðrekur og Herkja. Þjóðrekur er að vísu einnig nefndur í grein í lausu máli, sem stendur á undan Guðrúnarkviðu inni fornu, og segir þar, að Guðrún hafi flutt honum kviðuna. En það getur vel verið ályktun ritarans út frá ummælum í Guðrúnarkviðu inni þriðju, sem getið er hér að framan. Hins vegar kemur Þjóðrekur mjög við þýzkar sagnir um Niflunga, og þar er hann um hríð látinn dveljast við hirð Atla. En það fær ekki staðizt sagnfræðilega, því að Þjóðrekur eða Þiðrekur af Bern er sami maðurinn og Þeodorikus hinn mikli konungur Austur-Gota, en hann var einni kynslóð yngri en Atli. Þjóðrekur lézt 526, en Atli 453. Nafnið Herkja er sama og Kreka,



sem samkvæmt sannsögulegum heimildum var kona Atla. En í inngangsorðum Guðrúnarkviðu þriðju er hún talin ambátt, er verið hafi frilla hans. Telja verður líklegast, að höfundur kviðunnar hafi tekið þessi nöfn úr þýzkum sögnum, en ekki vitað mikil deili á þeim. Guðrúnarkviða in þriðja er glöggt dæmi um það, hvernig söguhetjur Eddukvæða draga að sér yrkisefni úr flökkusögum samtíðarinnar.

*Oddrúnargrátur.*

Það var tekið fram í upphafskafla þessa inngangs, að konur þær, sem setja svip sinn á Eddukvæði, eru ekki þolandi ástmeyjar. Oddrúnargrátur er hér alger undantekning. Umgerð kvæðisins er á þessa leið: Borgný hefur tekið jóðsótt, en má ekki fæða börn. Þetta fréttir Oddrún, söðlar hest sinn og ríður á fund Borgnýjar. Þvínæst þylur Oddrún galdra yfir Borgnýju, og hún fæðir son og dóttur. Þá segir nokkuð frá orðaskiptum þeirra. En meginhluti kvæðisins er eintal Oddrúnar. Hún segir Borgnýju raunasögu sína. Oddrún er systir þeirra Atla Húnakonungs og Brynhildar Buðladóttur. Allt frá barnæsku hefur Oddrún unnað Gunnari Gjúkasyni og engum manni öðrum. En örlögin höguðu því svo, að Gunnar gekk að eiga Brynhildi, systur hennar. Oddrún kveðst hafa unnað Gunnari „sem Brynhildur skyldi“. Eftir dauða Brynhildar biður Gunnar Atla um hönd Oddrúnar og býður fram mikið gull. En Atli synjar þverlega. Síðan eiga þau Gunnar og Oddrún ástafundi á laun. En er Atli kemst að því, lætur hann varpa Gunnari í ormagarð. Gunnar knýr hörpu sína til að kalla á hjálp Oddrúnar. Hún er stödd langt í burtu, en eigi að síður heyrir hún hörpusláttinn og flýtir sér til Gunnars. En hún kemur of seint, því að áður hafði móðir Atla í nöðrulíki stungið Gunnar til bana. Þegar Oddrún hafði fengið þessa lífsreynslu, heitir hún því, að hún skuli alltaf veita hjálp sína, er hún eigi þess kost. Þess vegna hjálpaði hún Borgnýju í raunum hennar.

Í Oddrúnargráti kemur fram djúp samúð með þeim, sem rata í ástarraunir. Þar standa meðal annars þessar línur:

En slíks skyli
synja aldrei
maður fyr annan,
þar er munúð deilir.

Þetta minnir á orð Hávamála:

Ástar firna
skyli engi maður
annan aldregi.

Oddrúnargrátur verður ekki talinn til stórfenglegustu Eddukvæðanna. Og það fer ekki milli mála, að í heimsbókmenntunum á Oddrún sér fleiri hliðstæður en þær Guðrún og Brynhildur. En innan Eddukvæða er hún sérstæð persóna.

*Atlakviða.*

Í Atlakviðu eru þrjár af aðalsöguhetjunum hinar sömu og í kvæðunum um Sigurð Fáfnisbana. Það eru Guðrún Gjúkadóttir og bræður hennar tveir: Gunnar og Högni. Eigi að síður er Atlakviða algerlega sjálfstætt kvæði og vitnar hvergi til frásagna um fyrri ævi þessa fólks að öðru leyti en því, að gert er ráð fyrir, að þeir Gunnar og Högni eigi gullið mikla, sem Sigurður sótti á Gnitaheiði. Meira að segja verður heift Guðrúnar eftir dauða bræðra hennar eðlilegri, ef fyrri skipti þeirra systkina eru ekki höfð í huga.

Þegar hér er komið sögu, er Guðrún gift í annað sinn og orðin drottning Atla Húnakonungs. Kviðan hefst á því, að Atli sendir erindreka til þeirra Gunnars og Högna til að bjóða þeim heim. Og jafnframt er það tekið fram, að þeir fái mikið gull og gersemar að gjöf, ef þeir komi. Gunnar er í fyrstu ófús til fararinnar og segir, að þeir bræður eigi nóg af gulli. Högni letur Gunnar að fara og segir, að Guðrún hafi varað þá við með því að senda þeim gullhring, vafinn með úlfshári. Þegar Gunnar heyrir það, vill hann ekki forðast hættuna og er óðfús að fara. Síðan fara þeir bræður tveir einir og brynjulausir til Atla. Þeir hitta Guðrúnu fyrst að máli, og hún segir þeim, að Atli muni svíkja þá. En nú er of seint að safna liði. Atli veitir þeim þegar atgöngu, og þeir bræður eru handteknir. Gunnari er boðið líf, ef hann vilji segja, hvar gullið mikla sé fólgið. Hann setur það skilyrði, að hjartað sé fyrst skorið úr Högna. En Atli vill enn pretta hann og lætur skera hjarta úr þræli og bera fyrir Gunnar. Gunnar sér strax, að hjartað bifast, og þekkir, að það er ekki hjarta Högna. Þá er hjartað skorið úr brjósti Högna lifanda, en hann hlær,



meðan á þeirri athöfn stendur. Þegar hjartað er borið fyrir Gunnar, sér hann, að það bifast ekki og hlýtur því að vera úr Högna. Þá segir Gunnar, að aldrei hafi hann verið öruggur um leyndarmálið, meðan Högni lifði, en nú viti hann einn, hvar gullið sé fólgið, og þverneitar að segja til þess. Síðan er Gunnar settur í ormagarð, en hann slær hörpu sína, að því er virðist til að svæfa ormana, en eigi að síður lætur hann lífið.

Eftir þetta lætur Atli efna til mikillar veizlu. En að þeirri veizlu segir Guðrún Atla, að hún hafi gefið honum hold tveggja sona þeirra „að ölkrásum" og hafi hann neytt þess. Þá leggur hún Atla í gegn, þar sem hann liggur í rúmi sínu. Síðan leggur hún eld í höllina og brennir inni alla þá, sem verið höfðu að morði Gunnars. Svo er að sjá sem Guðrún hafi ekki ætlað sér lengra líf, því að í lok kviðunnar er tekið fram, að þetta hafi hún afrekað, áður en hún dó. Verður því að ætla, að upphaflega sögnin um ævilok Guðrúnar sé á þá leið, að hún hafi farizt í höllinni með Atla, en frásagnir um síðari æviár hennar og tengslin við söguna um Jörmunrek séu síðar til komin.

Atlakviða er mótuð af óvenjulegri hörku, sem hetjan beitir jafnt við sjálfa sig og aðra. Atla er samt aldrei lýst sem neinni hetju. Hann er fégjarn, svikull og grimmlyndur og gerir ekkert stórmannlega. Óhugnanlegasti verknaður kviðunnar er þó athæfi Guðrúnar, er hún slátrar sonum sínum og ber þá á borð fyrir eiginmann sinn. En skáldið vill leggja áherzlu á fórnarlund hennar, þar sem móðurástin verður að víkja fyrir hefndarskyldunni. Guðrún er öll önnur kona hér en í kvæðunum um Sigurð Fáfnisbana — og miklu harðari. Breytingin á skapferli hennar er rakin í Guðrúnarkviðu inni fornu, og þar er leitazt við að sýna, hvernig hin grimmu örlög hertu hug hennar. Gunnar er líka með nokkuð öðrum svip en í Sigurðarkviðunum. Þar er hann hikandi og áhyggjufullur, en í Atlakviðu hefur hann tileinkað sér hina hefðbundnu hugsjón hetjunnar, sem lætur sér hvorki bregða við sár né bana. Högni er einna líkastur sjálfum sér. Hann letur Gunnar jafnan stórræðanna, en þegar út í þau er komið, er hann harður og ósveigjanlegur.

Stíll Atlakviðu er með sérstæðum blæ. Það kemur meðal annars fram í sköpun samsettra lýsingarorða, sem bera glöggt vitni um sjónskyn höfundar. Hestar hans eru vandstyggir og mélgreypir, birnir blakkfjallir, hjálmar gullroðnir o. s. frv. Hér er á ferðinni sams

konar orðasmíð og setur svip sinn á stíl þeirra Sveinbjarnar Egilssonar og Jónasar Hallgrímssonar.

Um sögulegt baksvið Atlakviðu er rætt í kaflanum: Söguefni hetjukvæða og erlend rit.

*Atlamál in grænlenzku.*

Atlamál eru lengst allra hetjukvæðanna í Eddu. Efnið er að mestu hið sama og í Atlakviðu, en frásögnin er öll ýtarlegri og margorðari. Á nokkrum stöðum hefur höfundur Atlamála gert efnisleg frávik frá Atlakviðu, sem virðist hafa verið aðalheimild hans. Að einhverju leyti getur þetta stafað af því, að hann hafi þekkt fleiri heimildir um Atla, t. d. þýzkar sagnir, en hér mun breyttur smekkur hafa ráðið mestu. Höfundur Atlamála er sálfræðilegt skáld, sem hefur tilhneigingu til að flytja persónur sínar ofan af hæðum hetjulífsins í raunsærra og hversdagslegra umhverfi. Og hann leggur stundum sjálfur dóm á gerðir þeirra, en slíkt er fátítt í fornum skáldskap norrænum. Mesta alúð leggur hann við að lýsa sálarlífi Guðrúnar. Hann lætur Guðrúnu senda bræðrum sínum rúnakefli í viðvörunarskyni í stað hrings með úlfshári. En sendimaður Atla villti rúnirnar, svo að þær voru torráðnar. Kona Högna, sem kunni skil rúna, komst þó að hinu sanna og sagði manni sínum. Mjög voru þeir bræður lattir fararinnar, og mest af konum sínum. En þeir fóru eigi að síður. Síðan er fögur lýsing á því, hvernig þeir bræður og konur þeirra horfðust á, þar til fjarlægð byrgði sýn. Þegar þeir bræður komu til Atla, sló þegar í bardaga. Guðrún tók vopn og barðist við hlið þeirra gegn manni sínum. En er þeir bræður voru yfirbugaðir, vildi Atli láta skera hjarta úr Högna. En þeir menn, sem framkvæma áttu verkið, vildu forða lífi hans og taka þrælshjarta í staðinn. Högni bannaði það og sagði, að þrælnum þætti miklu meira fyrir að deyja en sér. Var þá skorið hjarta úr Högna, en hann hló á meðan. Atli skipaði að festa Gunnar á gálga og gefa hann ormum. Ekki er ormagarðurinn nefndur sérstaklega, en getið er um hörpuslátt Gunnars. Eftir dauða bræðranna kallaði Guðrún til sín sonu sína og tjáði þeim, að hún ætlaði að svipta þá lífi. Þeir sögðu henni að gera sem hún vildi. Síðan kemur löng hjónasenna milli Atla og Guðrúnar. Þá segir Guðrún Atla meðal annars frá því, að hún hafi gefið honum að eta steikt hjörtu sona þeirra og hann hafi drukkið blóð þeirra



blandað víni úr ölskálum, sem gerðar voru úr hausum þeirra. Eftir þetta veittu þau Guðrún og sonur Högna Atla banasár. Hið síðasta, sem hún segir honum, er það, að hún muni gera útför hans virðulega. Síðan ætlaði Guðrún að stytta sér aldur, en það tókst ekki, því að henni var lengra lífs auðið.

Mesta missögn Atlakviðu og Atlamála er sú, að gullið mikla er hvergi nefnt í Atlamálum. Dauði bræðranna er því með öðrum svip, og meðferð Atla á þeim er ekki sprottin af ágirnd, heldur grimmd. Á þennan hátt vill skáldið skýra hinn þunga heiftarhug, sem Guðrún ber til Atla eftir víg þeirra. Einnig er gaman að bera saman lýsingar beggja kvæðanna á Hjalla hinum blauða. Það er algengt efnisatriði í fornbókmenntum okkar að leggja áherzlu á hugleysi þræla, þegar þeir koma saman við höfðingja. Eigi að síður leikur þrællinn harmsögulegt hlutverk í Atlakviðu, þegar hjartað er skorið úr honum. Í Atlamálum er hann hins vegar gerður að skoppersónu, er hann „kleif í rá hverja", af því að hann vildi ekki „deyja frá svínum".

Um það leyti, sem Atlamál voru ort, voru sagnir um ævi Guðrúnar eftir dauða Atla orðnar svo alkunnar, að ekki var lengur stætt á því að láta hana farast í höllinni með honum. Þess vegna hlaut sjálfsmorð Guðrúnar að breytast í tilraun til að stytta sér aldur.

Um líkurnar fyrir grænlenzkum uppruna Atlamála er rætt í lok kaflans: Varðveizla, aldur og heimkynni.

*Guðrúnarhvöt.*

Guðrúnarhvöt skiptist í tvo þætti. Í fyrri þættinum eggjar Guðrún sonu sína, Hamdi og Sörla, að hefna Svanhildar systur þeirra, sem Jörmunrekur konungur hafði látið troða undir hrossa fótum. Í þessum hluta kvæðisins er Guðrún hörð og óbilgjörn og sýnir sonum sínum enga vægð. Að skilnaði segir Hamdir henni, að þeir muni ekki koma aftur og hún verði að drekka sameiginlegt erfi eftir Svanhildi og sonu sína. En er þeir bræður eru farnir, fellur Guðrún saman og tekur að segja harma sína. Áhrifamest er frásögnin

um þann inn hvíta
hadd Svanhildar,
auri tröddu
und jóa fótum.

Guðrún minnist þriggja eiginmanna sinna: Sigurðar, Atla og Jónakurs. En Sigurður er eini maðurinn, sem hún hefur elskað. Undir lokin snýr hún máli sínu til hans eins. Hún minnir hann á, að þau hafi fyrir löngu heitið hvort öðru að vitja hins, er dauðinn skildi þau, hann úr helju, en hún úr heimi. Nú biður hún Sigurð að beizla hinn „blakka mar" og ríða til fundar við sig. Þá segir hún jörlum sínum að hlaða háan bálköst, sem hún vill stíga á með Sigurði.

Hér er greinilega á ferðinni afbrigði sömu sögunnar og sögð er í Sigurðarkviðu inni skömmu, er Brynhildur heimtar að láta brenna sig með Sigurði. Engum getum skal að því leitt, hvort kvæðið sé fyrr ort. En augljóst er, að sögnin er upphaflegri, eins og hún stendur í Sigurðarkviðu. Þar er hún nákvæm lýsing á ekknabrennum[1]), eins og þær tíðkuðust á Norðurlöndum að fornu. En höfundur Guðrúnarhvatar eða einhver fyrirrennari hans hefur ekki getað unnt Brynhildi þess heiðurs að verða brennd með Sigurði og þótt eiginkonan verðugri til að hvíla við hlið hans á bálkestinum. En hér var ekki hægt um vik, því að þau hjónin dóu með áratuga millibili. Þess vegna verður hann að láta Guðrúnu kalla Sigurð til sín úr helju. Fyrirmynd þessa atburðar er sennilega úr Völsungakviðu inni fornu, er Helgi fer úr Valhöll til fundar við Sigrúnu.

Þegar Guðrún hefur lokið máli sínu, stendur ein vísa í Guðrúnarhvöt. Þar er harmatal hennar kallað tregróf, og er trúlegt, að það sé hið upphaflega heiti kvæðisins. Hins vegar er fyrri þáttur þess, hin eiginlega Guðrúnarhvöt, sama efnis og upphaf Hamdismála, og sumar vísur eru næstum eins. Það er því ekki ólíklega til getið hjá Jóni Helgasyni, að þær eigi heima í Hamdismálum, en þeim hafi verið skeytt framan við tregrófið, meðan bæði kvæðin gengu í munnmælum. Um leið hefur nafnið Guðrúnarhvöt færzt yfir á allt kvæðið.

*Hamdismál.*

Þegar kvæðið hefst, er Guðrún gift þriðja manni sínum, Jónakri konungi, og á með honum tvo sonu: Hamdi og Sörla. Erpur er þriðji sonur Jónakurs, en Guðrún er ekki móðir hans. Svanhildur,

1) Um ekknabrennur hef ég ritað á öðrum stað (Heiðinn siður á Íslandi bls. 100—103).



dóttir Guðrúnar og Sigurðar Fáfnisbana, hafði verið gefin Jörmunreki Gotakonungi. En vegna afbrýði við Randvé, son sinn, hafði Jörmunrekur látið hengja hann, en troða Svanhildi undir hrossa fótum. Upphaf Hamdismála er sama efnis og fyrri hluti Guðrúnarhvatar og segir frá því, er Guðrún eggjar sonu sína að hefna Svanhildar. Því samtali lýkur með því, að Sörli segir henni, að þeir muni ekki koma aftur. Þeir bræður leggja af stað í heiftarhug til móður sinnar. Á leiðinni hitta þeir Erp, hálfbróður sinn, og spyrja hann, hverja hjálp hann vilji veita þeim. Hann kveðst munu veita þeim sem annar fótur hinum. Þeim þykir það lítilmótlegt og drepa hann. Síðan halda þeir áfram ferð sinni til hallar Jörmunreks. Konungur situr yfir drykkju, og er hann verður þeirra var, fagnar hann því að sjá þá, svo að hann geti látið festa þá á gálga. Þvínæst slær í bardaga, og verður mikið mannfall í liði Gota. Þeir bræður höggva hendur og fætur af Jörmunreki, en þá skipar hann að láta berja þá grjóti í hel, því að engin járn bíti þá. Bræðurnir átta sig nú á því, að þá hefur hent mikið slys, er þeir drápu Erp, því að „af mundi nú höfuðið, ef Erpur lifði". Þeir halda þó hugrekki sínu fram í dauðann, og gleðja sig af því, að þeir hafi getið sér góðan orðstír.

Hamdismál eru stuttorð og gagnorð. Þau eru gegnsýrð af hinum forna hetjuanda, sem framar öllu birtist í harðneskju og hugprýði. Eggjun Guðrúnar og svör bræðranna eru mótuð af æðruleysi og miskunnarleysi. Bræðurnir halda ótrauðir á fund Jörmunreks, þótt þeir viti, að þar sé þeim bani búinn. En mest reisn er yfir þeim, þegar þeir bíða dauða síns standandi á „val Gotna" og hælast af afrekum sínum. Yfir hetjudáð þeirra fellur þó skuggi sjálfsásökunar, er þeir minnast dauða Erps.

Það gegnir furðu um jafn stuttort kvæði og Hamdismál, hve mikið er þar af myndrænum lýsingum. Þegar þeir bræður koma til Jörmunreks, er honum svo lýst:

Skók hann skör jarpa,
sá á skjöld hvítan,
lét hann sér í hendi
hvarfa ker gullið.

Eftirminnilegastar eru samt þær mannlýsingar, þar sem gripið er til samlíkinga úr náttúrunni. Mitt í öllum heiftyrðunum, þegar

Guðrún kveður sonu sína, dregur hún upp þessa sérstæðu mynd af sjálfri sér:

Einstæð em eg orðin
sem ösp í holti,
fallin að frændum
sem fura að kvisti,
vaðin að vilja
sem viður að laufi,
þá er in kvistskæða
kemur um dag varman.

Og undir lok kvæðisins standa bræðurnir á „val Gotna... sem ernir á kvisti". Náttúruskyn skáldsins kemur einnig fram í lýsingunni á ferðalagi þeirra bræðra. Þeir ríða „mörum húnlenzkum" yfir „úrig fjöll" og hið fyrsta, sem þeir sjá af ríki Jörmunreks, eru:

vargtré vindköld
vestan bæjar.

Um sögulegt baksvið Hamdismála er rætt í kaflanum: Söguefni hetjukvæða og erlend rit.

*Gróttasöngur.*

Gróttasöngur gerist á dögum Fróða Danakonungs. Hann átti kvörnina Grótta, sem hafði þá náttúru, að hún malaði það, sem mælt var fyrir. Konungur keypti ambáttir tvær, Fenju og Menju, sem í rauninni voru tröllkonur, og leiddi þær til kvarnarinnar. Þær möluðu gull, frið og sælu Fróða til handa, svo að aldrei hafði slík gullöld og friðaröld gengið yfir Danaveldi. En konungur unni þeim ekki lengri hvíldar en meðan gaukurinn þagði og eitt ljóð mátti kveða. Þær undu því illa vistinni og tóku að mala óvinaher að Fróða. Áður en því starfi var lokið, sáust eldar frá liði óvinanna, sem ótt nálgaðist. Þær héldu þó áfram að mala, þar til kvarnarstokkurinn féll niður og kvarnarsteinninn brotnaði. Mestur hluti kvæðisins er söngur ambáttanna við kvörnina.

Varla þarf að efa, að skáldið, sem orti Gróttasöng, hafi þekkt



eitthvað til vinnuljóða, sem menn sungu til að létta störf sín. Náin hliðstæða er Darraðarljóð í Njálu, sem sungin voru yfir vef. Einnig er getið um kvarnarsöng á einum stað í sögum Noregskonunga, þótt ekki sé hann varðveittur. Sú hugmynd er útbreidd um alla jörð, að einhvern tíma langt aftur í forneskju hafi verið gullöld, þegar mennirnir voru miklu hamingjusamari en í samtímanum. Er nóg að minna á kvæði Hesiodosar skálds. Og þótt fornbókmenntir okkar séu yfirleitt skrifaðar frá sjónarmiði höfðingja, má hér og þar finna meðaumkun með hinni þrælkuðu stétt. En hvergi er samúðin með henni jafn eindregin og í Gróttasöng.

*Grógaldur og Fjölsvinnsmál.*

Grógaldur er eins konar inngangur Fjölsvinnsmála. Saga sú, sem sögð er í þessum kvæðum, er hvorki goðsaga né hetjusaga, heldur ævintýri. En kvæðin eru ort í stíl goðakvæða og í þeim koma fyrir ýmsar goðsögulegar hugmyndir. Í Grógaldri er sagt frá því, að Svipdagur kemur að leiði Gróu, móður sinnar, og biður hana að gala galdra sér til heilla, því að stjúpa sín hafi lagt á sig, að hann megi ekki finna ró, fyrr en hann hitti Menglöðu. Gróa gelur honum síðan níu galdra, sem eru heilræði, er megi bjarga honum, ef hann lendir í háska. Þar er frægust síðasta lína fyrsta galdurs: Sjálfur leið þú sjálfan þig. Að lokum árnar Gróa syni sínum fararheilla.

Fjölsvinnsmál hefjast fyrir utan borg Menglaðar. Svipdagur dylur nafn sitt og nefnist Vindkaldur og hittir að máli borgarvörðinn, sem Fjölsviður heitir. Mestur hluti kvæðisins er orðaskipti þeirra. Svipdagur spyr meðal annars, hver ráði fyrir borginni og hvernig megi komast þangað inn. Borgarvörðurinn segir honum, að þetta sé borg Menglaðar og engum sé fært að komast þangað nema Svipdag einum, því að

honum var sú in sólbjarta
brúður að kvon um kveðin.

Þá segir Svipdagur til sín, og er hann leiddur inn til Menglaðar. Kvæðinu lýkur með fagurri lýsingu á fundi þeirra.

Söguefni þessara kvæða er rakið til keltneskra ævintýra. Það er einnig varðveitt í dönsku þjóðkvæði: Ungen Svejdal.

*Hlöðskviða.*

Hlöðskviða er ekki varðveitt sem sérstakt kvæði, heldur sem lausavísur í Hervarar sögu og Heiðreks. En tengsl vísnanna eru svo náin, að fullvíst þykir, að þessi þáttur sögunnar sé byggður á fornu hetjukvæði. Milli vísnanna eru sums staðar alllangar greinar í lausu máli, og er talið lílegast, að höfundur sögunnar hafi snúið flestum frásagnavísum kvæðisins í óbundið mál. Hins vegar hefur hann tekið samtalsvísurnar upp óbreyttar og nokkrar frásagnavísur.

Meginefni Hlöðskviðu er barátta milli Húna og Gota. Heiðrekur Gotakonungur átti tvo sonu. Annar var Angantýr, sem var skilgetinn og tók við ríki Gota eftir föður sinn. Hinn var Hlöður, er Heiðrekur hafði átt með dóttur Humla Húnakonungs, sem hann hafði tekið frillutaki. Hlöður ólst upp með móðurföður sínum á Húnalandi. Kviðan hefst, er Angantýr drekkur erfi Heiðreks föður síns. Hlöður kemur til veizlunnar öllum að óvörum. Angantýr tekur bróður sínum með fögnuði og býður honum að drekka. En Hlöður segir annað erindi sitt og heimtar hálfan arf eftir Heiðrek. Angantýr svarar, að fyrr muni „margur gumi í gras hníga" en hann láti hálfan arf eða deili sverðinu Tyrfing í tvennt. En það var kjörgripur ættarinnar. Hins vegar býðst Angantýr til að gefa bróður sínum þriðjung Goðþjóðar (Gotalands) og mikið gull og silfur. Einn af mönnum Angantýs, sem heyrir á tal þeirra, segir, að þetta sé „þiggjanda þýjar barni". Hlöður reiðist nú mjög, er hann var þýbarn (ambáttarsonur) kallaður, og var nú úti um sættir. Þeir Humli og Hlöður safna nú miklum her og gera árás á land Gota. Þar var til landvarnar Hervör, systir þeirra Angantýs. Eftir skæðan bardaga fellur Hervör, og er Angantýr spyr fall hennar, mælir hann:

Óbróðurlega vartu leikin  
mín ágæta systir.

Síðan sendir Angantýr erindreka til Húna og býður þeim til orustu á Dúnheiði. Orustan stendur í átta daga, og þar falla þeir Humli og Hlöður, en annað lið Húna leggur á flótta. Í valnum finnur Angantýr lík bróður síns og harmar hin illu örlög sín: að hafa orðið banamaður hans.

Margt hefur verið ritað um Hlöðskviðu, og menn hafa reynt að finna sannsögulegar fyrirmyndir að atburðum hennar. Eina hliðstæðan, sem vert er að nefna, er í hinu forna enska Víðförulskvæði (Widsíð). Þar segir, að Atla lýðir (Húnar) sækja á Hreiða (Hreiðgota), en Hreiðar verja þeim „aldinn óðalstól" (ættland sitt), og barizt er í „Vistlu viði" (skógum við ána Vislu). Eftir því sem næst verður komizt, hafa því Húnar gert árás á ríki Gota, sem bjuggu við Vislu, en Gotar varið lönd sín. Einnig eru nokkur svipuð mannanöfn í Hlöðskviðu og þessum hluta Víðförulskvæðis, meðal annars nöfn, er minna á Hlöð og Anganty.

Í Víðförulskvæði er þess ekki getið, að þeir Hlöður og Angantýr séu bræður. Ekki verður heldur annað séð en barátta Húna og Gota sé venjulegt landvinningastríð. En í Hlöðskviðu fær þetta efni blæ harmleiksins. Bræðurnir tveir vilja verja rétt sinn til hins ýtrasta. Angantýr sér ekki eftir miklum fjármunum til handa bróður sínum. Hins vegar vill Angantýr láta það koma skýrt í ljós, að hann sé einn borinn til arfs. Hlöður telur gjafir bróður síns einskis virði, ef hann er áfram nefndur frillusonur. Og þessi hnútur varð ekki leystur nema með bróðurvígi. Hervör, systir þeirra, sem á enga sök á missætti bræðranna, verður einnig að bæta fyrir með lífi sínu.

*Sólarljóð.*

Sólarljóð hafa algera sérstöðu meðal íslenzkra helgikvæða. Flest helgikvæðaskáld tóku dróttkvæði sér til fyrirmyndar og fluttu drottni og helgum mönnum lof í sama stíl og forfeður þeirra höfðu iðkað öldum saman, er þeir færðu konungum drápur sínar. En höfundur Sólarljóða fer aðra leið. Hann hafði hlustað á spakleg snjallyrði og kliðmjúka hrynjandi Eddukvæða og tekur sér fyrir hendur að yrkja kristileg Hávamál. En því fer fjarri, að hann sé að setja nýja bót á gamalt fat. Honum tekst svo vel að aðlaga hið gamla form hinu nýja efni, að úr verður sérstætt listaverk.

Efni Sólarljóða er kristin lífsspeki. Skáldið velur henni þá umgerð að láta dáinn föður birta syni sínum hana í draumi. Fyrri hluti kvæðisins, sem er dæmisögur og holl ráð, hefur mestan svip af Hávamálum. Síðan lýsir faðirinn dauða sínum og því, hve honum reyndist erfitt að skilja við lífið. Í þeim kafla er hin gullfagra lýsing á því, er hann sá sólina síðasta sinn í þessu lífi. Af þeirri lýsingu er heiti kvæðisins

dregið. En lengsti þáttur Sólarljóða fjallar um lífið í öðrum heimi. Þar er bæði lýst píslum ranglátra og launum réttlátra.

Þessi hluti kvæðisins sver sig í ætt við hinar umfangsmiklu leiðslubókmenntir miðalda, sem lýsa ýmsum tilverusviðum annars heims. Þar ber langhæst Divina Commedia eftir Dante. En hér á Norðurlöndum er kunnast Draumkvæðið norska, sem er í þjóðkvæðastíl. Þó að Sólarljóð séu ekki nema að öðrum þræði runnin upp úr þessum jarðvegi, eru þau oft nefnd meðal hátinda þessarar bókmenntagreinar. En þau eru líka einn af hátindunum í kristilegum trúarskáldskap Íslendinga ásamt Lilju Eysteins og sálmum Hallgríms Péturssonar.



# *Fáein orð um stafsetningu og málfar*

Stafsetning kvæðanna í þessari útgáfu er miðuð við það að auðvelda lesandanum að lesa þau upphátt með eðlilegum framburði. Fornar orðmyndir eru aðeins færðar í nútíma horf í þeim tilvikum, þar sem allt hljóðkerfi málsins hefur hnikazt til og færzt í nýjar skorður. Þannig er ritað *að* fyrir *at*, *og* fyrir *ok* og oftast endingin *ur* í stað *r*. Hins vegar er fornum beygingarendingum haldið og einnig þeim orðmyndum, sem ekki eiga sér fasta samsvörun í nútímamáli. Nauðsynlegt er því fyrir lesandann að hafa alltaf í huga nokkur atriði um fornar orðmyndir, og eru þessi helzt:

1. Persónufornafnið *eg* (eldra *ek*) rann stundum saman við undanfarandi sögn: *þorig* = þori eg, *bíðk* = bíð eg.
2. Persónufornöfnin *þið* og *þér* voru að fornu *ið* (eldra *it*) og *ér*.
3. Sagnir, sem í nafnhætti enda á *ast*, höfðu í fyrstu persónu eintölu endinguna *umk:* eg *hræðumk* = ég hræðist.
4. Oft er neitun mynduð á þann hátt, að *at*, *t* eða *a* er skeytt aftan við sögn: *er-at* = er ekki; *varnaði-t* = varnaði ekki; *þorig-a* = ég þori ekki.

Til fyrirmyndar við stafsetningu þessarar útgáfu hef ég tekið *Þrjú Eddukvæði,* sem Sigurður Nordal gaf út, og *Tvær kviður fornar,* sem Jón Helgason gaf út. Þó er ekki um fulla samsvörun að ræða. Til að mynda skrifa þeir Sigurður og Jón ávallt endinguna *ur* í þessum útgáfum. En ég hef sleppt *u*-inu á stöku stað, þar sem mér finnst það raska svo lengd ljóðlínunnar, að meiði nútíma brageyra eins og í þessari línu í Hávamálum:

og versnar allur vinskapr.

Það er engin nýjung hér á landi að stafsetja þannig ljóð eftir eyranu, og má minna á þetta erindi úr Skíðarímu:

Ívar sitr þar innstr í höll
og Álfur kóngr inn sterki,
Hrólfur kraki og hirð hans öll
hraðr að snilldarverki.

Að lokum skal þess getið, að ég hef verið nokkru íhaldssamari á stafsetningu eiginnafna en annarra orða. Þannig skrifa ég *Slagfiður* og *Fjölsviður*, en ekki *Slagfinnur* og *Fjölsvinnur*, sem væri í betra samræmi við aðrar orðmyndir.



# Völuspá

1. Hljóðs bið eg allar
helgar kindir,
meiri og minni
mögu Heimdallar.
Viltu, að eg, Valföður,
vel fyr telja
forn spjöll fira,
þau er fremst um man.

2. Eg man jötna
ár um borna,
þá er forðum mig
fædda höfðu.
Níu man eg heima,
níu íviði
mjötvið mæran
fyr mold neðan.

3. Ár var alda,
það er ekki var,
var-a sandur né sær
né svalar unnir;

1. *helgar kindir:* hin heilaga ætt, goðin (kind: afkvæmi); *meiri og minni megir Heimdallar:* hinar ýmsu stéttir manna. Kenningin á rót sína að rekja til skoðunar, sem kemur fram í Rígsþulu; *viltu:* þú vilt; *Valföður:* Óðinn; *fyr telja:* segja frá (sbr. dönsku fortælle); *forn spjöll:* frásögur um forna viðburði; *firar:* menn; *fremst:* lengst aftur í tímann.

2. *ár um borna:* fædda í upphafi tilverunnar; *fæða:* ala upp; *níu man eg heima.* Hverjir þessir heimar eru, er alls óvíst (sbr. þó Vafþrúðnismál 43); *níu íviði* hefur ekki verið skýrt, svo að viðunandi sé. Í Hauksbók stendur *níu íviðjur* (íviðja: tröllkona); *mjötviður* (mjöt: merki): tré, sem setur heiminum mörk svo víð sem limar þess og rætur greinast, askur Yggdrasils (sjá 19. vísu). Völvan er svo gömul, að



jörð fannst æva
né upphiminn,
gap var ginnunga,
en gras hvergi, —

4. áður Burs synir
bjöðum um yppðu,
þeir er Miðgarð
mæran skópu;
sól skein sunnan
á salar steina,
þá var grund gróin
grænum lauki.

5. Sól varp sunnan,
sinni mána,
hendi inni hægri
um himinjöður;
sól það né vissi,
hvar hún sali átti,
stjörnur það né vissu,
hvar þær staði áttu,
máni það né vissi,
hvað hann megins átti.

6. Þá gengu regin öll
á rökstóla,
ginnheilög goð,
og um það gættust;
nótt og niðjum
nöfn um gáfu,
morgun hétu

hún man askinn, áður en hann var úr grasi vaxinn; *mær:* frægur, ágætur.

3. *Ár alda:* í upphafi tímans; 2. lína er hér tekin eftir Snorra-Eddu. Í Konungsbók og Hauksbók stendur hins vegar: *þar er Ymir byggði,* en það stingur algerlega í stúf við hugsun kvæðisins; *ekki:* ekkert; *æva:* (upphaflega né æva, ef. ft. af ævi): ekki, aldrei; *ginnungagap* (líklega): hið mikla gap, og er ginnunga til áherzlu.

4. *áður:* unz, þangað til; *Burs synir:* Óðinn og bræður hans; *bjöð:* lönd; *yppa:* lyfta; nafnið *Miðgarður* er ýmist notað um þann hluta jarðarinnar, sem byggður er mönnum, eða um mikinn varnargarð umhverfis hann; *salur:* jörð. Hér er verið að lýsa hinum ágæta gróðri gullaldarinnar, sbr. Þar gala gaukar, þar spretta laukar (Ísl. þjóðs. II bls. 308. Ný útgáfa 305).

5. Hér er verið að lýsa óeðlilegum sólargangi, en ekki er ljóst, hvernig skáldið hefur hugsað sér hann í einstökum atriðum. Þó virðist skáldið hafa talið, að sólin hafi verið á lofti allan sólarhringinn og gripið hinni hægri hendi (sólin hugsuð í konu líki) um jaðar (*jöður:* jaðar) himinsins á leið sinni úr suðri til að hvílast, en ekki fund-

og miðjan dag,
undorn og aftan,
árum að telja.

7. Hittust æsir
á Iðavelli,
þeir er hörg og hof
hátimbruðu;
afla lögðu,
auð smíðuðu,
tangir skópu
og tól gerðu.

8. Tefldu í túni,
teitir voru,
var þeim vettergis
vant úr gulli,
unz þrjár kómu
þursa meyjar
ámáttkar mjög
úr Jötunheimum.

---

9. Þá gengu regin öll
á rökstóla,
ginnheilög goð,
og um það gættust,
hver skyldi dverga
dróttir skepja
úr Brimis blóði
og úr Bláins leggjum.

ið neinn hvíldarstað (sali). Hún er kölluð *sinni mána* (förunautur tunglsins), og tunglið var alltaf fölt og sviplaust, vissi ekki, hvað það *megins* (afls) átti.

6. *regin:* goð; *rökstólar:* ráðstólar; *ginnheilagur:* mjög heilagur; *gætast:* ráðgast; *nótt og niðjum:* nótt og afkomendum hennar, þ. e. stundum dagsins; *undorn:* nón (kl. 3 síðdegis); *árum að telja:* til þess að telja tímann eftir í árum.

7. *Iðavöllur:* (líklega) iðgrænn völlur; *hörgur* var einhvers konar blótstaður (hér): blóthús; *hátimbra:* reisa hátt hús úr timbri; *afl:* smiðjuafl, eldstó; *auður:* gripir smíðaðir úr gulli.

8. *Tefldu,* hér mun átt við hið forna hneftafl; *tún* merkir upphaflega afgirt svæði. *Tún* var í Noregi einkanlega húsagarður (og bæjarhús). Þegar sagt er í 62. vísu, að töflurnar finnist í grasi, bendir það á íslenzku merkinguna; *teitur:* glaður; *vettergis* (ef. af vettki, ófn.): einskis. Um hinar *þrjár þursameyjar* er ekkert vitað, en helzt má ætla, að þær hafi verið lævísar jötnadætur, sendar ásum til tortímingar; *ámáttigur:* frekur, aðgangsharður.

9. *Brimir,* venjulega skýrt sem nafn á Ymi, af því





10. Þar var Mótsognir
mæztur um orðinn
dverga allra,
en Durinn annar;
þeir mannlíkun
mörg um gerðu
dvergar úr jörðu,
sem Durinn sagði.

11. Nýi og Niði,
Norðri og Suðri,
Austri og Vestri,
Alþjófur, Dvalinn,
Bívör, Bávör,
Bömbur, Nóri,
Án og Ánar,
Ái, Mjöðvitnir.

12. Veigur og Gandálfur,
Vindálfur, Þráinn,
Þekkur og Þorinn,
Þrár, Vitur og Litur,
Nár og Nýráður,
nú hefi eg dverga,
– Reginn og Ráðsviður, –
rétt um talda.

13. Fíli, Kíli,
Fundinn, Náli,
Hefti, Víli,
Hannar, Svíur,

sjórinn var gerður af blóði hans; *Bláinn:* (líklega) sævarheiti; *Bláins leggur:* steinn.
10.—16. Dvergatalið er af flestum fræðimönnum talið innskot í Völuspá, og verður engin tilraun gerð til að skýra það hér.

Frár, Hornbori,
Frægur og Lóni,
Aurvangur, Jari,
Eikinskjaldi.

14. Mál er dverga
í Dvalins liði
ljóna kindum
til Lofars telja,
þeir er sóttu
frá salar steini
Aurvanga sjöt
til Jöruvalla.

15. Þar var Draupnir
og Dólgþrasir,
Hár, Haugspori,
Hlévangur, Glói,
Skirvir, Virvir,
Skáfiður, Ái.

16. Álfur og Yngvi,
Eikinskjaldi,
Fjalar og Frosti,
Finnur og Ginnar;
það mun uppi,
meðan öld lifir,
langniðja tal
Lofars hafað.

---



17. Unz þrír kómu
úr því liði
öflgir og ástkir
æsir að húsi,
fundu á landi
lítt megandi
Ask og Emblu
örlöglausa.

18. Önd þau né áttu,
óð þau né höfðu,
lá né læti
né litu góða;
önd gaf Óðinn,
óð gaf Hænir,
lá gaf Lóður
og litu góða.

19. Ask veit eg standa,
heitir Yggdrasill,
hár baðmur, ausinn
hvíta auri;
þaðan koma döggvar,
þær er í dala falla,
stendur æ yfir grænn
Urðarbrunni.

20. Þaðan koma meyjar
margs vitandi
þrjár úr þeim sæ,
er und þolli stendur;
Urð hétu eina,

17. *unz* vísar til efnis glataðrar vísu (eða vísna); *þrír:* Óðinn, Hænir og Lóður (sjá næstu vísu); *úr því liði:* liði ásanna; *ástugur:* kærleiksríkur; *að húsi* er óvíst hvað merkir; *á landi:* rekin á land; *Askur* og *Embla* eru upphaflega tvö tré; *örlöglausa:* (kk. í stað hk.) dauð. Dauðir hlutir hafa engin örlög.

18. *önd:* lífsandi, andardráttur; *óður:* sál; *lá:* blóð eða lífshiti; *læti* (hk. flt.): rödd; *litir:* yfirbragð. Í Gylfaginningu 9 segir, að það hafi verið Burs synir (Óðinn og bræður hans), sem sköpuðu Ask og Emblu af trjám.

19. *Yggdrasill.* Nafnið merkir hestur Óðins, en er venjulega skýrt gálgi Óðins, vegna þess að hann hengdi sjálfan sig á limar asksins til þess að öðlast þekkingu (sjá Hávamál 138); *baðmur:* tré; *ausinn hvíta auri* úr fossi árinnar, sem nefnd er í 27. vísu; *Urðarbrunnur* var undir einni rót asksins, ef til vill upphaflega hinn sami og Mímisbrunnur.

20. *meyjar* þær, sem hér eru nefndar, eru örlaganornirnar; *sær* er hér Urðarbrunnur; *þollur:* tré (hér): askurinn; *skíði* er hér sennilega skorukefli: fjöl, sem ristar voru í skorur við talningu, ein

aðra Verðandi,
— skáru á skíði, —
Skuld ina þriðju.
Þær lög lögðu,
þær líf kuru
alda börnum,
örlög seggja.

21. Það man hún fólkvíg
fyrst í heimi,
er Gullveigu
geirum studdu
og í höll Hárs
hana brenndu,
þrisvar brenndu
þrisvar borna,
oft, ósjaldan;
þó hún enn lifir.

22. Heiði hana hétu,
hvar er til húsa kom,
völu velspáa,
vitti hún ganda;
seið hún, hvar er hún kunni,
seið hún hugleikin,
æ var hún angan
illrar brúðar.

23. Þá gengu regin öll
á rökstóla,
ginnheilög goð,
og um það gættust,

við hvern lið. Það hefur verið hlutverk nornanna að marka þannig aldur manna (sjá M. o. M. 1951 bls. 81 o. áfr.); *leggja:* ákvarða; *aldir;* menn; *örlög seggja* (manna) er viðurlag við lög.

21. *fólkvíg:* fólkorusta, stórorusta. Hér er sennilega ekki verið að tala um víg Gullveigar, heldur stórorustu, er af því leiddi, þ. e. Vanastríðið; *Gullveig:* persónugerving gullsins, máttur gullsins í konulíki (*veig:* kraftur); *geirum studdu:* lögðu svo mörgum spjótum úr öllum áttum, að hún gat ekki fallið, en var þó rekin í gegn; *Hár:* Óðinn.

22. *Heiður:* Gullveig afturgengin. Hún er kölluð völva og virðist vera komin frá vönum; *velspár:* spávís; *vitta:* magna; *gandur:* göngustafur notaður til galdra eða spásagna; *seið,* þt. af *síða:* fremja seið; *hugleikin:* frá sér numin, í leiðslu; *angan:* yndi, eftirlæti; *illrar brúðar:* illra kvenna almennt eða þursameyjanna þriggja (*brúður* er hér heildstætt).
23. *gjalda afráð:* verða fyrir tjóni, þola bótalaust þann skaða, sem Gullveig olli þeim; *eiga gildi:*







hvort skyldu æsir
afráð gjalda
eða skyldu goðin öll
gildi eiga.

24. Fleygði Óðinn
og í fólk um skaut,
það var enn fólkvíg
fyrst í heimi;
brotinn var borðveggur
borgar ása,
knáttu vanir vígspá
völlu sporna.

25. Þá gengu regin öll
á rökstóla,
ginnheilög goð,
og um það gættust,
hverjir hefði loft allt
lævi blandið
eða ætt jötuns
Óðs mey gefna.

26. Þór einn þar vó
þrunginn móði,
– hann sjaldan situr,
er hann slíkt um fregn.
Á gengust eiðar,
orð og særi,
mál öll meginleg,
er á meðal fóru.

heimta bætur (af vönum). Æsir tóku síðari kostinn og hófu styrjöld við vani.

24. *fleygði,* þ. e. fleygði spjóti yfir óvinaherinn til að helga sér hann (sbr. Fornmannasögur V, 250); *fólk:* her; *borðveggur:* skíðgarður; *vígspá* (tækisþágufall): með ófriðargaldri; *knáttu* (hjálparsögn) *sporna:* spornuðu, fóru yfir.
Nú er eyða í frásögn kvæðisins, og má fylla hana eftir Gylfaginningu, 42. kap. Jötunn, dulbúinn sem smiður, tekur að sér að reisa nýja borg fyrir æsi og skyldi fá Freyju, Sól og Mána að launum að ráði Loka. En er smiðurinn hafði lokið verki sínu og æsir vissu, að hann var bergrisi, drap Þór hann í tryggðum.
25. *læ:* svik; *blandið,* lh. þt. af blanda. Loftið er þrungið af svikum Loka; *Óðs mær* (hér eiginkona): Freyja.
26. *móður:* æsingur, reiði; *á gengust eiðar:* eiðar voru rofnir; *eiðar, orð, særi, mál meginleg* merkir allt hið sama og sýnir, hve mikla áherzlu skáldið hefur lagt á þetta atriði; *meginleg:* mikilvæg; *á meðal fóru:* höfðu farið milli smiðsins og goðanna.

27. Veit hún Heimdallar
hljóð um fólgið
undir heiðvönum
helgum baðmi;
á sér hún ausast
aurgum fossi
af veði Valföðurs.
Vituð ér enn — eða hvað?

28. Ein sat hún úti,
þá er inn aldni kom
yggjungur ása
og í augu leit:
Hvers fregnið mig?
Hví freistið mín?
Allt veit eg, Óðinn,
hvar þú auga falt,
í inum mæra
Mímisbrunni.
Drekkur mjöð Mímir
morgun hverjan
af veði Valföðurs.
Vituð ér enn — eða hvað?

29. Valdi henni Herföður
hringa og men,
fékk spjöll spakleg
og spá ganda,
sá hún vítt og um vítt
um veröld hverja.

27. *hún:* völvan, sem flytur kvæðið. Hún talar ýmist um sjálfa sig í 1. eða 3. persónu; *hljóð:* hlust, heyrn; *fólgið:* falið (hér): selt að veði; *heiðvanur helgur baðmur:* askur Yggdrasils, vanur hinu bláa heiði himinsins, vegna þess hann nær upp úr skýjunum; *á sér hún ausast aurgum fossi:* hún sér á falla (úr Mímisbrunni) og vatni hennar er ausið (á askinn) í aurugum fossi; *veð Valföðurs* er auga Óðins, er hann seldi Mími að veði fyrir vizku og liggur á botni brunnsins. Heimdallur virðist hafa látið hlust sína eða heyrn í sama skyni.

28. Í þessari vísu segir völvan frá því, er Óðinn vakti hana upp fyrir löngu. Þá sagði hún honum frá dauða Baldurs og hefndum eftir hann. *sitja úti,* menn tíðkuðu útisetur til að leita spásagna; *Yggjungur ása:* sá, sem ber ugg um örlög ása, Óðinn; *og í augu leit,* Óðinn nær valdi yfir völunni með því að vera fyrri til að horfa í augu henni; *mjöður* (hér): hið dýrmæta vatn úr Mímisbrunni.

29. *Herföður:* Óðinn; *men:* hálsmen; *spjöll spakleg:* spakleg fræði; *spá ganda:* spá, sem völvan öðlast fyrir töframátt stafa sinna. Hvort tveggja



30. Sá hún valkyrjur
vítt um komnar,
görvar að ríða
til Goðþjóðar;
Skuld hélt skildi,
en Skögul önnur,
Gunnur, Hildur, Göndul
og Geirskögul.
Nú eru taldar
nönnur Herjans,
görvar að ríða
grund valkyrjur.

31. Eg sá Baldri
blóðgum tívur,
Óðins barni,
örlög fólgin;
stóð um vaxinn
völlum hærri
mjór og mjög fagur
mistilteinn.

32. Varð af þeim meiði,
er mær sýndist,
harmflaug hættleg,
Höður nam skjóta.
Baldurs bróðir var
um borinn snemma,
sá nam Óðins sonur
einnættur vega.

þetta öðlast hún við útisetu.

30. *valkyrjur:* konur, sem Óðinn sendi um allan heim til að kjósa val; *gör:* tilbúinn; *Goðþjóð* (<Gotþjóð): Gotar, menn; *nönnur Herjans:* dísir Óðins, valkyrjur.

31. *blóðugur:* vopnbitinn; *tívur:* goð; *örlög fólgin:* sköpuð örlög; *völlum hærri* bendir til þess, að skáldið hafi vitað, að mistilteinn var sníkjujurt, sem óx á öðrum trjám, en ekki á jörðinni.

32. *mær:* mjór; *harmflaug:* skeyti, sem veldur harmi; *Baldurs bróðir:* Váli, sem Óðinn gat við Rindi til að hefna Baldurs.

33. Þó hann æva hendur
né höfuð kembdi,
áður á bál um bar
Baldurs andskota;
en Frigg um grét
í Fensölum
vá Valhallar.
Vituð ér enn — eða hvað?

34. Þá kná Váli
vígbönd snúa,
heldur voru harðger,
höft úr þörmum.

35. Haft sá hún liggja
undir Hveralundi,
lægjarns líki
Loka áþekkjan.
Þar situr Sigyn
þeygi um sínum
ver vel glýjuð.
Vituð ér enn — eða hvað?

36. Á fellur austan
um eiturdala
söxum og sverðum,
Slíður heitir sú.

37. Stóð fyr norðan
á Niðavöllum
salur úr gulli
Sindra ættar;

33. *þó* er þátíð af þvo; *Baldurs andskoti:* bani Baldurs: Höður; *Fensalir:* bústaður Friggjar; *vá:* hætta, voði; *vá Valhallar* er dauði Baldurs.

34. *Váli* er leiðrétting fyrir Vála; *kná* er hjálparsögn, *kná snúa:* snýr; *vígbönd:* drápsfjötur, fjötur, sem endist til dauða; *höft:* bönd, fjötrar; *úr þörmum.* Í Gylfaginningu 50 segir, að Loki væri bundinn með þörmum Nara eða Narfa, sonar síns.

35. *haftur:* bandingi; Hveralundur er staðurinn, þar sem Loki var bundinn. Líklegt er að *hver* sé hér í íslenzku merkingunni og hafi menn hugsað sér staðinn mjög óhugnanlegan, óblómlegan lund hjá vellandi brennisteinshverum; *áþekkjan líki lægjarns* (læviss) *Loka:* líkan Loka, þ. e. Loka sjálfan; *Sigyn* var kona Loka; *þeygi:* ekki; *ver:* eiginmaður; *glýjuð:* glöð.

36. *austan,* þ. e. úr Jötunheimum; *eiturdalir:* ískaldir dalir; *söxum og sverðum,* þessi á ber söx og sverð, eins og aðrar ár bera jaka; *Slíður* (hin ægilega) verður á vegi illra manna á ferð til helheima.

37. *Niðavellir:* hinir niðdimmu vellir; *salur Sindra ættar:* salur dverga (*Sindri* er dvergsheiti);





en annar stóð
á Ókólni
bjórsalur jötuns,
en sá Brimir heitir.

*Ókólnir:* land, þar sem aldrei kólnar; *Brimir* er nafn jötunsins, sem á salinn.

38. Sal sá hún standa
sólu fjarri
Náströndu á,
norður horfa dyr.
Féllu eiturdropar
inn um ljóra,
sá er undinn salur
orma hryggjum.

38. *Náströnd* er einhvers staðar í helheimi; *horfa:* snúa; *eiturdropar* getur þýtt hvort sem er: dropar af eitri eða ískaldir dropar; *undinn:* ofinn, fléttaður. Gert mun ráð fyrir, að ormarnir séu lifandi.

39. Sá hún þar vaða
þunga strauma
menn meinsvara
og morðvarga
og þann er annars glepur
eyrarúnu.
Þar saug Niðhöggur
nái framgengna,
sleit vargur vera.
Vituð ér enn — eða hvað?

39. *meinsvari* (lo.): sá, sem sver rangan eið; *eyrarúna:* sú, sem talar launmál í eyra manns, unnusta, eiginkona; *Niðhöggur:* hinn dimmi dreki frá Niðafjöllum (sbr. 67. vísu); *vargur* (hér): Niðhöggur; *ver:* maður.

40. Austur sat in aldna
í Járnviði
og fæddi þar
Fenris kindir.
Verður af þeim öllum
einna nokkur

40. *in aldna,* þ. e. tröllkona; *járnviður:* frumskógur, myrkviður; *Fenris* (Fenrisúlfs) *kindir:* úlfar; *einna nokkur:* einn sérstakur; *tjúgari:* sá, sem rífur til sín og grandar.

tungls tjúgari
í trölls hami.

41. Fyllist fjörvi
feigra manna,
rýður ragna sjöt
rauðum dreyra.
Svört verða sólskin
um sumur eftir,
veður öll válynd.
Vituð ér enn — eða hvað?

42. Sat þar á haugi
og sló hörpu
gýgjar hirðir,
glaður Eggþér;
gól um honum
í galgviði
fagurrauður hani,
sá er Fjalar heitir.

43. Gól um ásum
Gullinkambi,
sá vekur hölda
að Herjaföðurs;
en annar gelur
fyr jörð neðan
sótrauður hani
að sölum Heljar.

44. Geyr Garmur mjög
fyr Gnipahelli,

41. *fjör:* líkami eða blóð; *feigur:* dauður; *rýður ragna sjöt* (bústaði goðanna, himininn) *rauðum dreyra* (blóði): úlfurinn spýr blóðinu, svo að loftið verður dreyrrautt; *svört verða sólskin.* Þessi orð þykja benda til þess, að skáldið hafi þekkt eldgos og öskufall. Í vísunni er lýst fyrirboða ragnaraka; *válynd:* hættuleg.

42. Um *Eggþé* er ekkert frekar vitað né um hanana í þessari vísu og hinni næstu, en eðlilegt er, að smali sitji á haugi. Gýgurin (tröllkonan) er ef til vill hin sama og in aldna, er situr í járnviði. Hirðir hennar er sennilega jötunn; *galgviður* er sennilega blótlundur, þar sem menn voru hengdir í greinunum eða *gaglviður:* gnæfandi tré.

43. *Gullinkambi* er haninn í Valhöll; *höldar:* menn (hér einherjar); *Herjaföður:* Óðinn.

44. Hér er lokið frásögn völunnar um fortíðina. Í þessari vísu er lýst nútíðinni, en í næstu vísu hefst spáin. *geyja:* gelta; *Garmur* er talinn æðstur hunda í Grímnismálum 44, og í Gylfaginningu 51 er hundurinn Garmur látinn berjast við Tý í ragnarökum. En líklegt þykir,



festur mun slitna,
en freki renna.
Fjöld veit hún fræða,
fram sé eg lengra
um ragnarök
römm sigtíva.

45. Bræður munu berjast
og að bönum verðast,
munu systrungar
sifjum spilla;
hart er í heimi,
hórdómur mikill,
skeggöld, skálmöld,
skildir eru klofnir,
vindöld, vargöld,
áður veröld steypist,
mun engi maður
öðrum þyrma.

46. Leika Míms synir,
en mjötuður kyndist
að inu galla
Gjallarhorni.
Hátt blæs Heimdallur,
horn er á lofti,
mælir Óðinn
við Míms höfuð.

47. Skelfur Yggdrasils
askur standandi,

að upphaflega sé Garmur aðeins annað nafn á Fenrisúlfi; *festur:* festi eða fjötur, sem úlfurinn var bundinn með; *freki:* úlfur (hér): Fenrisúlfur; *renna:* hlaupa; *ragna rök:* örlög goða, oft notað um heimsendi; *sigtívar:* hergoð, hin sigursælu goð.

45. *bani:* banamaður; *systrungar:* systrasynir; *sifjum spilla:* spilla frændsemi eða tengdum með fjandskap; *skeggöld* = skeggjöld (af *skeggja:* öx): vígöld; *skálmöld* (af *skálm:* sverð): ófriðaröld; *vargöld:* úlfaöld. Þegar þjóðfélagið er í upplausn, æða úlfar yfir byggðir manna.

46. Fyrri hluti vísunnar er mjög torskýrður. *Míms synir* eru ókunnir; *mjötuður:* örlagadómur, tortíming; *kyndast,* ef til vill sama og kynnast: vera kynntur; *gallur:* hvellur; *Gjallarhorn:* blásturshorn Heimdallar; *Míms höfuð,* sjá einkum Gylfaginningu 15 og Ynglinga sögu 4.

47. *ymja:* stynja; *jötunn,* líklega er átt við Loka. Hann losnar í landskjálfta

ymur ið aldna tré,
en jötunn losnar.
Hræðast allir
á helvegum,
áður Surtar þann
sefi um gleypir.

48. Hvað er með ásum?
Hvað er með álfum?
Gnýr allur Jötunheimur,
æsir eru á þingi,
stynja dvergar
fyr steindurum,
veggbergs vísir.
Vituð ér enn — eða hvað?

49. Geyr nú Garmur mjög
fyr Gnipahelli,
festur mun slitna,
en freki renna,
fjöld veit hún fræða,
fram sé eg lengra
um ragnarök
römm sigtíva.

50. Hrymur ekur austan,
hefist lind fyrir,
snýst Jörmungandur
í jötunmóði.
Ormur knýr unnir,
en ari hlakkar,

þeim, sem hér er lýst; *á helvegum:* í ríki Heljar; *Surtar sefi* (frændi): eldur; *þann:* askinn.

48. *veggbergs vísir:* kunnugir í klettabeltum.

50. *Hrymur:* (sem er hrumur af elli): jötunn; *hefist lind fyrir:* hefur skjöld fyrir sér; *lind:* skjöldur úr lindiviði; *Jörmungandur* (hinn mikli stafur): Miðgarðsormur; *knýja:* lemja; *ari:* örn; *Niðfölur* (sennilega): Niðhöggur; *Nagl-*



slítur nái Niðfölr,
Naglfar losnar.

51. Kjóll fer austan,
koma munu Múspells
um lög lýðir,
en Loki stýrir.
Fara fíflmegir
með freka allir,
þeim er bróðir
Býleists í för.

52. Surtur fer sunnan
með sviga lævi,
skín af sverði
sól valtíva.
Grjótbjörg gnata,
en gífur rata,
troða halir helveg,
en himinn klofnar.

53. Þá kemur Hlínar
harmur annar fram,
er Óðinn fer
við úlf vega,
en bani Belja
bjartur að Surti;
þá mun Friggjar
falla angan.

54. Geyr nú Garmur mjög
fyr Gnipahelli,

*far:* skip, sem gert var af óskornum nöglum dauðra manna.

51. *kjóll:* skip (hér Naglfar); *múspell* kemur fyrir í þýzkum kvæðum og merkir heimsendi, en talið er, að norrænir menn hafi skilið orðið þannig, að *Múspell* væri jötunn, er ylli heimsslitum; *um lög:* yfir sæ; *fíflmegir:* jötnar; *freki:* úlfur (hér Fenrisúlfur); *bróðir Býleists* er venjulega talið að merki Loka; *Býleistur:* sem fer yfir byggðir.

52. *Surtur:* eldjötunn, aðalandstæðingur goðanna í ragnarökum; *sviga* (viðar) *læ* (grand): eldur; *sól skín af sverði valtíva* (ása): sverð goðanna skín eins og sól. Þetta mun vera sverð Freys, er hann lét af hendi til að fá Gerðar (sbr. Skírnismál), en hefur svo komizt í hendur jötna; *gnata:* rekast á; *gífur:* tröll; *hrata:* hrasa; *troða halir helveg:* menn farast.

53. *Hlín:* Frigg. Hinn fyrri harmur hennar er dauði Baldurs; *bani Belja:* Freyr. Snorri segir, að hann hafi drepið Belja jötun með hjartarhorni, af því hann var sverðlaus, eftir að hann fékk Gerðar; *Friggjar angan* (yndi): Óðinn.

festur mun slitna,
en freki renna.

55. Þá kemur inn mikli
mögur Sigföður,
Víðar, vega
að valdýri.
Lætur hann megi Hveðrungs
mundum standa
hjör til hjarta,
þá er hefnt föður.

55. *mögur* (sonur) *Sigföður* (Óðins): Víðar; *valdýr:* hrædýr: Fenrisúlfur; *mögur Hveðrungs* (Loka): úlfurinn; *mundum:* með höndum. Víðar tvíhendir sverðið; *hjör:* sverð.

56. Gín loft yfir
lindi jarðar.
Gapa ýgs kjaftar
orms í hæðum.
Mun Óðins son
eitri mæta
vargs að dauða
Víðars niðja.

56. Þessi vísa, sem Jón Helgason hefur nýlega lesið fyrstur manna, stendur í Hauksbók í stað síðustu vísu, sem er í Konungsbók; *gína:* gapa; *lindi* (belti) *jarðar:* Miðgarðsormur; *ýgur:* ægilegur; *Óðins sonur:* Þór; *eitri* er leiðrétting fyrir ormi; *vargs* (hér): Miðgarðsorms; *Víðars niðjar* (ættingjar): goðin.

57. Þá kemur inn mæri
mögur Hlóðynjar,
gengur Óðins sonur
við orm vega,
drepur hann af móði
Miðgarðs véur,
— munu halir allir
heimstöð ryðja; —
gengur fet níu
Fjörgynjar bur

57. *mögur Hlóðynjar* (Jarðar): Þór; *orm* er leiðrétting fyrir úlf; *drepa:* slá; *Miðgarðs véur* (verndari): Þór; *heimstöð ryðja:* tæma hinn byggða heim; *Fjörgynjar* (Jarðar) *bur* (sonur): Þór; *neppur* (sbr. fjörneppur): að þrotum kominn, feigur; *naður:* ormur; *níðs ókvíðinn* er leiðrétting fyrir *níðs ókvíðnum,* sem getur tæplega átt við orminn.





neppur frá naðri
níðs ókvíðinn.

58. Sól tér sortna,
sígur fold í mar,
hverfa af himni
heiðar stjörnur.
Geisar eimi
við aldurnara,
leikur hár hiti
við himin sjálfan.

58. *tér* (hjálparsögn) *sortna:* sortnar; *mar:* sjór; *eimi:* eldur; *aldurnari:* (*nari*, skylt næra): eldur eða askur Yggdrasils; *hiti:* eldur.

59. Geyr nú Garmur mjög
fyr Gnipahelli,
festur mun slitna,
en freki renna.

60. Sér hún upp koma
öðru sinni
jörð úr ægi
iðjagræna.
Falla fossar,
flýgur örn yfir,
sá er á fjalli
fiska veiðir.

60. *öðru sinni,* sbr. 4. vísu; *ægir:* sjór.

61. Finnast æsir
á Iðavelli
og um moldþinur
máttkan dæma
og minnast þar
á megindóma

61. *moldþinur:* Miðgarðsormur, sem gyrðir jörðina eins og þinur (þinull: strengur í neti); *dæma:* tala; *megindómar:* höfuðviðburðir; *Fimbultýr:* Óðinn.

og á Fimbultýs
fornar rúnar.

62. Þar munu eftir
undursamlegar
gullnar töflur
í grasi finnast,
þær er í árdaga
áttar höfðu.

63. Munu ósánir
akrar vaxa,
böls mun alls batna,
Baldur mun koma.
Búa þeir Höður og Baldur
Hrofts sigtóftir,
vel valtívar.
Vituð ér enn — eða hvað?

64. Þá kná Hænir
hlautvið kjósa
og burir byggja
bræðra tveggja
vindheim víðan.
Vituð ér enn — eða hvað?

65. Sal sér hún standa
sólu fegra,
gulli þaktan
á Gimlé.
Þar skulu dyggvar
dróttir byggja

62. *eftir:* aftur; *gullnar töflur,* sbr. 8. vísu; *tafla:* hlutur, sem teflt var með; *í árdaga:* í upphafi tímans; *áttar höfðu,* frumlagið æsir er undirskilið.
63. *böls mun alls batna:* nú mun bætt verða fyrir allt, sem þolað hefur verið að ósekju, og ekkert böl verða framar til í heiminum; *Hrofts* (Óðins) *sigtóftir* (bardagatóftir): tóttir Valhallar; *valtívar:* hergoð. Í pappírshandriti frá 17. öld er þessi lína: *vé valtíva* (hina helgu bústaði goðanna) og kemur það betur heim við efni kvæðisins.
64. *kná* (hjálparsögn) *kjósa:* kýs; *hlaut:* fórnarblóð notað til spásagna; *hlautviður:* blótspónn; *kjósa hlautvið:* fella blótspón. Það var ævaforn siður, að menn leituðu sér frétta um örlög sín með því að strá merktum trébútum (blótspónum) á hvíta voð. Síðan tók sá, er blótið framdi, upp einhverja þrjá spæni og réð fréttina af merkjum þeim, sem á þá voru skorin. (Sjá Tacitus: Germania 10); *bur:* sonur; *bræðra tveggja,* þ. e. Baldurs og Haðar; *vindheimur:* himinn.
65. *salur:* höll; *Gimlé* merkir eldhlé. Þetta land var svo hátt uppi á himni, að Surtarlogi náði ekki að granda því; *dyggur:* trúr, góður; *dróttir:*



og um aldurdaga
yndis njóta.

66. Þá kemur inn ríki
að regindómi
öflugur ofan,
sá er öllu ræður.

67. Þar kemur inn dimmi
dreki fljúgandi,
naður fránn, neðan
frá Niðafjöllum;
ber sér í fjöðrum,
— flýgur völl yfir, —
Niðhöggur nái.
Nú mun hún sökkvast.

menn; *um aldurdaga:* ævinlega.
66. *inn ríki* er einhver máttugur guð, sem skáldið hugsar sér, að verði æðstráðandi í hinum nýja heimi; *regindómur* er myndað af orðinu *regin* (goð) á sama hátt og konungdómur. Þessi vísa er aðeins í Hauksbók.
67. Nú er spánni lokið, og völvan bendir Óðni á, að nú sé Niðhöggur að koma, en það er fyrirboði ragnaraka. *Inn dimmi dreki* (vængjaður ormur) og *naður* (ormur) *fránn* (gljáandi) á hvorttveggja við Niðhögg; *Niðafjöll:* dimm fjöll, líklega í undirheimum; *í fjöðrum:* í vængjum; *hún,* þ. e. völvan, sem hefur lokið spá sinni.

## I. *Gestaþáttur*

1. Gáttir allar,
áður gangi fram,
um skoðast skyli,
um skyggnast skyli,
því að óvíst er að vita,
hvar óvinir
sitja á fleti fyrir.

1. *skoðast skyli — skyggnast skyli — um allar gáttir, áður gangi fram:* litast skal um í öllum dyrum, áður en inn er gengið; *flet:* bekkur (meðfram vegg).

2. Gefendur heilir.
Gestur er inn kominn,
hvar skal sitja sjá?
Mjög er bráður,
sá er á bröndum skal
síns um freista frama.

2. *gefendur:* veitendur, húsráðendur; *sjá* (áfn.): þessi; *bráður:* bráðlátur; *á bröndum.* Upphaflega eru *brandar* eldiviðarhlaði hjá arninum, en fær síðan merkinguna: svæðið fyrir framan arininn. Bæði í Noregi og á Íslandi er til orðtækið: að sitja á bröndum, og þótti það heldur óvirðulegt; *freista frama:* reyna hve mikill sómi honum sé sýndur, hvar honum verði vísað til sætis.

3. Elds er þörf,
þeim er inn er kominn
og á kné kalinn;
matar og voða
er manni þörf,
þeim er hefir um fjall farið.

4. Vatns er þörf,
þeim er til verðar kemur,



þerru og þjóðlaðar,
góðs um æðis,
ef sér geta mætti,
orðs og endurþögu.

4. *verður:* máltíð; *þerra:* þurrka; *þjóðlöð:* alúðlegar viðtökur; *æði:* hugarfar; *vera þörf góðs æðis, orðs og endurþögu:* þarfnast hlýs viðmóts, að við hann sé rætt og þagað, þegar hann talar; *endurþaga:* mótþögn, hljóð.

5. Vits er þörf,
þeim er víða ratar;
dælt er heima hvað.
Að augabragði verður,
sá er ekki kann
og með snotrum situr.

5. *rata:* ferðast; *dælt:* auðvelt; *hvað:* sérhvað, allt; *að verða að augabragði:* verða fyrir háðslegu augnaráði, verða að háði og spotti; *ekki* (ófn.): ekkert; *snotur:* vitur.

6. Að hyggjandi sinni
skyli-t maður hræsinn vera,
heldur gætinn að geði.
Þá er horskur og þögull
kemur heimisgarða til,
sjaldan verður víti vörum,
því að óbrigðra vin
fær maður aldregi
en manvit mikið.

6. *hyggjandi:* vit; *hræsinn:* raupsamur; *horskur:* vitur; *heimisgarður:* bær, heimili; *víti:* vítaverð skyssa; *óbrigður:* traustur, öruggur.

7. Inn vari gestur,
er til verðar kemur,
þunnu hljóði þegir,
eyrum hlýðir,
en augum skoðar;
svo nýsist fróðra hver fyrir.

7. *þegja þunnu hljóði:* þegja og hlusta gaumgæfilega (sbr. þunnt er móðureyrað); *nýsast fyrir:* njósna, aðgæta umhverfi sitt.

8. Hinn er sæll,
er sér um getur

8. *geta:* fá, ná; *líknstafir:* samúð, gott umtal; *ódæll:* erfiður; *eiga annars

lof og líknstafi.
Ódælla er við það,
er maður eiga skal
annars brjóstum í.

*brjóstum í:* eiga undir öðrum.

9. Sá er sæll,
er sjálfur um á
lof og vit, meðan lifir;
því að ill ráð
hefir maður oft þegið
annars brjóstum úr.

10. Byrði betri
ber-at maður brautu að
en sé manvit mikið.
Auði betra
þykir það í ókunnum stað;
slíkt er volaðs vera.

10. *brautu að* (eftir): á vegum úti (hér): á lífsleiðinni; *volaðs vera:* athvarf hins volaða.

11. Byrði betri
ber-at maður brautu að
en sé manvit mikið;
vegnest verra
vegur-a hann velli að
en sé ofdrykkja öls.

11. *vega velli að* er hér sömu merkingar og bera brautu að (*vega:* bera).

12. Er-a svo gott
sem gott kveða
öl alda sonum,
því að færra veit
er fleira drekkur,
síns til geðs gumi.

12. *kveða:* segja, telja; *alda synir:* menn; *því — gumi:* því að maður hefur því síður stjórn á skapi sínu, því meira sem hann drekkur.



13. Óminnishegri heitir
sá er yfir öldrum þrumir;
hann stelur geði guma.
Þess fugls fjöðrum
eg fjötraður vark
í garði Gunnlaðar.

13. *óminnishegri:* gleymsku fugl; *öldur:* öldrykkja; *þruma:* híma. Skáldið líkir gleymskunni við fugl, sem svipti menn stjórn á skapi sínu; *að vera fjötraður fjöðrum þess fugls:* að gleyma sér; *garður Gunnlaðar:* Hnitbjörg, heimkynni Gunnlaðar, sem geymdi skáldamjöðinn (sjá Skáldskaparmál 5—6).

14. Ölur eg varð,
varð ofurölvi
að ins fróða Fjalars.
Því er öldur bezt,
að aftur um heimtir
hver sitt geð gumi.

14. *Fjalar* virðist vera faðir Gunnlaðar, en hann er nefndur Suttungur í 3. kvæði Hávamála; *því er öldur bezt:* það er skást við öldrykkju; *heimta aftur geð sitt:* verða aftur alls gáður.

15. Þagalt og hugalt
skyli þjóðans barn
og vígdjarft vera;
glaður og reifur
skyli gumna hver,
unz sinn bíður bana.

15. *þagall:* þögull; *hugall:* athugull, íhugull; *þjóðann:* konungur; *gumna* er ef. ft. af *gumi:* maður.

16. Ósnjallur maður
hyggst munu ey lifa,
ef hann við víg varast;
en elli gefur
honum engi frið,
þótt honum geirar gefi.

16. *ósnjallur:* óvitur, heimskur (eða ragur); *ey:* alltaf; *geir:* spjót.

17. Kópir afglapi,
er til kynnis kemur,
þylst hann um eða þrumir.

17. *kópa:* glápa; *kynni:* heimsókn hjá kunningjum; *þyljast um:* masa í sífellu; *þruma:* sitja kyrr

Allt er senn,
ef hann sylg um getur,
uppi er þá geð guma.

18. Sá einn veit,
er víða ratar
og hefir fjöld um farið,
hverju geði
stýrir gumna hver,
sá er vitandi er vits.

19. Haldi-t maður á keri,
drekki þó að hófi mjöð,
mæli þarft eða þegi;
ókynnis þess
vár þig engi maður,
að þú gangir snemma að sofa.

20. Gráðugur halur,
nema geðs viti,
etur sér aldurtrega;
oft fær hlægis,
er með horskum kemur,
manni heimskum magi.

21. Hjarðir það vitu,
nær þær heim skulu,
og ganga þá af grasi;
en ósvinnur maður
kann ævagi
síns um mál maga.

og þögull; *senn:* jafnskjótt; *sylgur:* drykkur; *uppi er þá geð guma* merkir sennilega: þá lætur hann allt uppi, sem honum býr í brjósti. Sumir vilja þó taka *uppi* í merkingunni þrotið, búið.
18. *hefir fjöld um farið:* hefur farið víða; *hverju geði stýrir:* hvernig skapi er farinn; *vitandi er vits:* er með fullu viti.
19. *haldit maður á keri:* maður á að láta kerið ganga áfram, þegar hann hefur bergt á miðinum. Drykkjarkerin voru látin ganga hringinn í sveitadrykkjum. En til voru einnig einmennings- og tvímenningsdrykkjur; *mjöður:* áfengur hunangsdrykkur; *ókynni:* ókurteisi; *váa e-n e-s:* lá e-m e-ð.
20. *vita geðs:* gæta skynseminnar, halda matgræðgi sinni í skefjum; *aldurtregi:* dauði; *oft — magi:* heimskur maður verður sér oft til athlægis vegna matgræðgi sinnar, er hann kemur meðal viturra manna.

21. *ósvinnur:* óvitur, heimskur; *ævagi:* aldrei.



22. Vesall maður
og illa skapi
hlær að hvívetna.
Hittki hann veit,
er hann vita þyrfti,
að hann er-a vamma vanr.

23. Ósvinnur maður
vakir um allar nætur
og hyggur að hvívetna;
þá er móður,
er að morgni kemur,
allt er víl sem var.

24. Ósnotur maður
hyggur sér alla vera
viðhlæjendur vini.
Hittki hann finnur,
þótt þeir um hann fár lesi,
ef hann með snotrum situr.

25. Ósnotur maður
hyggur sér alla vera
viðhlæjendur vini;
þá það finnur,
er að þingi kemur,
að hann á formælendur fáa.

26. Ósnotur maður
þykist allt vita,
ef hann á sér í vá veru.
Hittki hann veit,

22. *hvívetna,* þgf. af hvaðvetna: allt; *er-a vamma vanur:* er ekki án lasta (vammlaus).

23. *allt er víl sem var:* öll mæða er sem áður.

24. *viðhlæjandi:* sá, sem brosir móti e-m; *fár:* hatur, reiði, *lesa fár:* tala illa um.

25. *að þingi:* á mannamót.

26. *eiga sér veru í vá:* eiga sér athvarf, þegar hætta steðjar að; *kveða við:* svara; *freista:* reyna kunnáttu e-s; *firar:* menn.

hvað hann skal við kveða,
ef hans freista firar.

27. Ósnotur maður,
er með aldir kemur,
það er bezt, að hann þegi.
Engi það veit,
að hann ekki kann,
nema hann mæli til margt;
veit-a maður,
hinn er vætki veit,
þótt hann mæli til margt.

27. *öld:* menn, fólk; *ekki* (ófn.): ekkert; *til:* of; *vætki:* ekkert.

28. Fróður sá þykist,
er fregna kann
og segja ið sama.
Eyvitu leyna
megu ýta synir,
því er gengur um guma.

28. *fregna:* spyrja; *eyvitu* þgf. af *eyvit:* ekkert; *ýtar:* menn; *því er gengur um guma:* því, sem mælt er um menn.

29. Ærna mælir,
sá er æva þegir,
staðlausu stafi;
hraðmælt tunga,
nema haldendur eigi,
oft sér ógott um gelur.

29. *ærinn:* mikill; *æva:* aldrei; *staðlausa:* staðleysa, markleysa; *staðlausu stafir:* marklaus orð; *hraðmælt tunga:* málugur maður (hluti látinn tákna heild); *haldendur:* þeir, sem gæta tungu sinnar; *gala:* tala, *gala sér ógott:* baka sér tjón með tali sínu.

30. Að augabragði
skal-a maður annan hafa,
þótt til kynnis komi;
margur þá fróður þykist,

30. *hafa að augabragði:* gera gys að; *þurrfjallur:* með þurra húð, í þurrum fötum.



ef hann freginn er-at
og nái hann þurrfjallur þruma.

31. Fróður þykist,
sá er flótta tekur,
gestur að gest hæðinn;
veit-a görla,
sá er um verði glissir,
þótt hann með grömum glami.

31. *gestur hæðinn að gest, sá er tekur flótta, þykist fróður:* gestur, sem hefur hæðzt að öðrum gesti og flýr hann, þykist fróður (því að hann veit ekki nema hinn hafi reiðzt og geti orðið hættulegur); *glissa:* hlæja hæðnislega; *gramur:* reiður, fjandsamlegur; *glama:* glamra, gaspra.

32. Gumnar margir
erust gagnhollir,
en að virði vrekast,
aldar róg
það mun æ vera,
órir gestur við gest.

32. *erust:* eru hvor öðrum; *gagnhollir:* hollir hvor öðrum (eða mjög hollir); *virði,* þgf. af *verður:* máltíð; *vrekast:* deila hver við annan; *aldar róg:* fjandskapur meðal manna; *óra:* deila.

33. Árliga verðar
skyli maður oft fá,
nema til kynnis komi:
situr og snópir,
lætur sem sólginn sé,
og kann fregna að fáu.

33. *nema til kynnis komi:* nema hann fari í heimsókn til kunningja (þá á hann að borða seint og vera mettur, þegar hann fer að heiman); *snópa:* mæna sníkjulega, snapa.

34. Afhvarf mikið
er til ills vinar,
þótt á brautu búi,
en til góðs vinar
liggja gagnvegir,
þótt hann sé firr farinn.

34. *afhvarf:* krókur, lykkja á leið; *gagnvegur:* beinasta leið; *firr,* miðstig af fjarri; *þótt hann sé firr farinn:* þótt hann búi lengra í burtu.

35. Ganga skal,
skal-a gestur vera
ey í einum stað;
ljúfur verður leiður,
ef lengi situr
annars fletjum á.

36. Bú er betra,
þótt lítið sé,
halur er heima hver;
þótt tvær geitur eigi
og taugreftan sal,
það er þó betra en bæn.

36. *halur:* (oftast) maður (hér): sinn eigin herra; *taugreftur:* reftur með taugum, tágum (í stað viðar); *bæn:* bónbjörg, betl.

37. Bú er betra,
þótt lítið sé,
halur er heima hver;
blóðugt er hjarta,
þeim er biðja skal
sér í mál hvert matar.

37. *blóðugt er hjarta:* e-m svíður sárt.

38. Vopnum sínum
skal-a maður velli á
feti ganga framar,
því að óvíst er að vita,
nær verður á vegum úti
geirs um þörf guma.

39. Fannk-a eg mildan mann
eða svo matar góðan,
að ei væri þiggja þegið,
eða síns fjár
svogi [glöggvan],
að leið sé laun, ef þægi.

39. *mildur:* gjafmildur, örlátur; *matargóður:* örlátur á mat; *að ei væri þiggja þegið:* að hann ætlaðist ekki til launa fyrir gjafir; *svogi:* ekki svo; *glöggur:* nízkur; *svogi glöggvan:* svo ónízkan; *að leið séu laun ef þægi:* að honum þyki leiðinlegt að þiggja laun, ef hann fengi þau.



40. Fjár síns,
er fengið hefir,
skyli-t maður þörf þola;
oft sparir leiðum,
það er hefir ljúfum hugað,
margt gengur verr en varir.

40. *þola þörf fjár síns:* spara svo við sig fé, að það sé bagalegt; *hugað,* lh. þt. af *hyggja:* ætla; *vara:* gruna, búast við.

41. Vopnum og voðum
skulu vinir gleðjast,
það er á sjálfum sýnst.
Viðurgefendur og endurgefendur
erust lengst vinir,
ef það bíður að verða vel.

41. *gleðjast:* gleðja hvor annan; *það er á sjálfum sýnst:* það sést bezt á þeim sjálfum (og minnir á vináttuna); *viðurgefendur og endurgefendur:* þeir, sem gefa á móti; *erust:* eru hvor öðrum; *ef það bíður að verða vel:* ef vinátta verður úr á annað borð.

42. Vin sínum
skal maður vinur vera
og gjalda gjöf við gjöf.
Hlátur við hlátri
skyli höldar taka,
en lausung við lygi.

42. *höldar:* menn; *taka* (hér): gjalda; *lausung:* fals, óhreinskilni.

43. Vin sínum
skal maður vinur vera,
þeim og þess vin;
en óvinar síns
skyli engi maður
vinar vinur vera.

43. *en óvinar — vera:* enginn maður ætti að vera vinur manns, sem er vinur óvinar hans.

44. Veiztu, ef þú vin átt,
þann er þú vel trúir,
og vilt þú af honum gott geta,
geði skaltu við þann blanda
og gjöfum skipta,
fara að finna oft.

45. Ef þú átt annan,
þann er þú illa trúir,
viltu af honum þó gott geta,
fagurt skaltu við þann mæla,
en flátt hyggja
og gjalda lausung við lygi.

46. Það er enn um þann,
er þú illa trúir
og þér er grunur að hans geði,
hlæja skaltu við þeim
og um hug mæla;
glík skulu gjöld gjöfum.

47. Ungur var eg forðum,
fór eg einn saman,
þá varð eg villur vega;
auðigur þóttumk,
er eg annan fann,
maður er manns gaman.

48. Mildir, fræknir
menn bezt lifa,
sjaldan sút ala;
en ósnjallur maður

44. *veiztu* (hér): vita skaltu; *blanda geði við e-n:* hafa að trúnaðarmanni.

46. *glíkur:* líkur.

48. *sút ala:* vera áhyggjufullur og kvíðinn; *ugga:* óttast, kvíða; *sýtir — gjöfum:* nízkur maður óttast gjafir (vegna þess



uggir hotvetna,
sýtir æ glöggur við gjöfum.

49. Voðir mínar
gaf eg velli að
tveim trémönnum;
rekkar það þóttust,
er þeir rift höfðu;
neiss er nökkvinn halur.

50. Hrörnar þöll,
sú er stendur þorpi á,
hlýr-at henni börkur né barr.
Svo er maður,
sá er manngi ann.
Hvað skal hann lengi lifa?

51. Eldi heitari
brennur með illum vinum
friður fimm daga,
en þá slokknar,
er inn sétti kemur,
og versnar allur vinskapr.

52. Mikið eitt
skal-a manni gefa;
oft kaupir sér í litlu lof;
með hálfum hleif
og með höllu keri
fékk eg mér félaga.

að hann verður að endurgjalda þær).

49. *trémaður:* mannslíkan úr tré. Um þessa tvo trémenn hefur margt verið ritað og bent á hliðstæður við þessa frásögn Hávamála í fornaldarsögum og ævintýrum. Fæstir skýrendur hafa viljað fallast á tilgátu Bugges, að þessir tveir trémenn séu Askur og Embla (sjá Völuspá 17—18). En því er ekki að neita, að með þeirri skýringu kemur fram skemmtileg andhverfa við frásögn Biblíunnar um Adam og Evu (sjá 1. Mósebók 3. kap. 10.—11. vers); *rekkur:* maður (hér): mikill maður; *rift:* klæðnaður, föt; *neiss:* blygðunarfullur, feiminn; *nökkvinn:* nakinn.

50. *þöll:* fura; *þorp:* bersvæði, grýtt hæð; *hlýr-at:* hlúir ekki, skýlir ekki; *manngi:* enginn maður; *hvað:* til hvers.

51. *friður* (hér): vinátta.

52. *hleifur:* brauðhleifur; *hallt ker:* ker, sem verður að halla, til þess að úr því fáist sopi, ekki fullt ker.

53. Lítilla sanda
lítilla sæva
lítil eru geð guma;
því allir menn
urðu-t jafnspakir;
hálf er öld hvar.

53. Á fyrri hluta þessarar vísu hafa komið fram margar skýringar, og skal aðeins tveggja getið:
a. *lítil eru geð guma, lítilla sanda, lítilla sæva:* það eru litlir sandar og litlar öldur í mannssálunum, það er smástreymt í þeim.
b. *lítilla sanda lítilla sæva lítil eru geð guma:* á litlum söndum lítilla fjarða eru menn smáir og kotungslegir í hugsunarhætti; *hálfur:* ófullkominn; *hvar:* alls staðar.

54. Meðalsnotur
skyli manna hver,
æva til snotur sé.
Þeim er fyrða
fegurst að lifa
er vel margt vitu.

54. *meðalsnotur:* meðalvitur; *manna hver:* sérhver maður; *æva:* aldrei; *til:* of; *fyrðar:* menn; *vel margt:* hæfilega margt.

55. Meðalsnotur
skyli manna hver,
æva til snotur sé;
því að snoturs manns hjarta
verður sjaldan glatt,
ef sá er alsnotur, er á.

55. *alsnotur:* mjög vitur.

56. Meðalsnotur
skyli manna hver,
æva til snotur sé.
Örlög sín
viti engi fyrir,
þeim er sorgalausastr sefi.

56. *sorgalaus:* áhyggjulaus; *sefi:* hugur.

57. Brandur af brandi
brenn, unz brunninn er,
funi kveikist af funa;
maður af manni
verður að máli kunnur,
en til dælskur af dul.

57. *brandur:* eldibrandur, viður til eldsneytis; *kunnur:* kunnugur eða vitur; *en til dælskur af dul:* en of heimskur af ómannblendni.



58. Ár skal rísa,
er annars vill
fé eða fjör hafa.
Sjaldan liggjandi úlfur
lær um getur
né sofandi maður sigur.

58. *fjör:* líf; *lær:* læri, (hér): bráð; *geta:* fá.

59. Ár skal rísa,
sá er á yrkjendur fáa,
og ganga síns verka á vit.
Margt um dvelur,
þann er um morgun sefur.
Hálfur er auður und hvötum.

59. *yrkjendur:* vinnumenn; *verki:* verk, starf; *ganga á vit:* vitja; *hálfur — hvötum:* hálfur auðurinn er undir því kominn að vera hvatur (röskur).

60. Þurra skíða
og þakinna næfra,
þess kann maður mjöt,
og þess viðar,
er vinnast megi
mál og misseri.

60. *skíð:* viður; *þakinna næfra:* næfra til að þekja með; *næfur:* viðarbörkur; *mjöt:* rétt mál; *kunna mjöt e-s:* kunna hið rétta mál e-s, vita hve mikið þarf af e-u; *vinnast:* endast; *mál:* ársfjórðungur.

61. Þveginn og mettur
ríði maður þingi að,
þótt hann sé-t væddur til vel.
Skúa og bróka
skammist engi maður
né hests in heldur,
þótt hann hafi-t góðan.

61. *at þingi:* á mannamót; *væddur:* klæddur.

62. Snapir og gnapir,
er til sævar kemur,
örn á aldinn mar;
svo er maður,
er með mörgum kemur
og á formælendur fáa.

63. Fregna og segja
skal fróðra hver,
sá er vill heitinn horskur.
Einn vita
né annar skal,
þjóð veit, ef þrír eru.

64. Ríki sitt
skyli ráðsnotra hver
í hófi hafa.
Þá hann það finnur,
er með fræknum kemur,
að engi er einna hvatastr.

65. Orða þeirra,
er maður öðrum segir,
oft hann gjöld um getur.

66. Mikilsti snemma
kom eg í marga staði,
en til síð í suma.
Öl var drukkið,
sumt var ólagað;
sjaldan hittir leiður í lið.

62. *snapa:* mæna eftir mat, snuðra; *gnapa:* teygja fram höfuðið; *aldinn:* gamall; *mar:* sjór.

63. *fregna:* spyrja; *heitinn:* talinn; *né:* ekki.

64. *ríki:* vald, veldi; *hafa ríki sitt í hófi:* fara hófsamlega með vald sitt; *ráðsnotur:* ráðsnjall, hygginn; *engi er einna hvatastr:* enginn er öllum öðrum fremri að hvatleik.

65. *geta gjöld e-s:* gjalda fyrir eitthvað.

66. *mikilsti* (<mikils til): allt of; *að hitta í lið* er venjulega skýrt: að koma, þegar bezt stendur á. *Liður* merkir þá liðamót, og er líking orðtaksins tekin af manni, sem er að höggva bráð. Aðrir telja, að síðasta orð vísunnar sé *líð:* öl. Að þeirri skýringu hefur helzt verið fundið, að þrjú þung atkvæði megi ekki standa í sömu ljóðlínu.



67. Hér og hvar
myndi mér heim um boðið,
ef þyrftag að málungi mat,
eða tvö lær hengi
að ins tryggva vinar,
þar er eg hafða eitt etið.

68. Eldur er beztur
með ýta sonum
og sólar sýn,
heilyndi sitt,
ef maður hafa náir,
án við löst að lifa.

69. Er-at maður alls vesall,
þótt hann sé illa heill.
Sumur er af sonum sæll,
sumur af frændum,
sumur af fé ærnu,
sumur af verkum vel.

70. Betra er lifðum
en sé ólifðum,
ey getur kvikur kú.
Eld sá eg upp brenna
auðgum manni fyrir,
en úti var dauður fyr durum.

71. Haltur ríður hrossi,
hjörð rekur handar vanur,
daufur vegur og dugir.
Blindur er betri

67. *ef þyrfta-g að málungi (málum-gi) mat:* ef ég þyrfti ekki mat á málum; *inn tryggi vinur* (sagt í háði): gestgjafinn.

68. *ýtar:* menn; *heilyndi:* heilsa, heilbrigði.

69. *alls vesall:* að öllu leyti aumur.

70. *lifðum:* lifandi; *ey:* alltaf; *kvikur:* lifandi; *eld — durum* er venjulega skýrt eitthvað á þessa leið: ég sá eld brenna í heimkynnum auðugs manns, en hann var dauður úti fyrir dyrum. En hugsanlegt er líka, að *dauður* sé nafnorð í merkingunni: dauði (sjá M. O. V bls. 34—36).

71. *daufur vegur og dugir:* heyrnarlaus berst og dugir til þess; *nýtur*

en brenndur sé,
nýtur manngi nás.

72. Sonur er betri,
þótt sé síð um alinn
eftir genginn guma;
Sjaldan bautarsteinar
standa brautu nær,
nema reisi niður að nið.

73. Tveir eru eins herjar,
tunga er höfuðs bani;
er mér í héðin hvern
handar væni.

74. Nótt verður feginn,
sá er nesti trúir,
skammar eru skips rár;
hverf er haustgríma;
fjöld um viðrir
á fimm dögum,
en meira á mánuði.

75. Veit-a hinn,
er vætki veit,
margur verður af aurum api.
Maður er auðigur,
annar óauðigur,
skyli-t þann vítka vár.

76. Deyr fé,
deyja frændur,

*manngi nás:* enginn hefur gagn af dauðum manni.

72. *síð — guma:* fæddur seint, eftir dauða föður sins; *bautarsteinn:* upphár minnisvarði yfir látinn mann; *niður:* ættingi, afkomandi; *niður að nið:* sonur eftir föður.

73. *eins herjar:* í sama her; *héðinn:* loðfeldur; *er mér — væni:* ég á von á fjandsamlegri hendi undir hverjum kufli.

74. Samhengi línanna er óljóst. *hverfur:* hverfull, breytilegur; *haustgríma:* haustnótt; *fjöld um viðrir:* það eru breytileg veður.

75. *vætki:* ekkert; *skilit þann vítka vár:* eigi skyldi lasta þann (fátæka) fyrir þann galla.

76. *deyr sjálfur ið sama:* ég dey sjálfur sömuleiðis;



deyr sjálfur ið sama;
en orðstír
deyr aldregi,
hveim er sér góðan getur.

77. Deyr fé,
deyja frændur,
deyr sjálfur ið sama.
Eg veit einn,
að aldrei deyr:
dómur um dauðan hvern.

---

78. Fullar grindur
sá eg fyr Fitjungs sonum,
nú bera þeir vonar völ;
svo er auður
sem augabragð,
hann er valtastur vina.

79. Ósnotur maður,
ef eignast getur,
fé eða fljóðs munuð,
metnaður honum þróast,
en manvit aldregi,
fram gengur hann drjúgt í dul.

80. Það er þá reynt,
er þú að rúnum spyr
inum reginkunnum,
þeim er gerðu ginnregin

*hveim* (þgf. af hver): sérhverjum.

77. *dómur* (þeirra, sem eftir lifa): álit.

78. *grindur:* kvíar; *Fitjungs synir* hafa verið auðugir fjárbændur, fyrst þeir eiga fullar grindur fjár; *vonarvölur:* betlistafur.

79. *fljóðs munúð:* konu ást; *dul:* sjálfsblekking.

80. *reginkunnur:* kominn frá goðunum; *ginnregin:* hin voldugu goð; *fáa:* mála; *fimbulþulur:* hinn mikli spekingur: Óðinn

og fáði fimbulþulur,
þá hefir hann bezt, ef hann þegir.

(um orðið *þulur*, sjá nánar 111. vísu).

81. Að kveldi skal dag leyfa,
konu, er brennd er,
mæki, er reyndur er,
mey, er gefin er,
ís, er yfir kemur,
öl, er drukkið er.

81. *leyfa:* lofa, hrósa; *brennd*, hér er átt við líkbrennslu; *mækir:* sverð; *gefin:* gift.

82. Í vindi skal við höggva,
veðri á sjó róa,
myrkri við man spjalla;
mörg eru dags augu.
Á skip skal skriðar orka,
en á skjöld til hlífar,
mæki höggs,
en mey til kossa.

82. *veður:* byr; *man:* mær; *á skip skal skriðar orka:* knýja skal skip til skriðar.

83. Við eld skal öl drekka,
en á ísi skríða,
magran mar kaupa,
en mæki saurgan,
heima hest feita,
en hund á búi.

83. *við eld:* við arineld eða langelda á kvöldin; *skríða:* renna á skíðum eða ísleggjum (skautum); *magran mar kaupa*, af því hann er ódýrari, *mar:* hestur; *saurgur:* ryðugur; *feita:* fita; *á búi:* á útibúi (andstætt heimabúi).

II. *Fyrra dæmi Óðins.*

84. Meyjar orðum
skyli manngi trúa
né því, er kveður kona,
því að á hverfanda hveli

84. *á hverfanda hveli:* á hjóli, sem snýst; þess vegna eru þær svo hverflyndar; *brigð:* hverflyndi, sviksemi; *lagin* (lh. þt. af leggja): lögð.



voru þeim hjörtu sköpuð,
brigð í brjóst um lagin.

85. Brestanda boga,
brennanda loga,
gínanda úlfi,
galandi kráku,
rýtanda svíni,
rótlausum viði,
vaxanda vogi,
vellanda katli,

85.—89. vísa eru upptalning á því, sem varhugavert er að treysta.
85. *vogur:* alda.

86. fljúganda fleini,
fallandi báru,
ísi einnættum,
ormi hringlegnum,
brúðar beðmálum
eða brotnu sverði,
bjarnar leiki
eða barni konungs,

86. *fleinn:* spjót; *hringleginn ormur:* ormur, sem hringar sig; *bjarnar leikur:* listir taminna bjarndýra; en björninn getur verið fljótur að reiðast.

87. sjúkum kálfi,
sjálfráða þræli,
völu vilmæli,
val nýfelldum,

87. *völu* er ef. af *völva:* spákona.

88. Akri ársánum
trúi engi maður
né til snemma syni,
— veður ræður akri,
en vit syni;
hætt er þeirra hvort —

89. bróðurbana sínum,
þótt á brautu mæti,
húsi hálfbrunnu,
hesti alskjótum;
— þá er jór ónýtur,
ef einn fótur brotnar —,
verði-t maður svo tryggur
að þessu trúi öllu.

89. *jór:* hestur.

90. Svo er friður kvenna,
þeirra er flátt hyggja,
sem aki jó óbryddum
á ísi hálum,
teitum, tvevetrum
og sé tamur illa,
eða í byr óðum
beiti stjórnlausu,
eða skyli haltur henda
hrein í þáfjalli.

90. *friður:* ást; *óbryddur:* án ísbrodda; *teitur:* kátur, fjörugur; *beita stjórnlausu:* snúa stýrislausu skipi upp í vindinn; *henda:* handsama, ná; *hreinn:* hreindýr; *þáfjall:* fjall, sem snjór er farinn að þiðna í.

91. Bert eg nú mæli,
því að eg bæði veit,
brigður er karla hugur konum;
þá vér fegurst mælum,
er vér flást hyggjum,
það tælir horska hugi.

91. *brigður:* svikull.

92. Fagurt skal mæla
og fé bjóða,
sá er vill fljóðs ást fá,
líki leyfa

92. *fría:* biðja og elska.





ins ljósa mans,
sá fær, er fríar.

93. Ástar firna
skyli engi maður
annan aldregi.
Oft fá á horskan,
er á heimskan né fá,
lostfagrir litir.

93. *ástar firna:* ámæla fyrir ást; *lostfagrir litir:* útlit svo fagurt, að það vekur losta.

94. Eyvitar firna
er maður annan skal,
þess er um margan gengur guma.
Heimska úr horskum
gerir hölda sonu
sá inn máttki munur.

94. (sjá 28. vísu) *er um margan gengur guma:* sem kemur fyrir margan mann; *hölda synir:* menn; *munur:* ást.

95. Hugur einn það veit,
er býr hjarta nær,
einn er hann sér um sefa;
öng er sótt verri
hveim snotrum manni
en sér engu að una.

95. *einn er hann sér um sefa:* einn er maðurinn með hug sinn; *öng:* engin; *en sér engu að una:* en una sér ekki við neitt.

96. Það eg þá reynda,
er eg í reyri sat
og vættag míns munar.
Hold og hjarta
var mér in horska mær;
þeygi eg hana að heldur hefig.

96. *í reyri:* í reyrrunni: reyri vöxnum stað; *og vættag míns munar:* og beið eftir þeirri, sem ég unni; *hold — mær:* mærin var mér svo kær sem mitt eigið hold og hjarta; *þeygi:* þó eigi.

97. Billings mey
eg fann beðjum á
sólhvíta sofa;
jarls yndi
þótti mér ekki vera
nema við það lík að lifa.

97. *Billings mær:* dóttir Billings; *beður:* hvíla; *jarl:* (hér) höfðingi, Óðinn á við sjálfan sig; *lík:* líkami.

98. „Auk nær aftni
skaltu, Óðinn, koma,
ef þú vilt þér mæla man;
allt eru ósköp,
nema einir viti
slíkan löst saman."

98. *ef þú vilt þér mæla man:* ef þú vilt festa þér konu; *ósköp:* sem stríðir gegn örlögum, óhæfa; *einir:* hér er karlkyn haft í stað hvorugkyns; *löstur* merkir venjulega afbrot eða yfirsjón, en er hér haft um mök karls og konu.

99. Aftur eg hvarf
og unna þóttumk
vísum vilja frá;
hitt eg hugða,
að eg hafa mynda
geð hennar allt og gaman.

99. *unna vísum vilja frá:* elska svo, að liggur við æði.

100. Svo kom eg næst,
að in nýta var
vígdrótt öll um vakin,
með brennandum ljósum
og bornum viði,
svo var mér vílstígr um vitaðr.

100. *vígdrótt:* hermenn, (sem Billings mær hafði tilbúna til að ráðast á Óðin); *með brennandum — vitaðr.* Óljóst er, hvernig þetta er hugsað, en hér skal aðeins nefnd skýring Magnúsar Olsens. Hann bendir á, að áður fyrr var björninn mjög áleitinn sums staðar í Noregi, og var þá á hverjum bæ ávallt tilbúinn þurr viður, sem kveikt var í til að reka hann burt, en Óðinn hefur ekki verið velkomnari en björninn á heimili Billings meyjar (M. O. V bls. 37—40); *vílstígur:* erfið, hættuleg leið; *vitaður:* ákveðinn.

101. Og nær morgni,
er eg var enn um kominn,
þá var saldrótt um sofin;



grey eitt eg þá fann
innar góðu konu
bundið beðjum á.

101. *saldrótt:* heimafólk; *grey:* tík.

102. Mörg er góð mær,
ef görva kannar,
hugbrigð við hali;
þá eg það reynda,
er ið ráðspaka
teygða eg á flærðir fljóð.
Háðungar hverrar
leitaði mér ið horska man,
og hafða eg þess vætki vífs.

102. *görva:* alveg, fullkomlega; *teygja á flærðir:* lokka til fláttskapar; *hafða — vífs:* hafði ekkert af konunni.

III. *Síðara dæmi Óðins.*

103. Heima glaður gumi
og við gesti reifur,
svinnur skal um sig vera,
minnugur og málugur,
ef hann vill margfróður vera,
oft skal góðs geta,
fimbulfambi heitir
sá er fátt kann segja,
það er ósnoturs aðal.

103. *svinnur um sig:* vitur að því er snertir hann sjálfan; *málugur:* ræðinn; *fimbulfambi:* erkiheimskingi; *aðal:* eðli, einkenni.

104. Inn aldna jötun eg sótta,
nú em eg aftur um kominn;
fátt gat eg þegjandi þar.
Mörgum orðum
mælta eg í minn frama
í Suttungs sölum.

104. *Inn aldni jötunn* er Suttungur; *í minn frama:* mér til gagns.

105. Gunnlöð mér um gaf
gullnum stóli á
drykk ins dýra mjaðar.
Ill iðgjöld
lét eg hana eftir hafa
síns ins heila hugar,
síns ins svára sefa.

106. Rata munn
létumk rúms um fá
og um grjót gnaga.
Yfir og undir
stóðumk jötna vegir,
svo hætta eg höfði til.

107. Vel keypts hlutar
hefi eg vel notið,
fás er fróðum vant,
því að Óðrerir
er nú upp kominn
á alda vé jaðars.

108. Efi er mér á,
að eg væra enn kominn
jötna görðum úr,
ef eg Gunnlaðar né nytag,
innar góðu konu,
þeirrar er lögðumk arm yfir.

109. Ins hindra dags
gengu hrímþursar

105. *iðgjöld:* laun, endurgjald; *svár:* þungur, erfiður, áhyggjufullur.

106. *Rati* var nafar Óðins; *gnaga:* naga (hér) bora; *jötna vegir:* klettar (þar sem jötnar búa).

107. *vel keypts hlutar* (leiðrétting fyrir *litar*), þ. e. skáldamjaðarins; *Óðrerir* var ketill, sem skáldamjöðurinn var geymdur í; *á vé alda jaðars:* til bústaðar mannanna konungs (Óðins), til Valhallar eða Ásgarðs.



Háva ráðs að fregna
Háva höllu í.
Að Bölverki þeir spurðu,
ef hann væri með böndum
kominn
eða hefði honum Suttungr
um sóið.

110. Baugeið Óðinn,
hygg eg, að unnið hafi;
hvað skal hans tryggðum trúa?
Suttung svikinn
hann lét sumbli frá
og grætta Gunnlöðu.

IV. *Loddfáfnismál.*

111. Mál er að þylja
þular stóli á
Urðarbrunni að.
Sá eg og þagðag,
sá eg og hugðag,
hlýdda eg á manna mál.
Um rúnar heyrða eg dæma,
né um ráðum þögðu
Háva höllu að,
Háva höllu í
heyrða eg segja svo:

112. Ráðumk þér, Loddfáfnir,
að þú ráð nemir, —
njóta muntu, ef þú nemur,
þér munu góð, ef þú getur —:

109. *ins hindra dags:* daginn eftir; *Háva ráðs að fregna:* að spyrja um hag Óðins; *Bölverkur,* svo nefndi Óðinn sig í þessari ferð; *með böndum:* til goðanna; *sóa* (oftast): fórna, blóta (hér sennilega): drepa.

110. *baugeiður:* eiður með höndina á helgum hring; *Suttung — frá:* með svikum náði hann drykknum (skáldamiðinum) frá Suttungi.

111. *þylja:* mæla fram; *þularstóli á.* Orðið *þulur* kemur fyrir sem virðingarheiti, á dönskum rúnasteini, sem talinn er frá því um 800. Einnig eru *þulir* nefndir í íslenzkum fornbókmenntum. Nokkur hula er yfir hlutverki þularins í forneskju, en hann hefur óefað verið spekingur, fræðimaður eða skáld, er flutti mönnum mál sitt úr til þess gerðu sæti, er nefnt var *þularstóll; Urðarbrunni að.* Nokkur vafi er á, hvort þetta vísuorð á að fylgja línunum á undan eða eftir. Um *Urðarbrunn* sjá Völuspá 19; *Háva höll:* höll Óðins: Valhöll.

112. *Loddfáfnir* er hvergi nefndur nema í IV. hluta

nótt þú rís-at
nema á njósn sér
eða þú leitir þér innan út staðar.

Hávamála, sem í pappírshandritum er nefndur Loddfáfnismál. Nafn kvæðisins er dregið af því, að heilræðunum, sem flutt eru í kvæðinu, er beint til Loddfáfnis; *leitir — staðar:* gangir erinda þinna.

113. Ráðumk þér, Loddfáfnir,
að þú ráð nemir, –
njóta muntu, ef þú nemur,
þér munu góð, ef þú getur —:
fjölkunnigri konu
skal-at-tu í faðmi sofa,
svo að hún lyki þig liðum.

113. *lykja liðum:* vefja örmum.

114. Hún svo gerir,
að þú gáir eigi
þings né þjóðans máls;
mat þú vilt-at
né mannskis gaman,
fer þú sorgafullr að sofa.

115. Ráðumk þér, Loddfáfnir,
að þú ráð nemir, –
njóta muntu, ef þú nemur,
þér munu góð, ef þú getur —:
annars konu
teygðu þér aldregi
eyrarúnu að.

115. *eyrarúna:* trúnaðarvinkona, unnusta.

116. Ráðumk þér, Loddfáfnir,
en þú ráð nemir, –
njóta muntu, ef þú nemur,
þér munu góð, ef þú getur —:
á fjalli eða firði,

116. *tíða:* fýsa; *fástu að virði vel:* birgðu þig vel upp með mat.



ef þig fara tíðir,
fástu að virði vel.

117. Ráðumk þér, Loddfáfnir,
en þú ráð nemir, –
njóta muntu, ef þú nemur,
þér munu góð, ef þú getur —:
illan mann
láttu aldregi
óhöpp að þér vita,
því að af illum manni
fær þú aldregi
gjöld ins góða hugar.

118. Ofarla bíta
eg sá einum hal
orð illrar konu.
Fláráð tunga
varð honum að fjörlagi
og þeygi um sanna sök.

118. *fjörlag:* dauði.

119. Ráðumk þér, Loddfáfnir,
en þú ráð nemir, –
njóta muntu, ef þú nemur,
þér munu góð, ef þú getur —:
veiztu ef þú vin átt,
þann er þú vel trúir,
farðu að finna oft,
því að hrísi vex
og hávu grasi
vegur, er vætki treður.

119. *veiztu* (bh.): vittu.

120. Ráðumk þér, Loddfáfnir,
en þú ráð nemir, –
njóta muntu, ef þú nemur,
þér munu góð, ef þú getur –:
góðan mann
teygðu þér að gamanrúnum
og nem líknargaldur, meðan
þú lifir.

120. *gamanrúnir:* skemmtilegar viðræður; *líknargaldur:* galdur til hjálpar öðrum.

121. Ráðumk þér, Loddfáfnir,
en þú ráð nemir, –
njóta muntu, ef þú nemur,
þér munu góð, ef þú getur –:
vin þínum
ver þú aldregi
fyrri að flaumslitum;
sorg etur hjarta,
ef þú segja né náir
einhverjum allan hug.

121. *flaumslit* (af flaumur: gleði): vináttuslit.

122. Ráðumk þér, Loddfáfnir,
en þú ráð nemir, –
njóta muntu, ef þú nemur,
þér munu góð, ef þú getur –:
orðum skipta
þú skalt aldregi
við ósvinna apa,

122. *ósvinnur api:* óvitur heimskingi.

123. því að af illum manni
muntu aldregi
góðs laun um geta,

123. *líknfastur:* þokkasæll.



en góður maður
mun þig gera mega
líknfastan að lofi.

124. Sifjum er þá blandað,
hver er segja ræður
einum allan hug;
allt er betra
en sé brigðum að vera;
er-a sá vinur öðrum, er vilt
eitt segir.

124. *sifjar* merkir oftast mágsemd eða frændsemi, en virðist hér vera haft um náin andleg tengsl; *en sé brigðum að vera:* en að vera svikull; *segja vilt:* tala vilmæli.

125. Ráðumk þér, Loddfáfnir,
en þú ráð nemir, –
njóta muntu, ef þú nemur,
þér munu góð, ef þú getur –:
þremur orðum senna
skal-at-tu þér við verra mann;
oft inn betri bilar,
þá er inn verri vegur.

125. *bila:* láta undan; *vega:* berjast.

126. Ráðumk þér, Loddfáfnir,
en þú ráð nemir, –
njóta muntu, ef þú nemur,
þér munu góð, ef þú getur –:
skósmiður þú verir
né skeftismiður,
nema þú sjálfum þér sér;
skór er skapaður illa
eða skaft sé rangt,
þá er þér böls beðið.

127. Ráðumk þér, Loddfáfnir,
en þú ráð nemir, –
njóta muntu, ef þú nemur,
þér munu góð, ef þú getur —:
hvar er þú böl kannt,
kveð þú þér bölvi að
og gef-at þínum fjándum frið.

127. *hvar — bölvi að:* hvar, sem þú veizt af böli (mótgerð), hefndu þess sem það sé þitt eigið böl.

128. Ráðumk þér, Loddfáfnir,
en þú ráð nemir, –
njóta muntu, ef þú nemur,
þér munu góð, ef þú getur —:
illu feginn
ver þú aldregi,
en lát þér að góðu getið.

128. *lát þér að góðu getið:* lát þér líka vel hið góða.

129. Ráðumk þér, Loddfáfnir,
en þú ráð nemir, –
njóta muntu, ef þú nemur,
þér munu góð, ef þú getur —:
upp líta
skal-at-tu í orustu,
– gjalti glíkir
verða gumna synir, –
síður þitt um heilli halir.

129. *upp líta skal-at-tu í orustu, síður þitt að heilli halir:* líttu ekki upp í orustu, svo að þú verðir ekki fyrir göldrum manna (þitt = þig). Hér er greinilega ráð til að forðast illt augnaráð óvinanna; *verða gjalti glíkir:* verða að gjalti, verða óðir (gjalt er dregið af írsku orði geilt = óður). Orðasambandið *að verða að gjalti* er einnig notað í Vatnsdæla sögu (16. kap.) um menn, sem verða fyrir illu augnaráði.

130. Ráðumk þér, Loddfáfnir,
en þú ráð nemir, –
njóta muntu, ef þú nemur,
þér munu góð, ef þú getur —:
ef þú vilt þér góða konu
kveðja að gamanrúnum



og fá fögnuð af,
fögru skaltu heita
og láta fast vera;
leiðist manngi gott, ef getur.

131. Ráðumk þér, Loddfáfnir,
en þú ráð nemir, –
njóta muntu, ef þú nemur,
þér munu góð, ef þú getur —:
varan bið eg þig vera
og eigi of varan.
Ver þú við öl varastur
og við annars konu
og við það ið þriðja,
að þjófar né leiki.

131. *að þjófar né leiki:* að þjófar leiki ekki lausum hala.

132. Ráðumk þér, Loddfáfnir,
en þú ráð nemir, –
njóta muntu, ef þú nemur,
þér munu góð, ef þú getur —:
að háði né hlátri
hafðu aldregi
gest né ganganda.

132. *gangandi:* förumaður.

133. Oft vitu ógerla,
þeir er sitja inni fyrir,
hvers þeir eru kyns, er koma;
er-at maður svo góður,
að galli né fylgi,
né svo illur, að einugi dugi.

133. *einugi* (einu-gi): engu, *duga einugi:* verða engu að liði.

134. Ráðumk þér, Loddfáfnir,
en þú ráð nemir, –
njóta muntu, ef þú nemur,
þér munu góð, ef þú getur –:
að hárum þul
hlæ þú aldregi,
oft er gott, það er gamlir kveða;
oft úr skörpum belg
skilin orð koma,
þeim er hangir með hám
og skollir með skrám
og váfir með vílmögum.

135. Ráðumk þér, Loddfáfnir,
en þú ráð nemir, –
njóta muntu, ef þú nemur,
þér munu góð, ef þú getur –:
gest þú né geyja
né á grind hrekir;
get þú voluðum vel.

136. Rammt er það tré,
er ríða skal
öllum að uppoki;
baug þú gef,
eða það biðja mun
þér læs hvers á liðu.

137. Ráðumk þér, Loddfáfnir,
en þú ráð nemir, –

134. *hár:* gráhærður; *skarpur:* skorpinn; *skilinn:* skilmerkilegur, skynsamlegur; *há:* húð; *skolla:* hanga, dingla; *skrá:* skinnpjatla; *váfa:* dingla; *með vílmögum* er eðlilegast að hugsa sér að sé dregið af orðinu *vílmögur:* erfiðismaður, þræll, þar sem það orð er kunnugt, þótt samband orðanna sé ekki sem bezt. Hins vegar hefur komið fram sú tilgáta, að til hafi verið orðið *vilmagi:* belgur, sem hleypir er geymdur í.

135. *geyja* merkir venjulega að gelta, en hér sennilega að hæðast að eða hrakyrða; *hrekja á grind:* reka á dyr eða út fyrir hlið.

136. Merking þessarar vísu er óljós. *rammt:* sterkt; *tré* er hér sennilega slagbrandur fyrir dyrum; *ríða* (líklega): sveiflast, lyftast; *öllum;* hér er talið, að átt sé við beiningafólk; *baugur:* hringur (ef til vill aðeins brot úr hring eða önnur lítil gjöf); *það* vísar til *öllum,* og er þá átt við beiningafólk, ef sú skýring er rétt; *biðja — liðu:* mun biðja þér allra meina á limi þína.

137. Þessi vísa lýsir þjóðtrúarlækningum, og er margt í henni óljóst (sjá Reichbon — Kjennerud: Lægeraadene i den ældre



njóta muntu, ef þú nemur,
þér munu góð, ef þú getur –:
hvar er þú öl drekkir,
kjós þú þér jarðar megin,
því að jörð tekur við öldri,
en eldur við sóttum,
eik við abbindi,
ax við fjölkynngi,
höll við hýrógi,
– heiftum skal mána kveðja, –
beiti við bitsóttum,
en við bölvi rúnar,
fold skal við flóði taka.

Edda, M. o. M. 1923). Hér skal aðeins gerð tilraun til að skýra einstök orð, en að öðru leyti vísað til áðurnefndrar ritgerðar. *jarðarmegin:* sá kraftur, sem býr í jörðinni, sbr. einnig 7. og 15. línu; *abbindi:* harðlífi; *höll:* yllitré; *hýróg:* ósamkomulag á heimili; *heiftum skal mána kveðja:* heita skal á mánann gegn reiði annarra; *beitir:* ánamaðkur, (sem hafður er í beitu?); *böl:* einhvers konar sjúkdómur, ef til vill af völdum galdra (sbr. Egils sögu 76. kap.).

## V. *Rúnatal.*

Fjórar fyrstu vísur þessa kvæðis, sem segja frá sjálfsfórn Óðins, mynda sjálfstæða heild innan Hávamála. Um þær hefur margt verið rætt og ritað. Sophus Bugge (Studier over de nordiske Gude- og Heltesagns Oprindelse) hélt því fram, að þessi sögn væri eftirlíking frásagnarinnar um Krist á krossinum í heiðnum búningi. Nú telja fræðimenn yfirleitt óþarft að grípa til þeirrar skýringar, þar eð flest í henni sé skýranlegt út frá heiðninni sjálfri. Nánasta hliðstæða við sjálfsfórn Óðins er frásögn Gautreks sögu (7. kap.) um dauða Víkars konungs, sem hengdur var á tré í kálfsþörmum og stunginn reyrspjóti og gefinn Óðni. Einnig hefur verið bent á líkingu við ungmennavígslur, sem tíðkazt hafa með mörgum þjóðum. Einkum voru það töframenn og aðrir er þurftu á sérstökum hæfileikum að halda, sem urðu að leggja á sig harðar píslir, áður en þeim opinberaðist hinn mikli leyndardómur. Einn liðurinn í þessari vígslu var stundum sýndardauði þess, er vígður var. Hinn óreyndi æskumaður var látinn sýnast deyja, en í stað hans átti að rísa upp fullþroskaður maður, sem hafði þekkingu og vald á mörgum leyndum hlutum. Það er að minnsta kosti víst, að þessi sögn táknar ekki dauða Óðins, heldur upphaf að hinni miklu vizku hans.

138. Veit eg, að eg hékk
vindga meiði á
nætur allar níu,
geiri undaður
og gefinn Óðni,
sjálfur sjálfum mér, –
á þeim meiði,
er manngi veit,
hvers hann af rótum renn.

138. *vindga meiður:* tré, sem vindur leikur um, askur Yggdrasils (sjá Völuspá 19); *geiri undaður:* særður spjóti. Geirinn Gungnir var vopn Óðins, og með spjótkasti helguðu menn Óðni óvinalið sitt (sjá Völuspá 24).

139. Við hleifi mig sældu
né við hornigi;
nýsta eg niður,
nam eg upp rúnar,
æpandi nam,
féll eg aftur þaðan.

139. *sæla:* hressa; *né - gi:* né heldur; *horn:* drykkjarhorn (hér): drykkur; *nýsta eg niður:* ég rannsakaði niður fyrir mig, skyggndist um fyrir neðan mig; *nam eg upp rúnar:* ég tók rúnir upp.

140. Fimbulljóð níu
nam eg af inum frægja syni
Bölþorns, Bestlu föður,
og eg drykk um gat
ins dýra mjaðar,
ausinn Óðreri.

140. *fimbulljóð:* máttug ljóð; *inn frægi sonur Bölþorns Bestlu föður* hefur verið móðurbróðir Óðins, því að móðir Óðins var Bestla, dóttir Bölþorns jötuns. Gizkað hefur verið á, að þessi sonur Bölþorns sé Mímir, því að Óðinn hlaut mikla vizku af honum, en faðerni Mímis er hvergi nefnt; *inn dýri mjöður, ausinn Óðreri* er skáldamjöðurinn (sjá 107. vísu).

141. Þá nam eg frævast
og fróður vera
og vaxa og vel hafast,
orð mér af orði
orðs leitaði,
verk mér af verki
verks leitaði.

141. *frævast:* þroskast; *vel hafast:* dafna.



142. Rúnar munt þú finna
og ráðna stafi,
mjög stóra stafi,
mjög stinna stafi,
er fáði fimbulþulur
og gerðu ginnregin
og reist Hroftur rögna,

142. *ráðna stafi:* rúnastafi til að ráða; *stóra* og *stinna* er einkunn við stafi og bendir til, að þeir hafi verið kynngimagnaðir; 5.—6. lína, sjá 80. vísu; *reist* þt. af *rista:* rista; *Hroftur* er Óðinsheiti; *rögn:* goð.

143. Óðinn með ásum,
en fyr álfum Dáinn,
Dvalinn dvergum fyrir,
Ásviður jötnum fyrir,
eg reist sjálfur sumar.

143. Í þessari vísu virðist mælandinn ekki vera Óðinn. Sögnin *reist* er umsögn fyrir allar línurnar.

144. Veiztu, hve rísta skal?
Veiztu, hve ráða skal?
Veiztu, hve fáa skal?
Veiztu, hve freista skal?
Veiztu, hve biðja skal?
Veiztu, hve blóta skal?
Veiztu, hve senda skal?
Veiztu, hve sóa skal? –

144. *freista:* reyna (rúnirnar); *sóa:* fórna, blóta.

145. Betra er óbeðið
en sé ofblótið,
ey sér til gildis gjöf;
betra er ósent
en sé ofsóið.
Svo Þundur um reist
fyr þjóða rök,
þar hann upp um reis,
er hann aftur um kom.

145. *Þundur* er Óðinsheiti; *fyr þjóða rök:* áður en örlög þjóða voru ákveðin; *þar — kom* vísar til þess, er Óðinn féll ofan úr trénu og reis upp aftur og kom til goða og manna.

## VI. *Ljóðatal.*

146. Ljóð eg þau kann,
er kann-at þjóðans kona
og mannskis mögur.
Hjálp heitir eitt,
en það þér hjálpa mun
við sökum og sorgum
og sútum gervöllum.

146. *ljóð:* galdraljóð; *sút:* áhyggja, hugarangur.

147. Það kann eg annað,
er þurfu ýta synir,
þeir er vilja læknar lifa.

148. Það kann eg þriðja:
ef mér verður þörf mikil
hafts við mína heiftmögu,
eggjar eg deyfi
minna andskota,
bíta-t þeim vopn né velir.

148. *haft* merkir venjulega fjötur, en hlýtur hér að þýða hindrun; *heiftmögur:* fjandmaður; *andskoti:* andstæðingur, óvinur; *völur:* stafur (hér): vopn.

149. Það kann eg ið fjórða:
ef mér fyrðar bera
bönd að boglimum,
svo eg gel,
að eg ganga má,
sprettur mér af fótum fjötur,
en af höndum haft.

149. *boglimir:* hendur og fætur; *gel* nt. af *gala:* fremja galdur.

150. Það kann eg ið fimmta:
ef eg sé af fári skotinn
flein í fólki vaða,

150. *fári skotinn:* skotinn af fjandskap eða heiftarhug; *fólk:* herlið.



flýgur-a hann svo stinnt,
að eg stöðvig-a-g,
ef eg hann sjónum um sék.

151. Það kann eg ið sétta:
ef mig særir þegn
á rótum rás viðar,
og þann hal,
er mig heifta kveður,
þann eta mein heldur en mig.

151. *að særa á rótum hrás viðar* (hrás: ungs, safamikils) er óljóst. Helzt hafa menn reynt að skýra þetta með hliðsjón af frásögn Grettis sögu um rótartréð, sem magnað var göldrum til að bana Gretti; *kveðja heifta:* reita til reiði, ögra til fjandskapar.

152. Það kann eg ið sjöunda:
ef eg sé hávan loga
sal um sessmögum,
brennr-at svo breitt,
að eg honum bjargig-a-g;
þann kann eg galdur að gala.

152. *sessmegir:* menn, er sitja saman.

153. Það kann eg ið átta,
er öllum er
nytsamlegt að nema:
hvar er hatur vex
með hildings sonum,
það má eg bæta brátt.

153. *hildingur:* konungur.

154. Það kann eg ið níunda:
ef mig nauður um stendur
að bjarga fari mínu á floti,
vind eg kyrri
vogi á
og svæfig allan sæ.

154. *ef mig nauður um stendur:* ef mér er nauðsyn.

155. Það kann eg ið tíunda:
ef eg sé túnriður
leika lofti á,
eg svo vinnk,
að þær villar fara
sinna heimhama,
sinna heimhuga.

155. *túnriða:* galdranorn, sem fer í loftinu yfir bæjum (tún er hér í merkingunni hlað eða húsagarður, eins og tíðkast í norsku); *villar — heimhama:* finna ekki aftur hami sína, (sem þær hafa skilið eftir).

156. Það kann eg ið ellefta:
ef eg skal til orustu
leiða langvini,
und randir eg gel,
en þeir með ríki fara
heilir hildar til,
heilir hildi frá,
koma þeir heilir hvaðan.

156. *und randir eg gel:* ég gala (syng galdrasöngva) undir skjaldarrendur. Þessi lína hefur verið borin saman við lýsingu Tacitusar á vígljóðum germanskra hermanna: „Þeir bera skjölduna að munni sér, svo að raustin skelli á þeim og verði við það meginþung og miklu sterkari". (Germania 3. kap.); *ríki:* vald, máttur; *hildur:* orusta; *hvaðan:* alls staðar að.

157. Það kann eg ið tólfta:
ef eg sé á tré uppi
váfa virgilná,
svo eg ríst
og í rúnum fák,
að sá gengur gumi
og mælir við mig.

157. *virgilnár:* lík, sem hangir í snöru, hengdur maður; *fák:* ég mála.

158. Það kann eg ið þrettánda:
ef eg skal þegn ungan
verpa vatni á,
mun-at hann falla,
þótt hann í fólk komi,
hnígr-a sá halur fyr hjörum.

158. *verpa vatni á.* Siðurinn að ausa nýfædd börn vatni, um leið og þeim var gefið nafn, var kunnur í Noregi og á Íslandi fyrir kristnitöku; *fólk* (hér): orusta; *hjör:* sverð.



159. Það kann eg ið fjórtánda:
ef eg skal fyrða liði
telja tíva fyrir,
ása og álfa
eg kann allra skil;
fár kann ósnotur svo.

159. *skal — fyrir:* skal telja tíva (goð) fyrir fyrða liði (mönnum).

160. Það kann eg ið fimmtánda,
er gól Þjóðrerir
dvergur fyr Dellings durum:
afl gól hann ásum,
en álfum frama,
hyggju Hroftatý.

160. *Þjóðrerir* er annars ókunnur; *Dellingur:* hinn bjarti, var faðir Dags (sjá Vafþrúðnismál 25); *fyrir Dellings dyrum* virðist merkja við sólarupprkomu.

161. Það kann eg ið sextánda:
ef eg vil ins svinna mans
hafa geð allt og gaman,
hugi eg hverfi
hvítarmri konu,
og sný eg hennar öllum sefa.

161. *hugi eg hverfi:* ég sný huga.

162. Það kann eg ið sautjánda,
að mig mun seint firrast
ið manunga man.
Ljóða þessa
muntu, Loddfáfnir,
lengi vanur vera;
þó sé þér góð, ef þú getur,
nýt, ef þú nemur,
þörf, ef þú þiggur.

162. *firrast:* fjarlægjast, forðast; *hið manunga man:* mær í æskublóma; 4.—6. lína. Þetta virðist eiga betur heima í Loddfáfnismálum og getur tæplega verið upphaflegt hér.

163. Það kann eg hið átjánda,
er eg æva kennig
mey né manns konu,
— allt er betra,
er einn um kann;
það fylgir ljóða lokum, —
nema þeirri einni,
er mig armi ver
eða mín systir sé.

163. *er mig armi ver:* sem vefur mig armi (eiginkona).

VII.

164. Nú eru Háva mál kveðin
Háva höllu í,
allþörf ýta sonum,
óþörf jötna sonum;
heill sá, er kvað,
heill sá, er kann,
njóti sá, er nam,
heilir þeir, er hlýddu.

164. *allþörf:* mjög þörf.



# Vafþrúðnismál

*Óðinn kvað:*

1. „Ráð þú mér nú, Frigg,  
alls mig fara tíðir  
að vitja Vafþrúðnis.  
Forvitni mikla  
kveð eg mér á fornum stöfum  
við þann inn alsvinna jötun.“

1. *mig — tíðir:* mig langar; *Vafþrúðnir:* sem er sterkur að vefja, flækja; *fornir stafir:* vitneskja um fortíðina; *við:* í kappræðu við; *alsvinnur:* mjög vitur.

*Frigg kvað:*

2. „Heima letja  
eg mynda Herjaföður  
í görðum goða;  
því að engi jötun  
eg hugða jafnramman  
sem Vafþrúðni vera.“

2. *heima — goða:* ég vil letja Herjaföður (Óðin) fararinnar og láta hann dvelja heima í görðum (bústöðum) goða; *jafnrammur:* jafnsterkur; hér er átt við andlegan styrk í speki eða galdri.

*Óðinn kvað:*

3. „Fjöld eg fór,  
fjöld eg freistaða,  
fjöld eg reynda regin;  
hitt vil eg vita,  
hve Vafþrúðnis  
salakynni sé.“

3. *regin:* goð.



*Frigg kvað:*

4. „Heill þú farir,  
heill þú aftur komir,  
heill þú á sinnum sér.  
Æði þér dugi,  
hvar er þú skalt, Aldaföður,  
orðum mæla jötun!“

4. *á sinnum:* á leiðinni; *æði:* vit; *Aldaföður:* faðir manna, Óðinn; *orðum mæla:* eiga viðræður við.

5. Fór þá Óðinn  
að freista orðspeki  
þess ins alsvinna jötuns;  
að höllu hann kom,  
og átti Íms faðir;  
inn gekk Yggur þegar.

5. *freista orðspeki:* reyna vitsmuni; *Ímur* er jötunsheiti; *Íms faðir:* jötunn (hér): Vafþrúðnir; *Yggur:* hinn ægilegi, Óðinn.

*Óðinn kvað:*

6. „Heill þú nú, Vafþrúðnir,  
nú em eg í höll kominn  
á þig sjálfan sjá.  
Hitt vil eg fyrst vita,  
ef þú fróður sér  
eða alsvinnur, jötunn.“

6. Óðinn er í gervi förumanns og fær með því Vafþrúðni til að þreyta kappræðu.

*Vafþrúðnir kvað:*

7. „Hvað er það manna,  
er í mínum sal  
verpumk orði á?  
Út þú né komir  
órum höllum frá,  
nema þú inn snotrasti sér.“

7. *verpumk orði á:* ég ávarpa; *órum* (efn.): vorum; *snotur:* vitur.

*Óðinn kvað:*

8. „Gagnráður eg heiti,
nú em eg af göngu kominn,
þyrstur til þinna sala;
laðar þurfi –
hefi eg lengi farið –
og þinna andfanga, jötunn."

8. *Gagnráður:* sá, er ræður sigri. Óðinn dylur venjulega hið rétta nafn sitt, er hann er á ferðalagi; *löð:* gestrisni; *andföng:* móttökur.

*Vafþrúðnir kvað:*

9. Hví þú þá, Gagnráður,
mælist af gólfi fyrir?
Farðu í sess í sal!
Þá skal freista,
hvor fleira viti,
gestur eða inn gamli þulur."

9. *þulur:* spekingur (sjá Hávamál 111); *inn gamli þulur:* Vafþrúðnir.

*Óðinn kvað:*

10. „Óauðigur maður,
er til auðigs kemur,
mæli þarft eða þegi;
ofurmælgi mikil,
hygg eg, að illa geti
hveim er við kaldrifjaðan kemur."

10. *illa geti:* leiði af sér illt; *hveim er:* hverjum sem; *við:* til móts við.

*Vafþrúðnir kvað:*

11. „Segðu mér, Gagnráður,
alls þú á gólfi vilt
þíns um freista frama,
hve sá hestur heitir,
er hverjan dregur
dag of dróttmögu."

11. *freista frama:* leita frægðar; *dróttmegir:* menn.



*Óðinn kvað:*

12. „Skinfaxi heitir,
er inn skíra dregur
dag um dróttmögu;
hesta beztur
þykir hann með Hreiðgotum;
ey lýsir mön af mari."

12. *Hreiðgotar* eða Reiðgotar er talið að merki upphaflega Austur-Gota, en er hér í miklu víðari merkingu, jafnvel um menn almennt; *ey:* alltaf; *mön:* fax; *mar:* hestur.

*Vafþrúðnir kvað:*

13. „Segðu það, Gagnráður,
alls þú á gólfi vilt
þíns um freista frama,
hve sá jór heitir,
er austan dregur
nótt of nýt regin."

13. *jór:* hestur.

*Óðinn kvað:*

14. „Hrímfaxi heitir,
er hverja dregur
nótt of nýt regin;
méldropa fellir hann
morgun hvern;
þaðan kemur dögg um dala."

14. *méldropar:* dropar, sem falla af járnméli hests.

*Vafþrúðnir kvað:*

15. „Segðu það, Gagnráður,
alls þú á gólfi vilt
þíns um freista frama,
hve sú á heitir,
er deilir með jötna sonum
grund og með goðum."

*Óðinn kvað:*

16. „Ífing heitir á,
er deilir með jötna sonum
grund og með goðum;
opin renna
hún skal um aldurdaga;
verður-at ís á á."

16. *opinn:* íslaus; *um aldurdaga:* ævinlega.

*Vafþrúðnir kvað:*

17. „Segðu það, Gagnráður,
alls þú á gólfi vilt
þíns um freista frama,
hve sá völlur heitir,
er finnast vígi að
Surtur og in svásu goð."

17. *Surtur* er eldjötunn, sem berst við goðin í ragnarökum (sjá Völuspá 52); *svás:* mildur, blíður.

*Óðinn kvað:*

18. „Vígríður heitir völlur,
er finnast vígi að
Surtur og in svásu goð;
hundrað rasta
hann er á hverjan veg;
sá er þeim völlur vitaðr."

18. *röst* er ókunn vegalengd; *vitaður:* ákveðinn.

*Vafþrúðnir kvað:*

19. „Fróður ertu nú, gestur,
far þú á bekk jötuns
og mælumst í sessi saman;
höfði veðja
við skulum höllu í,
gestur, um geðspeki."

19. *geðspeki:* vit, þekking.



*Óðinn kvað:*

20. „Segðu það ið eina,
ef þitt æði dugir
og þú, Vafþrúðnir, vitir,
hvaðan jörð um kom
eða upphiminn
fyrst, inn fróði jötunn."

*Vafþrúðnir kvað:*

21. „Úr Ymis holdi
var jörð um sköpuð,
en úr beinum björg,
himinn úr hausi
ins hrímkalda jötuns,
en úr sveita sjór."

21. Mjög lík vísa er í Grímnismálum (40); *Ymir* var elztur jötna; *sveiti:* blóð.

*Óðinn kvað:*

22. „Segðu það annað,
ef þitt æði dugir
og þú, Vafþrúðnir, vitir,
hvaðan máni um kom,
svo að fer menn yfir,
eða sól ið sama."

22. *ið sama:* sömuleiðis.

*Vafþrúðnir kvað:*

23. „Mundilfari heitir,
hann er Mána faðir
og svo sólar ið sama.
Himin hverfa
þau skulu hverjan dag
öldum að ártali."

23. *Mundilfari* er sennilega dregið af orðinu *mund:* ákveðinn tími, vegna þess að börn hans, Sól og Máni, afmarka tímann; *hverfa:* fara umhverfis; *öld:* menn.

*Óðinn kvað:*

24. „Segðu það ið þriðja,
alls þig svinnan kveða
og þú, Vafþrúðnir, vitir,
hvaðan dagur um kom,
sá er fer drótt yfir,
eða nótt með niðum."

24. *drótt:* fólk; *nið:* þegar tunglslaust er.

*Vafþrúðnir kvað:*

25. „Dellingur heitir,
hann er Dags faðir,
en Nótt var Nörvi borin.
Ný og nið
skópu nýt regin
öldum að ártali."

25. *Dellingur:* hinn bjarti; *Nör* er ókunnur að öðru en því að vera faðir Nætur; *ný:* tunglkoma.

*Óðinn kvað:*

26. „Segðu það ið fjórða,
alls þig fróðan kveða,
og þú, Vafþrúðnir, vitir,
hvaðan vetur um kom
eða varmt sumar
fyrst með fróð regin."

*Vafþrúðnir kvað:*

27. „Vindsvalur heitir,
hann er Vetrar faðir,
en Svásuður Sumars."

27. Nöfnin *Vindsvalur* og *Svásuður* sýna skaplyndi Vetrar og Sumars.

*Óðinn kvað:*

28. „Segðu það ið fimmta,
alls þig fróðan kveða,



og þú, Vafþrúðnir, vitir,
hver ása elztur
eða Ymis niðja
yrði í árdaga."

28. *Ymis niðjar* (ættingjar): jötnar; *í árdaga:* á elztu tímum.

*Vafþrúðnir kvað:*

29. „Örófi vetra
áður væri jörð sköpuð,
þá var Bergelmir borinn,
Þrúðgelmir
var þess faðir,
en Aurgelmir afi."

29. *öróf:* örhóf, þ. e. ótal; *Aurgelmir:* Ymir. Síðari liður nafnanna *-gelmir* er talinn merkja: hinn háværi.

*Óðinn kvað:*

30. „Segðu það ið sétta,
alls þig svinnan kveða,
og þú, Vafþrúðnir, vitir,
hvaðan Aurgelmir kom
með jötna sonum
fyrst, inn fróði jötunn."

*Vafþrúðnir kvað:*

31. „Úr Élivogum
stukku eiturdropar,
svo óx, unz úr varð jötunn;
þar órar ættir
kómu allar saman;
því er það æ allt til atalt."

31. *Élivogar* merkir bylgjur éljanna. Snorri telur Élivoga hafa verið ár, sem áttu upptök lengst í norðri (Gylfaginning 5); *eiturdropar:* ískaldir dropar; *órar* (efn.): vorar; *atalt:* grimmt, illt.

*Óðinn kvað:*

32. „Segðu það ið sjöunda,
alls þig svinnan kveða,

32. *gýgur:* tröllkona.

og þú, Vafþrúðnir, vitir,
hve sá börn gat
inn baldni jötunn,
er hann hafði-t gýgjar gaman."

*Vafþrúðnir kvað:*

33. „Undir hendi vaxa
kváðu hrímþursi
mey og mög saman;
fótur við fæti
gat ins fróða jötuns
sexhöfðaðan son."

*Óðinn kvað:*

34. „Segðu það ið átta,
alls þig svinnan kveða,
og þú, Vafþrúðnir, vitir,
hvað þú fyrst mant
eða fremst um veizt,
þú ert alsvinnur jötunn."

*Vafþrúðnir kvað:*

35. „Örófi vetra
áður væri jörð um sköpuð,
þá var Bergelmir borinn;
það eg fyrst um man,
er sá inn fróði jötunn
var á lúður um laginn."

*Óðinn kvað:*

36. „Segðu það ið níunda,
alls þig svinnan kveða,
og þú, Vafþrúðnir, vitir,
hvaðan vindur um kemur

33. *mey og mög:* dóttur og son.

34. *fremst:* lengst aftur í tímann.

35. *lúður* hefur ýmsar merkingar, en hér merkir það sennilega líkkistu eða örk (sjá M. o. M. 1946 bls. 49 o. áfr.).

36. *æ:* ekki.



svo að fer vog yfir;
æ menn hann sjálfan um sjá."

*Vafþrúðnir kvað:*

37. „Hræsvelgur heitir,
er situr á himins enda,
jötunn í arnar ham.
Af hans vængjum
kveða vind koma
alla menn yfir."

*Óðinn kvað:*

38. „Segðu það ið tíunda,
alls þú tíva rök
öll, Vafþrúðnir, vitir,
Hvaðan Njörður um kom
með ása sonum —
hofum og hörgum
hann ræður hundmörgum —
og varð-at hann ásum alinn."

*Vafþrúðnir kvað:*

39. „Í Vanaheimi
skópu hann vís regin
og seldu að gíslingu goðum,
í aldar rök
hann mun aftur koma
heim með vísum vönum."

*Óðinn kvað:*

40. „Segðu það ið ellefta,
hvar ýtar túnum í
höggvast hverjan dag."

37. *Hræsvelgur:* sem gleypir hræ.

38. *tíva rök:* örlög goða; *hörgur:* blótstallur eða blóthús; *hundmörgum:* mjög mörgum.

39. Um stríð og sættargerð ása og vana sjá Völuspá 24; *aldar rök:* örlög eða endalok manna, þ. e. heimsendir = ragnarök.

40. *ýtar:* menn; *tún* (hér): bústaður (um *tún* sjá Völuspá 8).

*Vafþrúðnir kvað:*

41. „Allir einherjar
Óðins túnum í
höggvast hverjan dag,
val þeir kjósa
og ríða vígi frá,
sitja meir um sáttir saman."

41. *Óðins tún:* Valhöll; *kjósa val* (hér): fella hver annan; *meir:* eftir það.

*Óðinn kvað:*

42. „Segðu það ið tólfta,
hví þú tíva rök
öll, Vafþrúðnir, vitir;
frá jötna rúnum
og allra goða
segir þú ið sannasta,
inn alsvinni jötunn."

42. *rúnar:* speki, leyndarmál.

*Vafþrúðnir kvað:*

43. „Frá jötna rúnum
og allra goða
eg kann segja satt,
því að hvern hefi eg
heim um komið:
níu kom eg heima
fyr Niflhel neðan;
hinig deyja úr helju halir."

43. *hvern ... heim* er leiðarþolfall; *níu kom eg heima.* Þessir níu heimar eru annars ókunnir, sjá þó Völuspá 2; *Niflhel:* hið myrka heimkynni Heljar; *hinig* (þangað) *deyja úr helju halir.* Eftir orðanna hljóðan virðist helzt vera um annan dauðdaga að ræða í Helheimi og fari menn þá enn lengra niður. Þessir níu heimar fyrir neðan Niflhel minna einna helzt á bústað Húsavíkur-Jóns.

*Óðinn kvað:*

44. „Fjöld eg fór
fjöld eg freistaðag,
fjöld eg reynda regin:

44. *mær:* frægur; *fimbulvetur:* hinn mikli vetur, er grandar mannkyninu fyrir ragnarök.





Hvað lifir manna,
þá er inn mæra líður
fimbulvetur með firum?“

*Vafþrúðnir kvað:*

45. „Líf og Lífþrasir,
en þau leynast munu
í holti Hoddmímis.
Morgundöggvar
þau sér að mat hafa,
en þaðan af aldir alast.“

45. *Líf og Lífþrasir* eru foreldrar hins nýja mannkyns eftir ragnarök; *holt:* skógur; *Hoddmímir* er annars ókunnur; *aldir:* menn; *alast:* fæðast.

*Óðinn kvað:*

46. „Fjöld eg fór,
fjöld eg freistaðag,
fjöld eg reynda regin:
Hvaðan kemur sól
á inn slétta himin,
þá er þessa hefir Fenrir farið?“

46. *Fenrir:* Fenrisúlfur, (hér): úlfur; *farið:* grandað.

*Vafþrúðnir kvað:*

47. „Eina dóttur
ber Álfröðull,
áður hana Fenrir fari.
Sú skal ríða,
þá er regin deyja,
móður brautir mær.“

47. *Álfröðull:* sól.

*Óðinn kvað:*

48. „Fjöld eg fór,
fjöld eg freistaðag,

48. *meyjar* þær, sem hér eru nefndar, virðast fæddar eftir ragnarök; *líða*

fjöld eg reynda regin:
Hverjar eru þær meyjar,
er líða mar yfir,
fróðgeðjaðar fara?“

*Vafþrúðnir kvað:*

49. „Þrjár þjóðár
falla þorp yfir
meyja Mögþrasis;
hamingjur einar
þær er í heimi eru,
þó þær með jötnum alast.“

*Óðinn kvað:*

50. „Fjöld eg fór,
fjöld eg freistaðag,
fjöld eg reynda regin:
Hverir ráða æsir
eignum goða,
þá er slokknar Surta logi?“

*Vafþrúðnir kvað:*

51. „Víðar og Váli
byggja vé goða,
þá er slokknar Surta logi;
Móði og Magni
skulu Mjöllni hafa
Vingnis að vígþroti.“

*Óðinn kvað:*

52. „Fjöld eg fór,
fjöld eg freistaðag,

*mar yfir:* svífa í loftinu yfir sjónum.

49. *þrjár — Mögþrasis* er mjög óljóst. Ýmsir skýrendur hafa breytt *þjóðár* í þjóðir og skýrt efni vísubrotsins eitthvað á þessa leið: Þrjár þjóðir meyja falla yfir þorp Mögþrasis. *Mögþrasir* hefur verið skýrt sem táknorð um manninn, sem óskar að eignast börn. *þorp Mögþrasis:* byggð manna; *hamingjur:* heilladísir; *alast:* eru aldar upp.

50. *Surta logi* er hinn mikli eldur ragnaraka (sjá Völuspá 47).

51. *Víðar og Váli* eru hefnendur goðanna. Váli hefndi Baldurs, en Víðar mun hefna Óðins; *vé* (helgistaðir) *goða:* bústaðir goða; *Móði og Magni:* synir Þórs; *Mjöllnir:* hamar Þórs; *Vingnis að vígþroti:* þegar Vingnir (Þór) getur ekki barizt lengur, hann fellur.

52. *aldurlag:* bani; *rjúfast:* farast.



fjöld eg reynda regin:
Hvað verður Óðni
að aldurlagi,
þá er rjúfast regin?“

*Vafþrúðnir kvað:*

53. „Úlfur gleypa
mun Aldaföður,
þess mun Víðar vreka;
kalda kjafta
hann klyfja mun
vitnis vígi að.“

*Óðinn kvað:*

54. „Fjöld eg fór,
fjöld eg freistaðag,
fjöld eg reynda regin:
Hvað mælti Óðinn,
áður á bál stigi
sjálfur í eyra syni?“

*Vafþrúðnir kvað:*

55. „Ey manni það veit,
hvað þú í árdaga
sagðir í eyra syni.
Feigum munni
mælta eg mína forna stafi
og um ragnarök.
Nú eg við Óðin
deildag mína orðspeki;
þú ert æ vísastur vera.“

53. *úlfur:* Fenrisúlfur; *vreka:* hefna; *klyfja:* kljúfa; *vitnir:* úlfur.

54. Hér er átt við orðin, sem Óðinn mælti síðast í eyra Baldri, en það leyndarmál vissi Óðinn einn.

55. *ey manni það veit* (ópersónulegt): engum manni er kunnugt; *deila orðspeki:* keppa í vizku; *vísastur vera:* vitrastur manna.

## *Frá sonum Hrauðungs konungs.*

Hrauðungur konungur átti tvo sonu. Hét annar Agnar, en annar Geirröður. Agnar var tíu vetra, en Geirröður átta vetra. Þeir reru tveir á báti með dorgar sínar að smáfiski. Vindur rak þá í haf út. Í náttmyrkri brutu þeir við land og gengu upp, fundu kotbónda einn. Þar voru þeir um veturinn. Kerling fóstraði Agnar, en karl Geirröð. Að vori fékk karl þeim skip.

En er þau kerling leiddu þá til strandar, þá mælti karl einmæli við Geirröð.

Þeir fengu byr og kómu til stöðva föður síns. Geirröður var fram í skipi. Hann hljóp upp á land, en hratt út skipinu og mælti: „Farðu, þar er smyl hafi þig."

Skipið rak út, en Geirröður gekk upp til bæjar. Honum var vel fagnað. Þá var faðir hans andaður. Var þá Geirröður til konungs tekinn og varð maður ágætur.

Óðinn og Frigg sátu í Hliðskjálfu og sáu um heima alla. Óðinn mælti: „Sér þú Agnar, fóstra þinn, hvar hann elur börn við gýgi í hellinum, en Geirröður, fóstri minn, er konungur og situr nú að landi?"

Frigg segir: „Hann er matníðingur sá, að hann kvelur gesti sína, ef honum þykja of margir koma."

Óðinn segir, að það er in mesta lygi. Þau veðja um þetta mál. Frigg sendi eskimey sína Fullu til Geirröðar.



Hún bað konung varast, að eigi fyrirgerði honum fjölkunnigur maður, sá er þar var kominn í land, og sagði það mark á, að engi hundur var svo ólmur, að á hann myndi hlaupa.

En það var inn mesti hégómi, að Geirröður væri eigi matgóður, og þó lætur hann handtaka þann mann, er eigi vildu hundar á ráða. Sá var í feldi blám og nefndist Grímnir og sagði ekki fleira frá sér, þótt hann væri að spurður. Konungur lét hann pína til sagna og setja milli elda tveggja, og sat hann þar átta nætur.

Geirröður konungur átti son tíu vetra gamlan, og hét Agnar eftir bróður hans. Agnar gekk að Grímni og gaf honum horn fullt að drekka, sagði, að konungur gerði illa, er hann lét pína hann saklausan. Grímnir drakk af. Þá var eldurinn svo kominn, að feldurinn brann af Grímni. Hann kvað:

1. „Heitur ertu, hripuður,
og heldur til mikill;
göngumk firr, funi.
Loði sviðnar,
þótt eg á loft berag;
brennumk feldur fyrir.

2. Átta nætur sat eg
milli elda hér,
svo að mér manngi mat né bauð
nema einn Agnar,
er einn skal ráða,
Geirröðar sonur,
gotna landi.

*Frá sonum Hrauðungs konungs.*
*dorg:* færi, fiskilína; *Farðu, þar er smyl hafi þig.* Orðið *smyl* kemur ekki fyrir annars staðar, en merking orðtækisins hlýtur að vera svipuð og í Hárbarðsljóðum 60: *Far þú nú, þar er þig hafi allan gramir; Hliðskjálf:* hásæti Óðins; þaðan sér hann um heima alla; *eskimær:* þjónustumær; *Fulla* er talin ein af ásynjum; *Grímnir:* hinn grímubúni, eitt af nöfnum Óðins.

1. *hripuður:* eldur; *göngumk firr:* gakk mér fjær;

3. Heill skaltu, Agnar,
alls þig heilan biður
Veratýr vera.
Eins drykkjar
þú skalt aldregi
betri gjöld geta.

4. Land er heilagt,
er eg liggja sé
ásum og álfum nær;
en í Þrúðheimi
skal Þór vera
unz um rjúfast regin.

5. Ýdalir heita,
þar er Ullur hefir
sér um görva sali.
Álfheim Frey
gáfu í árdaga
tívar að tannfé.

6. Bær er sá inn þriðji,
er blíð regin
silfri þöktu sali.
Valaskjálf heitir,
er vélti sér
ás í árdaga.

7. Sökkvabekkur heitir inn fjórði,
en þar svalar knegu
unnir yfir glymja.

*loði:* loðfeldur, loðkápa; *þótt á loft berag:* þótt ég lyfti honum upp; *brennumk feldur fyrir:* feldurinn brennur fyrir mér (mér til ama).
2. *manngi:* enginn maður; *gotnar:* menn (eða Gotar).

3. *Veratýr:* goð manna (Óðinn).

4. *Þrúðheimur* er hér nafn á bústað Þórs, en oftar er hann nefndur Þrúðvangar; rótin *þrúð* merkir afl; *rjúfast:* farast; *regin:* goð.

5. *Ýdalir* er eðlilegt nafn á bústað Ullar, þar sem Ullur var allra goða bogfimastur, en ýr var sú viðartegund, sem algengust var í boga. Orðið *ýr* er því oft haft í merkingunni bogi; *Álfheim — tannfé* bendir til þess, að álfar voru stundum blótaðir til árs eins og Freyr.

6. Nafnið *Valaskjálf* er hugsað eins og Hliðskjálf og hefur oft verið talið sömu merkingar og Valhöll. Snorri telur einnig, að Valaskjálf sé eign Óðins (Gylfaginning 17). Aðrir skýrendur lesa *Válaskjálf* og hyggja, að hún sé kennd við guðinn Vála (sjá M. O. VII bls. 19 o. áfr.); *véla:* gera (hér): byggja með list; *ás* er ein-



þar þau Óðinn og Sága
drekka um alla daga
glöð úr gullnum kerum.

8. Glaðsheimur heitir inn fimmti,
þar er in gullbjarta
Valhöll víð um þrumir;
en þar Hroftur
kýs hverjan dag
vopndauða vera.

9. Mjög er auðkennt,
þeim er til Óðins koma
salkynni að sjá:
sköftum er rann reft,
skjöldum er salur þakinn,
brynjum um bekki stráð.

10. Mjög er auðkennt,
þeim er til Óðins koma
salkynni að sjá:
vargur hangir
fyr vestan dyr,
og drúpir örn yfir.

11. Þrymheimur heitir inn sétti,
er Þjazi bjó,
sá inn ámáttki jötunn;
en nú Skaði byggir,
skír brúður goða,
fornar tóftir föður.

hver goðanna. Samkvæmt Gylfaginningu er það Óðinn; *í árdaga:* á elztu tímum.

7. *Sökkvabekkur* er oftast talið merkja sokkinn bústað, og minnir það nafn á Fensali, bústað Friggjar; *knega* (hjálparsögn): geta, gera; *Sága* er sú, sem allt sér. Sumir fræðimenn telja, að Sága sé aðeins annað nafn á Frigg.

8. *Glaðsheimur:* hinn bjarti heimur; *Valhöll* dregur nafn af því, að Óðinn eignaðist allan val; *þruma:* standa kyrr.

9. *sköft:* spjótsköft; *rann:* hús; *salur:* höll.

10. *vargur:* úlfur.

11. *Þrymheimur:* hávaðaheimur; *ámáttugur:* sterkur og fjandsamlegur; *Skaði* var dóttir Þjaza jötuns og var um skeið eiginkona Njarðar, en skilin við hann, er hér er komið sögu. Samt er hún kölluð *skír* (björt) *brúður goða.*

12. Breiðablik eru in sjöundu,
en þar Baldur hefir
sér um gerva sali,
á því landi,
er eg liggja veit
fæsta feiknstafi.

12. *Breiðablik* er þar, sem víðsýnt er; *feiknstafir* (hér): ógnir, hættur.

13. Himinbjörg eru in áttu,
en þar Heimdall
kveða valda véum;
þar vörður goða
drekkur í væru ranni
glaður inn góða mjöð.

13. *Himinbjörg* eru samkvæmt Gylfaginningu 17 á himni við enda brúarinnar Bifrastar (Bifröst, sjá 44. vísu); *valda véum:* ráða helgistöðum; *vörður goða:* Heimdallur; *vær:* viðfelldinn.

14. Fólkvangur er inn níundi,
en þar Freyja ræður
sessa kostum í sal.
Hálfan val
hún kýs hverjan dag,
en hálfan Óðinn á.

14. *Fólkvangur:* orustuvöllur; *ráða sessa kostum:* ráða, hvernig mönnum var skipað í sæti; 4.—6. lína. Hvergi er þess getið annars staðar, að Freyja eignaðist val.

15. Glitnir er inn tíundi,
hann er gulli studdur
og silfri þaktur ið sama;
en þar Forseti
byggir flestan dag
og svæfir allar sakir.

15. *Glitnir:* hinn skínandi; *gulli studdur:* með stoðum úr gulli; *ið sama:* sömuleiðis; *Forseti* var sonur Baldurs og Nönnu og talinn einn af ásum.

16. Nóatún eru in elleftu,
en þar Njörður hefir
sér um görva sali;
manna þengill
inn meins vani
hátimbruðum hörgi ræður.

16. *Nóatún:* skipaborg (sbr. lat. navis = skip); *meins vanur:* laus við illsku; *hörgur,* sjá Völuspá 7.



17. Hrísi vex
og háu grasi
Víðars land viði;
en þar mögur um læzt
af mars baki
frækn að hefna föður.

17. *Víðar* hefur ekki annað hlutverk en að hefna Óðins, föður síns; *mögur:* sonur (Óðins); *af mars baki:* af hestbaki.

18. Andhrímnir
lætur í Eldhrímni
Sæhrímni soðinn,
fleska bezt,
en það fáir vitu
við hvað einherjar alast.

18. *Andhrímnir:* eldamaður í Valhöll; *Eldhrímnir:* soðpottur í Valhöll; *Sæhrímnir:* göltur, sem einherjar eta á hverjum degi.

19. Gera og Freka
seður gunntaminn
hróðigur Herjaföður,
en við vín eitt
vopngöfugur
Óðinn æ lifir.

19. *Geri og Freki:* úlfar Óðins; *gunntaminn:* vanur orustum, herskár; *hróðugur:* frægur; *Herjaföður:* Óðinn.

20. Huginn og Muninn
fljúga hverjan dag
jörmungrund yfir.
Óumk eg um Hugin,
að hann aftur né komi-t,
þó sjáumk meir um Munin.

20. *Huginn og Muninn:* hrafnar Óðins; *jörmungrund:* hin mikla jörð; *óumk* og *sjáumk* merkir hvorttveggja: ég óttast.

21. Þýtur Þund,
unir Þjóðvitnis
fiskur flóði í.
Árstraumur þykir
ofmikill
valglaumi að vaða.

22. Valgrind heitir,
er stendur velli á
heilög fyr helgum durum.
Forn er sú grind,
en það fáir vitu,
hve hún er í lás lokin.

23. Fimm hundruð dura
og um fjórum tugum,
svo hygg eg að Valhöllu vera;
átta hundruð einherja
ganga senn úr einum durum,
þá er þeir fara að vitni að vega.

24. Fimm hundruð gólfa
og um fjórum tugum
svo hygg eg Bilskirrni með
ranna þeirra, [bugum;
er eg reft vita,
míns veit eg mest magar.

25. Heiðrún heitir geit,
er stendur höllu á Herjaföðurs
og bítur af Læraðs limum.

21. *Þund* er sennilega nafn á fljóti; *Þjóðvitnir:* aðalúlfur, getur tæplega verið annar en Fenrisúlfur; *Þjóðvitnis fiskur* er illskiljanlegt. Helzt hefur verið gizkað á Miðgarðsorm; *valglaumur* er sennilega hinn káti flokkur einherja, sem er á leið til Valhallar.

22. *Valgrind:* grindin í hliðinu fyrir framan Valhöll. Um það urðu allir vopndauðir menn að fara.

23. Dyrafjöldinn í Valhöll hyggur Magnus Olsen, að eigi rót sína að rekja til vitneskju norrænna manna um Colosseum eða önnur slík leikhús Rómverja (Acta 1931 bls. 151 o. áfr.). Talan hundrað merkir 120, en það skiptir ekki máli í þessu sambandi; *vitnir* (hér): Fenrisúlfur.

24. *gólf:* stafgólf; *Bilskirrnir:* sem skirrist (forðast) *bil* (bilun): höll Þórs; *með bugum:* með öllu, þegar allt er talið.

25. Frá *Heiðrúnu* og *Læraði* er nánar sagt í Gylfaginningu 39, og segir þar, að úr spenum geitarinnar renni svo mikill mjöður, að allir einherjar



Skapker fylla
hún skal ins skíra mjaðar;
kná-at sú veig vanast.

26. Eikþyrnir heitir hjörtur,
er stendur á höllu Herjaföðurs
og bítur af Læraðs limum;
en af hans hornum
drýpur í Hvergelmi,
þaðan eigu vötn öll vega.

27. Síð og Víð,
Sækin og Eikin,
Svöl og Gunnþró,
Fjörm og Fimbulþul,
Rín og Rennandi,
Gipul og Göpul,
Gömul og Geirvimul,
þær hverfa um hodd goða,
Þyn og Vin,
Þöll og Höll,
Gráð og Gunnþorin.

28. Vína heitir enn,
önnur Vegsvinn,
þriðja Þjóðnuma,
Nyt og Nöt,
Nönn og Hrönn,
Slíð og Hríð,
Sylgur og Ylgur,
Víð og Ván,

verði fulldrukknir af; *höllu:* Valhöllu; *skapker:* austursker (sbr. þýzku schöpfen); *kná — vanast:* sá drykkur minnkar ekki.

26. *Hvergelmir:* ólgandi ketill. Samkvæmt Gylfaginningu 4 er Hvergelmir brunnur í miðjum Niflheimi; *þaðan — vega:* þar eiga allar ár upptök.

27. *hverfa um hodd goða:* falla umhverfis heimaland goðanna.

28. *Gjöll:* hin gjallandi. Samkvæmt Gylfaginningu 4 er áin Gjöll á leiðinni til Heljar; *gumnar:* menn.

Vönd og Strönd,
Gjöll og Leiftur,
þær falla gumnum nær,
en falla til Heljar héðan.

29. Körmt og Örmt
og Kerlaugar tvær
þær skal Þór vaða
hverjan dag,
er hann dæma fer
að aski Yggdrasils,
því að ásbrú
brenn öll loga,
heilög vötn hlóa.

29. *askur Yggdrasils* = Yggdrasill, sjá Völuspá 19; *ásbrú:* brúin Bifröst, sjá 44. vísu; *hlóa:* sjóða, hitna.

30. Glaður og Gyllir,
Glær og Skeiðbrimir,
Silfrintoppur og Sinir,
Gísl og Falhófnir,
Gulltoppur og Léttfeti,
þeim ríða æsir jóm
dag hvern
er þeir dæma fara
að aski Yggdrasils.

30. *jór:* hestur.

31. Þrjár rætur
standa á þrjá vega
undan aski Yggdrasils.
Hel býr und einni,
annarri hrímþursar,
þriðju mennskir menn.

31. Um rætur asksins segir Snorri í Gylfaginningu 15, að ein sé í Niflheimi við brunninn Hvergelmi, önnur hjá hrímþursum við Mímisbrunn, en hin þriðja á himni við Urðarbrunn.



32. Ratatoskur heitir íkorni,
er renna skal
að aski Yggdrasils,
arnar orð
hann skal ofan bera
og segja Niðhöggvi niður.

32. *Ratatoskur:* nagtönn; *Niðhöggur*, sjá Völuspá 39.

33. Hirtir eru og fjórir,
þeir er af hæfingar á
gaghálsir gnaga:
Dáinn og Dvalinn,
Duneyr og Duraþrór.

33. *hæfingar:* brumknappar (?); *gagháls:* með teygðan afturbeygðan háls.

34. Ormar fleiri
liggja undir aski Yggdrasils,
en það um hyggi hver
ósvinnra apa:
Góinn og Móinn
þeir eru Grafvitnis synir,
Grábakur og Grafvölluður,
Ófnir og Sváfnir,
hygg eg, að æ skyli
meiðs kvistu má.

34. *ósvinnur api:* óvitur heimskingi; *meiðs kvistir:* greinar trés; *má* (hér): naga.

35. Askur Yggdrasils
drýgir erfiði
meira en menn viti:
hjörtur bítur ofan,
en á hliðu fúnar,
skerðir Niðhöggur neðan.

35. *drýgja erfiði:* þola.

36. Hrist og Mist,
vil eg, að mér horn beri,
Skeggjöld og Skögul,
Hildur og Þrúður,
Hlökk og Herfjötur,
Göll og Geirölul,
Randgríð og Ráðgríð
og Reginleif;
þær bera einherjum öl.

37. Árvakur og Alsviður
þeir skulu upp héðan
svangir sól draga;
en und þeirra bógum
fálu blíð regin,
æsir, ísarnkol.

38. Svalinn heitir,
hann stendur sólu fyrir,
skjöldur, skínanda goði;
björg og brim,
eg veit, að brenna skulu,
ef hann fellur í frá.

39. Skoll heitir úlfur,
er fylgir inu skírleita goði
til varna viðar,
en annar Hati,
hann er Hróðvitnis sonur,
sá skal fyr heiða brúði himins.

36. Öll nöfnin eru valkyrjuheiti.

37. *Árvakur og Alsviður* eru hestar, sem draga kerru sólar yfir himininn; *ísarnkol:* járnkul. Snorri telur það hafa verið vindbelgi til varnar gegn ofhita, og á það hafa flestir skýrendur fallizt. Hins vegar telur Anne Holtsmark, að *ísarnkol* hafi verið eins konar smiðjubelgir, sem blásnir voru til að halda við hita sólarinnar (M. o. M. 1947, bls. 119 o. áfr.).

38. *Svalinn:* hinn kaldi. Skjöldur þessi var til að verja jörðina ofhita; *skínanda goði:* sólu.

39. *Skoll:* hinn svikuli (sbr. skolli: refur); *til varna viðar:* þar til skógurinn verndar sólina, er hún gengur til viðar; *Hati:* óvinur (sbr. hata); *Hróðvitnir:* hinn frægi úlfur: Fenrisúlfur; *fyr heiða brúði himins:* fyrir framan sólina (til að króa hana). Til þessara hugmynda á sú þjóðtrú rót sína að rekja, að sól sé í úlfakreppu, er tvær aukasólir sjást í einu, og þaðan er dreginn talshátturinn: Sjaldan er gíll fyrir góðu, nema úlfur á eftir renni (sjá Þjóðsögur og æfintýri Jóns Árnasonar I bls. 658—659, ný útgáfa I bls. 659).



40. Úr Ymis holdi
var jörð um sköpuð,
en úr sveita sær,
björg úr beinum,
baðmur úr hári,
en úr hausi himinn.

41. En úr hans brám
gerðu blíð regin
Miðgarð manna sonum,
en úr hans heila
voru þau in harðmóðgu
ský öll um sköpuð.

42. Ullar hylli
hefur og allra goða
hver er tekur fyrstur á funa,
því að opnir heimar
verða um ása sonum,
þá er hefja af hvera.

43. Ívalda synir
gengu í árdaga
Skíðblaðni að skapa,
skipa bezt
skírum Frey,
nýtum Njarðar bur.

44. Askur Yggdrasils,
hann er æðstur viða,
en Skíðblaðnir skipa,

40. Sjá Vafþrúðnismál 21; *sveiti:* blóð; *baðmur* (heildstætt): skógur.

41. *Miðgarður,* sjá Völuspá 4; *harðmóðigur:* harðsvíraður, grimmúðugur.

42. *tekur á:* stöðvar; *opnir:* sýnilegir; *þá — hvera:* þegar þeir taka katlana af (eldinum).

43. *Ívalda synir* eru dvergar samkvæmt Gylfaginningu 43; *Skíðblaðnir* er dregið af orðinu skíðblað: þunnt, flatt borð.

44. *Sleipnir:* reiðhestur Óðins, sem hafði átta fætur; *Bilröst* = Bifröst, brú milli himins og jarðar

Óðinn ása,
en jóa Sleipnir,
Bilröst brúa,
en Bragi skálda,
Hábrók hauka,
en hunda Garmur.

(regnboginn); *Garmur*, sjá Völuspá 44.

45. Svipum hefi eg nú yppt
fyr sigtíva sonum,
við það skal vilbjörg vaka.
Öllum ásum
það skal inn koma
Ægis bekki á,
Ægis drekku að.

45. *svipum — sonum:* ég hef nú sýnt andlit mitt sonum hinna sigursælu goða (ásum); *vilbjörg vaka:* þráð frelsun koma: Óljóst er, hvernig skáldið hugsar sér, að frelsunin leiði til þess, að allir æsir komist í drykkju hjá Ægi.

46. Hétumk Grímur,
hétumk Gangleri,
Herjann og Hjálmberi,
Þekkur og Þriði,
Þuður og Uður,
Herblindi og Hár.

46.—50. Óðinn telur upp nöfn á sjálfum sér.

47. Saður og Svipall
og Sanngetall,
Herteitur og Hnikar,
Bileygur, Báleygur,
Bölverkur, Fjölnir,
Grímur og Grímnir,
Glapsviður og Fjölsviður,

48. Síðhöttur, Síðskeggur,
Sigföður, Hnikuður,



Alföður, Valföður,
Atríður og Farmatýr.
Einu nafni
hétumk aldregi,
sízt eg með fólkum fór.

49. Grímni mig hétu
að Geirröðar,
en Jálk að Ásmundar,
en þá Kjalar,
er eg kjálka dró,
Þrór þingum að,
Viður að vígum,
Óski og Ómi,
Jafnhár og Biflindi,
Göndlir og Hárbarður með
goðum.

49. *kjálki:* sleði; *Hárbarður:* Gráskeggur (sjá Hárbarðsljóð).

50. Sviður og Sviðrir
er eg hét að Sökkmímis,
og duldag þann inn aldna jötun,
þá er eg Miðvitnis vark
ins mæra burar
orðinn einbani.

50. *Sökkmímir* eða Sökmímir er jötunsheiti í Ynglingatali 2; *Miðvitnir* er hvergi nefndur nema hér.

51. Ölur ertu, Geirröður,
hefur þú ofdrukkið;
miklu ertu hnugginn,
er þú ert mínu gengi,
öllum einherjum
og Óðins hylli.

51. *hnugginn:* sviptur; *gengi:* fylgdarlið.

52. Fjöld eg þér sagðag,
en þú fátt um mant:
um þig véla vinir.
Mæki liggja
eg sé míns vinar
allan í dreyra drifinn.

52. *um þig véla vinir:* það er vinur þinn, er þú átt nú skipti við; fleirtala er notuð í stað eintölu; *mæk-ir:* sverð; *dreyri:* blóð.

53. Eggmóðan val
nú mun Yggur hafa,
þitt veit eg líf um liðið,
úfar eru dísir,
nú knáttu Óðin sjá,
nálgastu mig, ef þú megir.

53. *eggmóður:* vopnbit-inn; *Yggur:* Óðinn, sjá Vafþrúðnismál; *úfar eru dísir:* örlagadísirnar eru þér fjandsamlegar.

54. Óðinn eg nú heiti,
Yggur eg áðan hét,
hétumk Þundur fyrir það,
Vakur og Skilfingur,
Váfuður og Hroftatýr,
Gautur og Jálkur með goðum,
Ófnir og Sváfnir,
er eg hygg, að orðnir sé
allir af einum mér."

54. Óðinn telur upp nöfn á sjálfum sér.

Lokaorð. *brugðið:* dregið úr slíðrum.

Geirröður konungur sat og hafði sverð um kné sér og brugðið til miðs. En er hann heyrði, að Óðinn var þar kominn, stóð hann upp og vildi taka Óðin frá eldinum. Sverðið slapp úr hendi honum, vissu hjöltin niður. Konungur drap fæti og steyptist áfram, en sverðið stóð í gegnum hann, og fékk hann bana. Óðinn hvarf þá, en Agnar var þar konungur lengi síðan.





Freyr, sonur Njarðar, hafði setzt í Hliðskjálf og sá um heima alla. Hann sá í Jötunheima og sá þar mey fagra, þá er hún gekk frá skála föður síns til skemmu. Þar af fékk hann hugsóttir miklar. Skírnir hét skósveinn Freys. Njörður bað hann kveðja Frey máls. Þá mælti Skaði:

1. „Rístu nú, Skírnir,
og gakk að beiða
okkarn mála mög
og þess að fregna,
hveim inn fróði sé
ofreiði afi.“

1. *okkarn mög:* Frey. Annars er Freyr talinn sonur Njarðar og systur hans, en aðeins stjúpsonur Skaða; *hveim:* hverjum (gamalt þágufall); *ofreiði:* mjög reiður; *afi:* maður.

*Skírnir kvað:*

2. „Illra orða
er mér von að ykkrum syni,
ef eg geng að mæla við mög
og þess að fregna,
hveim inn fróði sé
ofreiði afi.

3. Segðu það, Freyr,
fólkvaldi goða,
og eg vilja vita:

3. *fólkvaldi:* höfðingi; *einn — sali:* situr einn og þreyir í löngum sal.



Hví þú einn situr
endlanga sali,
minn drottinn, um daga?“

*Freyr kvað:*

4. „Hví um segjag þér,
seggur inn ungi,
mikinn móðtrega?
Því að álfröðull
lýsir um alla daga
og þeygi að mínum munum.“

4. *seggur:* karlmaður; *móðtregi:* hugarangur; *álfröðull:* sól; *þeygi að mínum munum:* þó ekki til að svala þrá minni.

*Skírnir kvað:*

5. „Muni þína
hykk-a eg svo mikla vera,
að þú mér, seggur, né segir,
því að ungir saman
vórum í árdaga,
vel mættim tveir trúast.“

5. *munur:* þrá, ást; *trúast:* sýna hvor öðrum trúnað.

*Freyr kvað:*

6. „Í Gymis görðum
eg sá ganga
mér tíða mey;
armar lýstu,
en af þaðan
allt loft og lögur.

6. *tíður:* kær.

7. Mær er mér tíðari
en manni hveim
ungum í árdaga.
Ása og álfa

7. *ungum:* hér eru orðin *mær var* undirskilin; *maður* er hér haft um æsi og álfa. Talið er líklegt, að hér hafi fallið úr vísa, þar sem Freyr biður

það vill engi maður,
að við samt séim."

Skírni að leggja af stað og biðja meyjarinnar sér til handa.

*Skírnir kvað:*

8. „Mar gefðu mér þá,
þann er mig um myrkvan beri
vísan vafurloga,
og það sverð,
er sjálft vegist
við jötna ætt."

8. *mar:* hestur; *vafurlogi:* flöktandi logi, er menn hugðu um bústaði meyja; *myrkan vísan vafurloga:* blindandi óumflýjanlegan vafurloga; *vegast:* sveifla sér, berjast.

*Freyr kvað:*

9. „Mar eg þér þann gef,
er þig um myrkvan ber
vísan vafurloga,
og það sverð,
er sjálft mun vegast,
ef sá er horskur, er hefir."

9. *horskur:* vitur (hér): hraustur, hugaður.

*Skírnir mælti við hestinn:*

10. „Myrkt er úti,
mál kveð eg okkur fara
úrig fjöll yfir,
þursa þjóð yfir.
Báðir við komumst,
eða okkur báða tekur
sá inn ámáttki jötunn."

10. *úrigur:* votur (af regni eða snjódrífu); *ámáttugur:* mjög sterkur, fjandsamlegur (sjá Völuspá 8); *inn ámáttki jötunn:* Gymir.

Skírnir reið í Jötunheima til Gymisgarða. Þar vóru hundar ólmir og bundnir fyrir skíðgarðs hliði, þess er um sal Gerðar var. Hann reið að þar, er féhirðir sat á haugi, og kvaddi hann:





11. „Segðu það, hirðir,
er þú á haugi situr
og varðar alla vega:
Hve eg að andspilli
komumk ins unga mans
fyr greyjum Gymis?"

11. *varða:* verja, gæta; *andspilli:* samtal; *man:* mær, (hér) Gerður; *grey:* hundur.

*Hirðir kvað:*

12. „Hvort ertu feigur,
eða ertu framgenginn?

– – –

Andspillis vanur
þú skalt æ vera
góðrar meyjar Gymis."

12. *framgenginn:* dauður; *vanur:* sem skortir.

*Skírnir kvað:*

13. „Kostir eru betri
heldur en að klökkva sé,
hveim er fús er fara;
einu dægri
mér var aldur um skapaðr
og allt líf um lagið."

13. *klökkva:* missa kjarkinn; *fara* getur bæði verið eignarfall fleirtölu af för og nafnháttur sagnar; *skapaður:* ákveðinn af örlögunum; *lagið:* fyrirhugað.

*Gerður kvað:*

14. „Hvað er það hlym hlymja,
er eg heyri nú til
ossum rönnum í?
Jörð bifast,
en allir fyrir
skjálfa garðar Gymis."

14. *hlymur:* gnýr, undirgangur; *hlymja* (ef. ft. af hlymur) er skeytt við til áherzlu; *ossum:* vorum (gömul mynd eignarfornafns).

*Ambátt kvað:*

15. „Maður er hér úti,
stiginn af mars baki,
jó lætur til jarðar taka.“

15. *jó — taka:* leiðir hestinn á gras til að bíta.

— — —

*Gerður kvað:*

16. „Inn bið þú hann ganga
í okkarn sal
og drekka inn mæra mjöð.
Þó eg hitt óumk,
að hér úti sé
minn bróðurbani.

16. *óumk:* óttast.

17. Hvað er það álfa
né ása sona
né víssa vana?
Hví þú einn um komt
eikinn fúr yfir
vor salkynni að sjá?“

17. *né — né* er haft í stað *eða,* þegar spyrjandi væntir neitandi svars; *víssa:* vísra, viturra; *eikinn:* ofsafenginn; *fúr:* eldur (hér): vafurloginn.

*Skírnir kvað:*

18. „Emk-at eg álfa
né ása sona
né víssa vana.
Þó eg einn um komk
eikinn fúr yfir
yður salkynni að sjá.

18. *yður* er eignarfornafn.

19. Epli ellefu
hér hefi eg algullin,
þau mun eg þér, Gerður, gefa,

19. *friður:* ást (sjá Hávamál 90).



frið að kaupa,
að þú þér Frey kveðir
óleiðastan lifa.“

*Gerður kvað:*

20. „Epli ellefu
eg þigg aldregi
að mannskis munum,
né við Freyr,
meðan okkart fjör lifir,
byggjum bæði saman.“

20. *að mannskis munum:* að ósk nokkurs manns; *byggjum — saman:* lifum saman í hjúskap.

*Skírnir kvað:*

21. „Baug eg þér þá gef,
þann er brenndur var
með ungum Óðins syni.
Átta eru jafnhöfgir,
er af drjúpa
ina níundu hverja nótt.“

21. Hér er átt við hringinn Draupni, sem Óðinn lagði á líkbál Baldurs (sjá nánar Gylfaginningu 49); *jafnhöfgir:* jafnþungir.

*Gerður kvað:*

22. „Baug eg þigg-a-g,
þótt brenndur sé
með ungum Óðins syni.
Er-a mér gulls vant
í görðum Gymis,
að deila fé föður.“

22. *deila fé föður:* fá hluta af eignum föður síns.

*Skírnir kvað:*

23. „Sér þú þenna mæki, mær,
mjóvan, málfán,
er eg hefi í hendi hér?

23. *mækir:* sverð; *málfár:* skreyttur myndum eða galdrarúnum; *sætt:* sáttmáli.

Höfuð höggva
eg mun þér hálsi af,
nema þú mér sætt segir."

*Gerður kvað:*

24. „Ánauð þola
eg vil aldregi
að mannskis munum.
Þó eg hins get,
ef ið Gymir finnizt
vígs ótrauðir,
að ykkur vega tíði."

24. *tíða:* fýsa (ópersónuleg sögn).

*Skírnir kvað:*

25. „Sér þú þenna mæki, mær,
mjóvan, málfán,
er eg hefi í hendi hér?
Fyr þessum eggjum
hnígur sá inn aldni jötunn,
verður þinn feigur faðir.

26. Tamsvendi eg þig drep,
en eg þig temja mun,
mær, að mínum munum.
Þar skaltu ganga,
er þig gumna synir
síðan æva sjá.

26. *tamsvöndur:* tamningasproti, töfrasproti; *drepa:* ljósta, slá; *æva:* aldrei.

27. Ara þúfu á
skaltu ár sitja,
horfa heimi úr,

27. *ara þúfa:* arnar þúfa, eyðileg þúfa; *ár:* nú þegar; *snugga:* glápa; *fránn:* gljáandi (oft haft um



snugga heljar til;
matur sé þér meir leiður
en manna hveim
inn fráni ormur með firum.

orma, sjá Völuspá 67); *firar:* menn.

28. Að undursjónum þú verðir,
er þú út kemur,
á þig Hrímnir hari,
á þig hotvetna stari,
víðkunnari þú verðir
en vörður með goðum,
gapi þú grindum frá.

28. *undursjón* (hér): athlægi; *Hrímnir* er jötunsheiti; *hara:* góna, glápa; *hotvetna:* sérhvað, allt; *vörður með goðum* getur varla verið annar en Heimdallur, en einkennilegt er að heyra hans getið hér í niðrandi orðræðu; *gapi — frá* sýnir, að Gerður er hugsuð lokuð inni í grindum.

29. Tópi og ópi,
tjösull og óþoli,
vaxi þér tár með trega.
Seztu niður,
en eg mun segja þér
sváran súsbreka
og tvennan trega:

29. *tópi* og *ópi*, *tjösull* og *óþoli* virðast vera nöfn á galdrastöfum, sem valda meini; *svár súsbreki:* þungur sorgarboði (breki: brotsjór).

30. Tramar gneypa
þig skulu gerstan dag
jötna görðum í;
til hrímþursa hallar
þú skalt hverjan dag
kranga kostalaus,
kranga kostavön;
grát að ʒamni
skaltu í gegn hafa
og leiða með tárum trega.

30. *trami:* ill vættur; *gneypa:* beygja, kúga; *gerstur:* illur, erfiður; *kranga:* staulast; *kostalaus* og *kostavön* er sú, sem ekki á kost á neinu, úrræðalaus; *leiða með tárum trega:* fylgja sorg sinni með tárum.

31. *nara:* draga fram lífið; *verlaus:* mannlaus; *þitt geð — morni:* sorg altaki hug þinn og láti þig tærast upp. *Morn* virð-

31. Með þursi þríhöfðuðum
þú skalt æ nara
eða verlaus vera;
þitt geð grípi,
þig morn morni;
ver þú sem þistill,
sá er var þrunginn
í önn ofanverða.

32. Til holts eg gekk
og til hrás viðar
gambantein að geta,
gambantein eg gat.

33. Reiður er þér Óðinn,
reiður er þér Ásabragur,
þig skal Freyr fíast,
in firinilla mær,
en þú fengið hefir
gambanreiði goða.

34. Heyri jötnar,
heyri hrímþursar,
synir Suttunga,
sjálfir ásliðar,
hve eg fyrirbýð,
hve eg fyrirbanna
manna glaum mani,
manna nyt mani.

35. Hrímgrímnir heitir þurs,
er þig hafa skal

ist vera frumlag fyrir báðar sagnirnar. Sögnin að *morna* er oftast áhrifslaus og merkir að rotna, tærast upp, en er hér notuð sem áhrifssögn; *ver þú — ofanverða:* vertu eins og þistill, sem var fergður í lok sláttarins eða uppskerutímans. Línur þessar hafa verið skýrðar í samræmi við sið, sem tíðkazt hefur á Eistlandi: að leggja stóran þistil í gluggakistuna og stein ofan á, þegar fyrsta kornið er sett til þerris. Þetta var gert í því skyni að gera illgresið óskaðlegt (sjá M. o. M. 1909 bls. 21—23).

32. *holt:* skógur; *hrár viður:* ungt tré; *gambanteinn:* galdrasproti. Annars er orðmyndin *gamban* stundum aðeins til áherzlu (sbr. *gambanreiði* í næstu vísu).

33. *Ásabragur* er sennilega Þór; *fíast:* hata; *firinillur:* mjög illur; *gambanreiði:* mikil reiði.

34. *Suttungur* var jötunn (sjá Hávamál 104). Síðustu línurnar í þessari vísu og hinum næstu bera einkenni galdralags (sjá Háttatal 101).

35. *nágrindur:* hlið Heljar; *vílmögur:* erfiðismaður, einkum þræll; *á viðarrótum — gefi.* Til samanburðar við þessar línur hefur verið bent á, að



fyr nágrindur neðan;
þar þér vílmegir
á viðarrótum
geitahland gefi.
Æðri drykkju
fá þú aldregi,
mær, að þínum munum,
mær, að mínum munum.

36. Þurs ríst eg þér
og þrjá stafi,
ergi og æði og óþola;
svo eg það af ríst
sem eg það á reist,
ef gerast þarfar þess."

*Gerður kvað:*

37. „Heill ver þú nú heldur, sveinn,
og tak við hrímkálki
fullum forns mjaðar.
Þó hafðag það ætlað,
að myndag aldregi
unna vaningja vel."

*Skírnir kvað:*

38. „Erindi mín
vil eg öll vita,
áður eg ríða heim héðan,
nær þú á þingi
munt inum þroska[mikla]
nenna Njarðar syni."

tíðkazt hefur sums staðar í Svíþjóð og Noregi, að brúðhjón drykkju brúðkaupsskál sína á trjástofni.

36. 1.—3. lína er upptalning á galdrastöfum. *Þurs* hét rúnastafurinn er merkti *Þ*. Í fornu rúnakvæði stendur: Þurs veldur kvenna kvillu. Orðin *ergi* (kynvilla) og *óþoli* koma fyrir í norsku særingakvæði, skrifuðu með rúnum á seinni hluta 14. aldar (sjá Skírni 1965, bls. 34—36).

37. *hrímkálkur:* glerbikar (nefndur svo vegna líkingar glers og hríms); *vaningi:* af ætt vana.

38. *á þingi* merkir hér sennilega: á ástafundi; *nenna Njarðar syni:* láta að vilja Njarðar sonar.

39. Nafnið *Barri* skýrir Magnus Olsen með hliðsjón af orðinu *barr:* korn. Hann hyggur, að hjónaband Freys (árguðsins) og Gerðar (gyðju akurgerðisins) tákni frjómagn vorsins. Þess vegna hittast þau við lundinn Barra: á kornakrinum. Máli sínu til stuðnings bendir hann á 27 gullspjöld, sem fundizt hafa í jörð í Noregi og bera öll mynd af karli og konu, og á sumum myndunum heldur konan á trjágrein. Hyggur Olsen, að myndir þessar séu

*Gerður kvað:*

39. „Barri heitir,
er við bæði vitum,
lundur lognfara;
en eft nætur níu
þar mun Njarðar syni
Gerður unna gamans.“

fórnargjafir til árgoðanna og hafi þær verið grafnar niður í jarðveginn til að efla frjósemi akranna og eigi ef til vill að sýna Frey og Gerði, þegar þau hittast við lundinn Barra (M. o. M. 1909 bls. 17—36); *lognfara:* lygn, friðsæll.

Þá reið Skírnir heim. Freyr stóð úti og kvaddi hann og spurði tíðinda:

40. „Segðu mér það, Skírnir,
áður þú verpir söðli af mar
og þú stígir feti framar:
Hvað þú árnaðir
í Jötunheima
þíns eða míns munar?“

40. *hvað þú árnaðir þíns eða míns munar:* hversu þú komst til leiðar óskum mínum og þínum.

*Skírnir kvað:*

41. „Barri heitir
er við báðir vitum,
lundur lognfara;
en eft nætur níu
þar mun Njarðar syni
Gerður unna gamans.“

*Freyr kvað:*

42. „Löng er nótt,
langar eru tvær,
hve um þreyjag þrjár?
Oft mér mánuður
minni þótti
en sjá hálf hýnótt.“

42. *sjá:* sú (áfn.); *hýnótt* er sennilega nóttin (eða næturnar), sem maður mátti ekki hafa hjúskaparfar við brúði sína.



# Hárbarðsljóð

Þór fór úr Austurvegi og kom að sundi einu. Öðrum megin sundsins var ferjukarlinn með skipið. Þór kallaði:

1. „Hver er sá sveinn sveina,
er stendur fyr sundið handan?"

1. *sveinn sveina* og *karl karla* er hvorttveggja sagt til háðungar.

*Ferjukarlinn svaraði:*

2. „Hver er sá karl karla,
er kallar um voginn?"

2. *um voginn:* um sundið.

*Þór kvað:*

3. „Fer þú mig um sundið,
fæði eg þig á morgun;
meis hefi eg á baki,
verður-a maturinn betri;
át eg í hvíld,
áður eg heiman fór,
síldur og hafra;
saður em eg enn þess."

3. *fer,* bh. af að ferja; *fæði eg þig á morgun;* hér býður Þór ferjukarlinum laun fyrir flutninginn; *meis;* í honum geymdi hann mat sinn; *hafrar* geta verið hvort sem er geithafrar Þórs eða korntegundin hafrar; *saður:* saddur.

*Ferjukarlinn kvað:*

4. „Árlegum verkum
hrósar þú, verðinum;
veizt-at-tu fyrir gerla,
döpur eru þín heimkynni:
dauð, hygg eg, að þín móðir sé."

4. *árlegum verkum:* morgunverðinum; *veizt-at-tu fyrir:* þú veizt ekki, hvað hefur gerzt.



*Þór kvað:*

5. „Það segir þú nú,
er hverjum þykir
mest að vita,
að mín móðir dauð sé."

*Ferjukarlinn kvað:*

6. „Þeygi er sem þú
þrjú bú góð eigir;
berbeinn þú stendur
og hefir brautingja gervi,
þaðgi, að þú hafir brækur þínar."

6. *þeygi:* ekki; *berbeinn:* berfættur eða með bera fótleggi; *brautingi:* förukarl; *þaðgi:* ekki svo vel.

*Þór kvað:*

7. „Stýrðu hingað eikjunni,
eg mun þér stöðna kenna,
eða hver á skipið,
er þú heldur við landið?"

7. *eikja:* bátur (úr eik); *stöð:* staður, (hér) lendingarstaður; *eg mun þér stöðna (stöðina) kenna:* ég mun vísa þér á lendingarstaðinn.

*Ferjukarlinn kvað:*

8. „Hildólfur sá heitir,
er mig halda bað,
rekkur inn ráðsvinni,
er býr í Ráðseyjarsundi;
bað-at hann hlennimenn flytja
eða hrossaþjófa,
góða eina
og þá, er eg görva kunna;
segðu til nafns þíns,
ef þú vilt um sundið fara!"

8. *rekkur:* maður; *ráðsvinnur:* ráðsnjallur; *hlennimenn:* þjófar; *er eg görva kunna:* sem ég þekki vel.

*Þór kvað:*

9. „Segja mun eg til nafns míns,
þótt eg sekur séag,
og til alls eðlis:
Eg em Óðins sonur,
Meila bróðir,
en Magna faðir,
þrúðvaldur goða,
við Þór knáttu hér dæma.
Hins vil eg nú spyrja,
hvað þú heitir."

9. *sekur*, þ. e. í drápi jötna. Þór heldur, að ferjukarlinn sé jötunn; *eðli:* ætterni; *þrúðvaldur:* sem ræður yfir krafti; *knega* (hjálparsögn): geta, gera; *dæma:* tala.

*Ferjukarlinn kvað:*

10. „Hárbarður eg heiti,
hyl eg um nafn sjaldan."

10. *Hárbarður:* Gráskeggur, eitt af nöfnum Óðins.

*Þór kvað:*

11. „Hvað skaltu um nafn hylja,
nema þú sakar eigir?"

*Hárbarður kvað:*

12. „En þótt eg sakar eiga,
þá mun eg forða fjörvi mínu
fyr slíkum sem þú ert,
nema eg feigur sé."

12. *fjör:* líf.

*Þór kvað:*

13. „Harm ljótan
mér þykir í því
að vaða um voginn til þín
og væta ögur minn;
skylda eg launa

13. *harm ljótan mér þykir:* það er ljótt að þurfa; *ögur:* (merking óviss, líklega) klof, kríkar; *kögursveinn:* sveinstauli (eiginlega reifabarn); *kanginyrði:* háðsyrði.



kögursveini þínum
kanginyrði,
ef eg komumk yfir sundið."

*Hárbarður kvað:*

14. „Hér mun eg standa
og þín héðan bíða;
fannt-a þú mann inn harðara
að Hrungni dauðan."

14. *Hrungnir* var jötunn (sjá Skáldskaparmál 24).

*Þór kvað:*

15. „Hins viltu nú geta,
er við Hrungnir deildum,
sá inn stórúðgi jötunn,
er úr steini var höfuðið á;
þó lét eg hann falla
og fyrir hníga.
Hvað vanntu þá meðan,
Hárbarður?"

15. Í þessari vísu hefst mannjafnaðurinn milli Þórs og Hárbarðs (Óðins); *er við Hrungnir deildum.* Sagan um viðureign Þórs og Hrungnis er alkunn (sjá Skáldskaparmál 24).

*Hárbarður kvað:*

16. „Var eg með Fjölvari
fimm vetur alla
í ey þeirri,
er Algræn heitir.
Vega vér þar knáttum
og vel fella,
margs að freista,
mans að kosta."

16. *Fjölvar* er annars ókunnur; *mans að kosta:* reyna konur, reyna ástir kvenna (man er hér heildstætt).

*Þór kvað:*

17. „Hversu snúnuðu yður konur
yðrar?"

17. *snúnuðu:* heppnuðust.

*Hárbarður kvað:*

18. „Sparkar áttum vér konur,
ef oss að spökum yrði;
horskar áttum vér konur,
ef oss hollar væri.
Þær úr sandi
síma undu
og úr dali djúpum
grund um grófu;
varð eg þeim einn öllum
efri að ráðum;
hvílda eg hjá þeim systrum sjö,
og hafða eg geð þeirra allt og
gaman.
Hvað vanntu þá meðan, Þór?“

*Þór kvað:*

19. „Eg drap Þjaza,
inn þrúðmóðga jötun,
upp eg varp augum
Allvalda sonar
á þann inn heiða himin.
Þau eru merki mest
minna verka,
þau er allir menn síðan um sjá.
Hvað vanntu meðan, Hárbarður?“

*Hárbarður kvað:*

20. „Miklar manvélar
eg hafða við myrkriður,
þá er eg vélta þær frá verum.
Harðan jötun

18. *sparkur:* fjörugur; *spakur* getur bæði verið vitur og friðsamur eða hollur, og er síðasta merkingin eðlilegust hér; *horskur:* vitur; *síma:* þráður, taug.

19. *þrúðmóðugur:* sterkhugaður, kröftugur; *upp — himin,* augun urðu að stjörnum. Sögnin um dráp Þjaza er alkunn (sjá Skáldskaparmál 2—4).

20. *manvél:* bragð til að ná ástum kvenna, ástarbrella; *myrkriða:* galdranorn, sem ríður í loftinu í myrkri; *véla frá verum:* tæla frá eiginmönnum; *Hlébarður* er hvergi nefnd-



eg hugða Hlébarð vera,
gaf hann mér gambantein,
en eg vélta hann úr viti.“

*Þór kvað:*

21. „Illum huga
launaðir þú þá góðar gjafar.“

*Hárbarður kvað:*

22. „Það hefir eik,
er af annarri skefur;
um sig er hver í slíku.
Hvað vanntu meðan, Þór?“

*Þór kvað:*

23. „Eg var austur
og jötna barðag
brúðir bölvísar,
er til bjargs gengu.
Mikil myndi ætt jötna,
ef allir lifði,
vætur myndi manna
undir Miðgarði.
Hvað vanntu meðan, Hárbarður?“

*Hárbarður kvað:*

24. „Var eg á Vallandi
og vígum fylgdag,
atta eg jöfrum,
en aldrei sættag.
Óðinn á jarla,
þá er í val falla,
en Þór á þræla kyn.“

ur annars staðar; *gambanteinn:* töfrasproti; *véla úr viti:* svipta viti með brögðum.

22. *Það hefir eik, er af annarri skefur* er myndhverft orðtak, haft um menn, sem hagnast á öðrum; *skefur* er hér sennilega ópersónulegt, því að varla er hægt að hugsa sér *eik* sem frumlag fyrir sögnina *að skafa; um sig er hver í slíku:* hver er sjálfum sér næstur.

23. *austur:* í austurvegi, þar sem jötnar bjuggu; *brúðir bölvísar:* illgjarnar (jötna)meyjar; *til bjargs;* jötnar áttu heima í fjöllunum; *mikil — Miðgarði* vísar til þess, að það er að þakka baráttu Þórs við jötna, að þeir hafa ekki þegar lagt Miðgarð í eyði (um Miðgarð sjá Völuspá 4 og Grímnismál 41).

24. *Valland* merkir venjulega Frakkland, en sumir skýrendur vilja taka nafnið hér í táknrænni merkingu: vígaland, sbr. Valhöll; *jöfur:* konungur; *Óðinn — þrælakyn* vísar til þess, að Óðinn var mest tignaður af höfðingjum, en Þór af alþýðu.

*Þór kvað:*

25. „Ójafnt skipta
er þú myndir með ásum liði,
ef þú ættir vilgi mikils vald."

25. *vilgi:* mjög.

*Hárbarður kvað:*

26. „Þór á afl ærið,
en ekki hjarta;
af hræðslu og hugbleyði
þér var í hanzka troðið,
og þóttist-a þú þá Þór vera.
Hvorki þú þá þorðir
fyr hræðslu þinni
hnjósa né físa,
svo að Fjalar heyrði."

26. *hjarta* er hér tákn hugrekkis; *var þér í hanzka troðið;* þetta á við söguna um ferð Þórs til Útgarða-Loka, er hann leitaði hælis í hanzka jötunsins; *hnjósa:* hnerra; *físa:* leysa vind; *Fjalar* (Skrýmir hjá Snorra): dulnefni Útgarða-Loka.

*Þór kvað:*

27. „Hárbarður inn ragi,
eg mynda þig í hel drepa,
ef eg mætta seilast um sund."

27. *drepa:* slá, berja.

*Hárbarður kvað:*

28. „Hvað skyldir þú um sund seilast,
er sakar eru alls öngar?
Hvað vanntu þá, Þór?"

*Þór kvað:*

29. „Eg var austur
og ána varðag,
þá er mig sóttu
þeir Svárangs synir.
Grjóti þeir mig börðu,

29. *Svárangur* er greinilega jötunn, en er annars ókunnur.



gagni urðu þeir þó lítt fegnir,
þó urðu þeir mig fyrri
friðar að biðja.
Hvað vanntu þá meðan,
Hárbarður?"

*Hárbarður kvað:*

30. „Eg var austur
og við einherju dæmdag,
lék eg við ina línhvítu
og launþing háðag,
gladdag ina gullbjörtu,
gamni mær undi."

30. *einherja* (kvenkyn af einheri): valkyrja; *dæma:* tala.

*Þór kvað:*

31. „Góð áttu þér mankynni þar þá."

31. *mankynni:* kunningsskapur við meyjar.

*Hárbarður kvað:*

32. „Liðs þíns
væra eg þá þurfi, Þór,
að eg hélda þeirri inni línhvítu
mey."

32. Vísan virðist benda til þess, að Hárbarður þykist þurfa á liðstyrk Þórs að halda til þess að geta haft meyna á valdi sínu framvegis.

*Þór kvað:*

33. „Eg mynda þér þá það veita,
ef eg viður um kæmist."

33. Þór segist munu veita honum það, ef hann geti komið því við.

*Hárbarður kvað:*

34. „Eg mynda þér þá trúa,
nema þú mig í tryggð véltir."

*Þór kvað:*

35. „Emk-at eg sá hælbítur
sem húðskór forn á vor."

35. *húðskór:* skorpinn skór úr skinni með hárinu á, sem nagar og særir hælinn.

*Hárbarður kvað:*

36. „Hvað vanntu meðan, Þór?“

*Þór kvað:*

37. „Brúðir berserkja
barðag í Hléseyju.
Þær höfðu verst unnið,
vélta þjóð alla.

*Hárbarður kvað:*

38. „Klæki vanntu þá, Þór,
er þú á konum barðir.“

38. *klæki:* skammarverk.

*Þór kvað:*

39. „Vargynjur vóru þær,
en varla konur,
skelldu skip mitt,
er eg skorðað hafðag,
ægðu mér járnlurki,
en eltu Þjálfa.
Hvað vanntu meðan,
Hárbarður?“

39. *vargynja:* ylgur; þetta orðalag um *brúðir berserkja* (37. vísa) á ef til vill rót sína að rekja til þeirrar trúar, að berserkir geti breytt sér í birni og úlfa (sbr. orðin berserkur og úlfhéðinn); *skella:* velta (áhrifssögn) og eyðileggja; *Þjálfi* var þjónustusveinn Þórs.

*Hárbarður kvað:*

40. „Eg vark í hernum,
er hingað gerðist
gnæfa gunnfána
geir að rjóða.“

40. *í hernum;* óvíst er við hvað hér er átt, ef til vill lið einherja, sem fylgdi Óðni; *gerðist:* lagði af stað; *gnæfa* virðist hér vera áhrifssögn.

*Þór kvað:*

41. „Þess viltu nú geta,
er þú fórt oss óljúfan að bjóða.“



*Hárbarður kvað:*

42. „Bæta skal þér það þá
munda baugi,
sem jafnendur unnu,
þeir er okkur vilja sætta.“

42. *munda baugur:* hringur, sem hafður var á hendinni (hringir voru oft hafðir til gjafa og bóta); *jafnendur:* sættendur; *unnu:* mátu.

*Þór kvað:*

43. „Hvar namtu þessi
in hnæfilegu orð,
er eg heyrða aldregi
hnæfilegri?“

43. *hnæfilegur:* bitur, móðgandi; erfitt er að sjá, hvers vegna Þór reiðist af þessum orðum.

*Hárbarður kvað:*

44. „Nam eg að mönnum
þeim inum aldrænum,
er búa í heimis haugum.“

44. *aldrænn:* gamall; *heimis haugum* er leiðrétting fyrir *heimis skógum.* Orðið *dysjum* í næstu vísu rennir föstum stoðum undir þessa leiðréttingu. *Heimis haugar:* haugar heima við bæi.

*Þór kvað:*

45. „Þó gefur þú gott nafn dysjum,
er þú kallar það heimis hauga.“

45. *hauga* er leiðrétting fyrir skóga.

*Hárbarður kvað:*

46. „Svo dæmi eg um slíkt far.“

46. *far:* hátterni, ástand.

*Þór kvað:*

47. „Orðkringi þín
mun þér illa koma,
ef eg ræð á vog að vaða;
úlfi hærra
hygg eg að þú æpa mynir,
ef þú hlýtur af hamri högg.“

47. *orðkringi:* mælska, hnyttni í orðum.

*Hárbarður kvað:*

48. „Sif á hó heima,
hans muntu fund vilja,
þann muntu þrek drýgja,
það er þér skyldara.“

48. *hór:* friðill; *þrekur:* þrekraun.

*Þór kvað:*

49. „Mælir þú að munns ráði,
svo að mér skyldi verst þykja,
halur inn hugblauði,
hygg eg, að þú ljúgir.“

49. *að munns ráði:* hugsunarlaust.

*Hárbarður kvað:*

50. „Satt hygg eg mig segja;
seinn ertu að för þinni;
langt myndir þú nú kominn, Þór,
ef þú litum færir.“

50. *fara litum:* fara dagfari og náttfari.

*Þór kvað:*

51. „Hárbarður inn ragi,
heldur hefir þú nú mig dvaldan.“

*Hárbarður kvað:*

52. „Ása-Þór hugða eg
aldregi mundu
glepja féhirði farar.“

52. *féhirðir:* fjárhirðir. Gizkað hefur verið á, að féhirðir sé misritun fyrir *farhirðir:* ferjumaður; *glepja farar:* trufla ferðir.

*Þór kvað:*

53. „Ráð mun eg þér nú ráða:
ró þú hingað bátinum,
hættum hætingi,
hittu föður Magna.“

53. *hætingur:* hótun, skætingur; *faðir Magna:* Þór.



*Hárbarður kvað:*

54. „Farðu firr sundi,
þér skal fars synja.“

54. *firr sundi:* lengra frá sundinu.

*Þór kvað:*

55. „Vísa þú mér nú leiðina,
alls þú vilt mig eigi um voginn
ferja.“

*Hárbarður kvað:*

56. „Lítið er að synja;
langt er að fara:
stund er til stokksins,
önnur til steinsins,
haltu svo til vinstra vegsins,
unz þú hittir Verland;
þar mun Fjörgyn
hitta Þór, son sinn,
og mun hún kenna honum
áttunga brautir
til Óðins landa.“

56. *stund* er ákveðin vegalengd, miðuð við þann tíma, sem tekur að ganga hana; *stokkur:* trébrú; *steinn:* klettur, sem hafður var fyrir kennileiti; *Verland* er táknrænt nafn um þann hluta jarðarinnar, sem byggður er mönnum; *Fjörgyn,* annað nafn á Jörð, móður Þórs; *áttungar:* ættingjar, hér ættingjar Þórs: æsir; 10. lína. Hér nefnir Hárbarður fyrst nafn Óðins, og þótt hann segi hvergi beinlínis, að hann sé Óðinn, er augljóst af öllum orðaskiptunum, að svo er.

*Þór kvað:*

57. „Mun eg taka þangað í dag?“

*Hárbarður kvað:*

58. „Taka við víl og erfiði,
að uppverandi sólu
er eg get þána.“

58. *víl:* erfiði og þrautir; *þána:* þiðna (og þá versnar færðin).

*Þór kvað:*

59. „Skammt mun nú mál okkart
vera,
alls þú mér skætingu einni svarar.

Launa mun eg þér farsynjun,
ef við finnumst í sinn annað.“

*Hárbarður kvað:*

60. „Farðu nú,
þar er þig hafi allan gramir.“

60. er blótsyrði; *gramur:* reiður.



# Hymiskviða

1. Ár valtívar
veiðar námu
og sumblsamir,
áður saðir yrði.
hristu teina
og á hlaut sáu;
fundu þeir að Ægis
örkost hvera.

2. Sat bergbúi
barnteitur fyrir
mjög glíkur megi
Miskurblinda.
Leit í augu
Yggs barn í þrá:
„Þú skalt ásum
oft sumbl gera.“

3. Önn fékk jötni
orðbæginn halur,
hugði að hefndum
hann næst við goð,
bað hann Sifjar ver
sér færa hver, –
„þann er eg öllum öl
yður um heita“.

1. *ár:* fyrir löngu; *valtívar:* hergoð, æsir; *námu:* fengu; *sumblsamir:* drykkfelldir; *saðir:* saddir; *teinar:* hlautteinar, vendir, sem hafðir voru til að dreifa fórnarblóði; *og á hlaut* (fórnarblóð) *sáu;* blóð var stundum notað til spásagna meðal germanskra þjóða; *örkostur hvera:* gnægð katla (upphafleg merking orðsins hver er ketill).

2. *bergbúi:* jötunn, (hér) Ægir, helzt er hægt að hugsa sér, að hann hafi búið í berghelli niðri við sjó; *barnteitur:* glaður eins og barn; *Miskurblindi,* merking óvís; *Yggs barn:* sonur Óðins: Þór; *í þrá:* þrjózkulega.

3. *önn:* áhyggja; *orðbæginn:* meinyrtur; *Sifjar ver:* eiginmaður Sifjar: Þór; *þann — heita:* sem ég geti hitað í öl handa ykkur öllum.



4. Né það máttu
mærir tívar
og ginnregin
um geta hvergi,
unz af tryggðum
Týr Hlórriða
ástráð mikið
einum sagði:

5. „Býr fyr austan
Élivoga
hundvís Hymir
að himins enda;
á minn faðir
móðugur ketil,
rúmbrugðinn hver,
rastar djúpan.“

*Þór kvað:*

6. „Veiztu, ef þiggjum
þann lögvelli?“

*Týr kvað:*

„Ef, vinur, vélar
við gerum til.“

7. Fóru drjúgum
dag þann fram
Ásgarði frá,
unz til Egils kómu;

4. *mærir tívar og ginnregin* merkir hvorttveggja goðin; *Hlórriði:* Þór; *ástráð:* vinarráð, heilræði.

5. *Élivogar,* sjá Vafþrúðnismál 31; *hundvís:* mjög vitur; *minn faðir;* hér kallar Týr Hymi jötun föður sinn, og er það í mótsögn við aðrar heimildir, sem telja Tý son Óðins og alls ekki af jötna kyni. Bent hefur verið á, að Loki sómdi sér miklu betur í hlutverki Týs í þessari frásögn, enda var hann jötnaættar og oft fylgdarmaður Þórs. Þá verða og skiljanleg ummælin um Loka í 37. vísu, sem annars koma eins og skollinn úr sauðarleggnum. Orðið *týr* er einnig samnafn, sem merkir *guð,* en varla er leyfilegt að gera ráð fyrir því, að það sé hér aftur og aftur notað um Loka; *móðugur:* hugrakkur; *rúmbrugðinn:* rúmur, víður; *röst* er ókunn vegalengd.

6. *lögvellir:* heituketill, ölketill; *ef — til* (undirskilið: við þiggjum hann): vinur, ef við beitum brögðum.

7. *drjúgum* (skrefum): rösklega; *Egill* er sennilega faðir Þjálfa og Rösku, þótt nafn hans sé ekki nefnt í sögunni um för Þórs til Útgarða-Loka.

hirði hann hafra
horngöfgasta,
hurfu að höllu,
er Hymir átti.

8. Mögur fann ömmu
mjög leiða sér,
hafði höfða
hundruð níu,
en önnur gekk
algullin fram
brúnhvít bera
bjórveig syni:

9. „Áttniður jötna,
eg viljag ykkur
hugfulla tvo
und hvera setja;
er minn fríi
mörgu sinni
glöggur við gesti,
gör ills hugar.“

10. En váskapaður
varð síðbúinn
harðráður Hymir
heim af veiðum;
gekk inn í sal,
glumdu jöklar,
var karls, er kom,
kinnskógur frerinn.

8. *mögur:* sonur; hér mun átt við Tý; *algullin:* gulli skrýdd.

9. *áttniður jötna:* afkomandi jötna: Týr; *fríi:* elskhugi, eiginmaður; *glöggur:* nízkur; *gör:* tilbúinn.

10. *váskapaður:* sem skapar mein; *kinnskógur:* skegg.



*Frilla kvað:*

11. „Ver þú heill, Hymir,
í hugum góðum,
nú er sonur kominn
til sala þinna,
sá er við væntum
af vegi löngum.
Fylgir honum
hróðurs andskoti,
vinur verliða;
Véur heitir sá.

12. Sjáðu hvar sitja
und salar gafli,
svo forða sér,
stendur súl fyrir.“
Sundur stökk súla
fyr sjón jötuns,
en áður í tvö
ás brotnaði.

13. Stukku átta,
en einn af þeim
hver harðsleginn
heill af þolli.
Fram gengu þeir,
en forn jötunn
sjónum leiddi
sinn andskota.

14. Sagði-t honum
hugur vel þá,

11. *hróðurs* (frægðar) *andskoti:* frægur andstæðingur (jötna); *vinur verliða* (manna): Þór; *Véur;* hér mun átt við Þór, sem bæði var nefndur Miðgarðs véur og Harðvéur.

12. *ás:* þverás, festur við súluna; (á hann virðast katlarnir hafa verið hengdir).

13. *átta,* undirskilið hverar (katlar); *þollur:* furutré (hér): ás.

14. *gýgjar grætir:* harmvaldur tröllkvenna: Þór; *þjór:* naut; *senn:* þegar í stað.

er hann sá gýgjar græti
á gólf kominn.
Þar vóru þjórar
þrír um teknir,
bað senn jötunn
sjóða ganga.

15. Hvern létu þeir
höfði skemmra
og á seyði
síðan báru.
Át Sifjar ver,
áður sofa gengi,
einn með öllu
öxn tvö Hymis.

16. Þótti hárum
Hrungnis spjalla
verður Hlórriða
vel fullmikill:
„Munum að aftni
öðrum verða
við veiðimat
vér þrír lifa.“

17. Véur kvaðst vilja
á vog róa,
ef ballur jötunn
beitur gæfi.

*Hymir kvað:*

„Hverfðu til hjarðar,
ef þú hug trúir,

15. *seyðir:* hola lögð innan steinum, sem voru hitaðir með eldi; *öxn,* ft. af *oxi:* uxi.

16. *hár:* gráhærður; *Hrungnis spjalli* (vinur): jötunn.

17. *ballur:* hraustur, sterkur; *brjótur berg-Dana* (jötna): Þór.



brjótur berg-Dana,
beitur sækja.

18. Þess vænti eg,
að þér myni
ögn af oxa
auðfeng vera.“
Sveinn sýslega
sveif til skógar,
þar er uxi stóð
alsvartur fyrir.

19. Braut af þjóri
þurs ráðbani
hátún ofan
horna tveggja.

*Hymir kvað:*

„Verk þykja þín
verri miklu
kjóla valdi
en þú kyrr sitjir.“

20. Bað hlunngota
hafra drottinn
áttrunn apa
utar færa;
en sá jötunn
sína taldi
litla fýsi
að róa lengra.

18. *ögn:* beitur; *sveinn,* hér er átt við Þór; *sýslega:* skjótt.

19. *þurs* (ef.) *ráðbani:* Þór; *hátún horna tveggja:* höfuð; *kjóla valdur:* skipstjórnarmaður; hér hlýtur að vera átt við Hymi.

20. *hlunngoti:* hlunna hestur: skip; *hafra drottinn:* Þór; *áttrunnur apa:* ættingi jötna: jötunn.

21. Dró mær Hymir
móðugur hvali,
einn á öngli,
upp senn tvo,
en aftur í skut
Óðni sifjaður
Véur við vélar
vað gerði sér.

21. *mær:* frægur; *Óðni sifjaður:* skyldur Óðni: Þór; *við vélar:* með snilli.

22. Egndi á öngul,
sá er öldum bergur,
orms einbani
uxa höfði.
Gein við agni,
sú er goð fjá,
umgjörð neðan
allra landa.

22. *sá er öldum bergur:* sá, sem bjargar mönnum: Þór; *orms einbani:* banamaður Miðgarðsorms: Þór (Þór drepur orminn í ragnarökum); *fjá:* hata; *umgjörð allra landa:* Miðgarðsormur (sem hringar sig umhverfis jörðina).

23. Dró djarflega
dáðrakkur Þór
orm eiturfán
upp að borði,
hamri kníði
háfjall skarar
ofljótt ofan
úlfs hnitbróður.

23. *eiturfár:* gljáandi af eitri; *kníði,* þátíð af knýja: slá; *háfjall skarar:* höfuð (*skör:* skorið hár); *úlfs hnitbróðir:* albróðir Fenrisúlfs: Miðgarðsormur.

24. Hreingálkn hlumdu,
en hölkn þutu,
fór in forna
fold öll saman;
sökktist síðan
sá fiskur í mar.

24. *hreingálkn;* merking óviss. Hreingálkn geta helzt verið úlfar (óvinir hreindýra), en það getur ekki átt við hér á hafi úti. Þess vegna hafa sumir skýrendur komið með breytingartillögur: *hraungálkn:* jötnar og *hranngálkn:* sæskrímsli; *hlumdu* af *hlymja:* dynja, gera hark; *hölkn* (ft.): flatt berg, *hölkn þutu:* það dundi í klettunum; *sá fiskur:* hér er átt við Miðgarðsorm.



25. Óteitur jötunn,
er þeir aftur reru,
svo að ár Hymir
ekki mælti,
veifði hann ræði
veðurs annars til.

25. *óteitur:* ókátur; *aftur:* aftur til lands; *að ár:* við árina; *ræði:* ár; *veðurs annars til:* í gagnstæða átt (af því að hann vildi breyta um stefnu).

*Hymir kvað:*

26. „Muntu um vinna
verk hálft við mig,
að þú heim hvali
haf til bæjar
eða flotbrúsa
festir okkarn?“

26. *flotbrúsi:* skip (brúsi: geithafur).

27. Gekk Hlórriði,
greip á stafni
vatt með austri
upp lögfáki,
einn með árum
og með austskotu
bar hann til bæjar
brimsvín jötuns
og holtriða
hver í gegnum.

27. *vatt — lögfáki:* setti skipið upp með öllum sænum, þeim sem í var; *lögfákur:* sævar hestur: skip; *austskota:* austurstrog; *brimsvín* hafa sumir skýrendur talið þf. et.: skip, en aðrir þf. ft.: hvali; *holtriða hver,* merking óviss. Skýrendur hafa helzt gizkað á, að *holtrið* væri skógi vaxin hæð og *holtriða hver:* gjá milli skógi vaxinna hæða.

28. Og enn jötunn
um afrendi,

28. *afrendi* (af afur: sterkur, og hönd): afl; *kálkur:* bikar.

þrágirni vanur,
við Þór sennti,
kvað-at mann ramman,
þótt róa kynni
kröfturlegan,
nema kálk bryti.

29. En Hlórriði,
er að höndum kom,
brátt lét bresta
brattstein gleri;
sló hann sitjandi
súlur í gegnum,
báru þó heilan
fyr Hymi síðan.

29. *lét bresta brattstein gleri:* braut steinsúlu (brattstein) með gleri (bikarnum).

30. Unz það in fríða
frilla kenndi
ástráð mikið,
eitt er vissi:
„Drep við haus Hymis,
hann er harðari
kostmóðs jötuns
kálki hverjum."

30. *kostmóður:* þreyttur af áti.

31. Harður reis á kné
hafra drottinn,
færðist allra
í ásmegin;
heill var karli
hjálmstofn ofan,

31. *allra:* fullkomlega; *hjálmstofn:* höfuð; *vínferill:* bikar; *valur:* sívalur.



en vínferill
valur rifnaði.

32. „Mörg veit eg mæti
mér gengin frá,
er eg kálki sé
úr knjám hrundið;"
karl orð um kvað:
„knákat eg segja
aftur ævagi,
þú ert, öldur, um heitt.

32. *mæti* (hk. ft.): dýrgripir; *knákat — ævagi:* ég get aldrei oftar sagt; *öldur:* öl; *heitt:* lh. þt. af *heita:* hita, brugga.

33. Það er til kostar,
ef koma mættið
út úr óru
ölkjól hofi."
Týr leitaði
tvisvar hræra;
stóð að hvoru
hver kyrr fyrir.

33. *það er til kostar:* það skilyrði er sett; 2.—4. línu má taka saman: *ef koma mættið ölkjól* (katli) *út úr óru* (voru) *hofi* (hér: bústað).

34. Faðir Móða
fékk á þremi
og í gegnum steig
gólf niður í sal;
hóf sér á höfuð upp
hver Sifjar ver,
en á hælum
hringar skullu.

34. *faðir Móða:* Þór; *fékk á:* tók á; *þremi,* þgf. af *þrömur:* barmur, brún; *hringar:* hringar, sem voru á katlinum fyrir handarhöld.

35. Fóru-t lengi,
áður líta nam

35. *hreysi:* hraunhola, hraunhellir; *fólkdrótt* (liðsveit) *fjölhöfðuð:* jötnar.

aftur Óðins sonur
einu sinni;
sá hann úr hreysum
með Hymi austan
fólkdrótt fara
fjölhöfðaða.

36. Hóf hann sér af herðum
hver standanda,
veifði hann Mjöllni
morðgjörnum fram,
og hraunhvala
hann alla drap.

36. *hraunhvalur:* jötunn.

37. Fóru-t lengi,
áður liggja nam
hafur Hlórriða
hálfdauður fyrir.
Var skær skökuls
skakkur á beini,
en því inn lævísi
Loki um olli.

37. *skær* er leiðrétting fyrir *skirr,* sem er óskiljanlegt; *skær* (hestur) *skökuls* (vagnstangar): dráttardýr, hér haft um hafra Þórs; 7.—8. lína, sjá skýringu við 5. vísu.

38. En ér heyrt hafið, –
hver kann um það
goðmálugra
gerr að skilja? –
hver af hraunbúa
hann laun um fékk,
er hann bæði galt
börn sín fyrir.

38. *goðmálugur:* fróður um goð; *skilja:* skýra; *hraunbúi* hlýtur að vera Egill, er lét börn sín, Þjálfa og Rösku af hendi við Þór.



39. Þróttöflugur kom
á þing goða
og hafði hver,
þann er Hymir átti;
en véar hverjan
vel skulu drekka
öldur að Ægis
eiturhörmeitið.

39. *þróttöflugur:* mjög sterkur eða voldugur; *véar,* ft. af *véur:* goð; *eiturhörmeitið* er leiðrétting fyrir *eitt hörmeitið; eiturhör:* ormur; *meitiður:* sem sker (af *meita:* skera); *eiturhörmeitiður* er þá ormabani, en það er algeng kenning á vetri.

*Frá Ægi og goðum.*

Ægir, er öðru nafni hét Gymir, hann hafði búið ásum öl, þá er hann hafði fengið ketil inn mikla, sem nú er sagt. Til þeirrar veizlu kom Óðinn og Frigg, kona hans. Þór kom eigi, því að hann var í austurvegi. Sif var þar, kona Þórs, Bragi og Iðunn, kona hans. Týr var þar. Hann var einhendur, — Fenrisúlfur sleit hönd af honum, þá er hann var bundinn. Þar var Njörður og kona hans Skaði, Freyr og Freyja, Víðar, son Óðins. Loki var þar og þjónustumenn Freys, Byggvir og Beyla. Margt var þar ása og álfa. Ægir átti tvo þjónustumenn, Fimafengur og Eldir. Þar var lýsigull haft fyrir elds ljós. Sjálft barst þar öl. Þar var griðastaður mikill. Menn lofuðu mjög, hversu góðir þjónustumenn Ægis vóru. Loki mátti eigi heyra það, og drap hann Fimafeng. Þá skóku æsir skjöldu sína og æptu að Loka og eltu hann braut til skógar, en þeir fóru að drekka. Loki hvarf aftur og hitti úti Eldi. Loki kvaddi hann:

1. „Segðu það, Eldir,
svo að þú einugi
feti gangir framar,
hvað hér inni
hafa að ölmálum
sigtíva synir."

1. *einugi:* ekki einu, engu; *sigtívar:* hergoð.





*Eldir kvað:*

2. „Um vopn sín dæma
og um vígrisni sína
sigtíva synir.
Ása og álfa,
er hér inni eru,
manngi er þér í orði vinur."

2. *dæma:* tala; *vígrisni:* herfrægð, dugnaður til víga; *manngi:* enginn.

*Loki kvað:*

3. „Inn skal ganga
Ægis hallir í
á það sumbl að sjá;
jöll og áfu
færi eg ása sonum,
og blend eg þeim svo meini mjöð."

3. *jöll og áfa,* merking óviss, en oftast er talið, að það merki eitthvað svipað og *hróp og róg* í næstu vísu; *blend* er nt. af *blanda.*

*Eldir kvað:*

4. „Veiztu, ef þú inn gengur
Ægis hallir í
á það sumbl að sjá,
hrópi og rógi
ef þú eyst á holl regin,
á þér munu þau þerra það."

4. *róg* (hk.): fjandskapur, illmælgi; *holl regin:* vinveitt goð.

*Loki kvað:*

5. „Veiztu það, Eldir,
ef við einir skulum
sáryrðum sakast,
auðigur verða
mun eg í andsvörum,
ef þú mælir til margt."

5. *sáryrðum sakast:* deila illdeilum; *til:* of.

Síðan gekk Loki inn í höllina. En er þeir sá, er fyrir vóru, hver inn var kominn, þögnuðu þeir allir.

*Loki kvað:*

6. „Þyrstur eg kom
þessar hallar til,
Loftur, um langan veg
ásu að biðja,
að mér einn gefi
mæran drykk mjaðar.

6. *Loftur* er nafn á Loka, sennilega dregið af því, að hann átti skó, er hann rann á loft og lög; *mær:* ágætur.

7. Hví þegið ér svo,
þrungin goð,
að þér mæla né meguð?
Sessa og staði
veljið mér sumbli að
eða heitið mig héðan.“

7. *þrunginn* (lh. þt. af þryngva): bólginn, fullur af e-u; hér gætu orðin metnaður eða reiði verið undirskilin; *velja sessa og staði:* vísa til sætis; *heita:* skipa.

*Bragi kvað:*

8. „Sessa og staði
velja þér sumbli að
æsir aldregi,
því að æsir vitu,
hveim þeir alda skulu
gambansumbl um geta.“

8. *hveim:* hverjum; *alda* er ef. ft. af *öld:* fólk, menn; *gambansumbl:* stórdrykkja.

*Loki kvað:*

9. „Mantu það, Óðinn,
er við í árdaga
blendum blóði saman?
Ölvi bergja
léztu eigi mundu,
nema okkur væri báðum borið.“

9. *blanda blóði saman* á hér við stofnun fóstbræðralags; *ölvi,* þgf. af *öl.*



*Óðinn kvað:*

10. „Rístu þá, Víðar,
og lát úlfs föður
sitja sumbli að,
síður oss Loki
kveði lastastöfum
Ægis höllu í.“

10. *úlfs faðir:* Loki; *síður:* til þess að ekki; *kveðja lastastöfum:* ávarpa með lastyrðum.

Þá stóð Víðar upp og skenkti Loka. En áður hann drykki, kvaddi hann ásuna:

11. „Heilir æsir,
heilar ásynjur
og öll ginnheilög goð –
nema sá einn ás,
er innar situr,
Bragi, bekkjum á.“

11. *ginnheilög:* mjög heilög (ginn er hér til áherzlu).

*Bragi kvað:*

12. „Mar og mæki
gef eg þér míns fjár,
og bætir þér svo baugi Bragi,
síður þú ásum
öfund um gjaldir,
gremdu eigi goð að þér.“

12. *mar:* hestur; *mækir:* sverð; *bæta baugi:* gefa jafngildi hrings; *gjalda öfund:* sýna hatur; *grem þú eigi goð að þér:* reittu ekki goðin til reiði.

*Loki kvað:*

13. „Jós og armbauga
muntu æ vera
beggja vanur, Bragi;
ása og álfa,
er hér inni eru,

13. *jór:* hestur; *vera vanur e-s:* skorta eitthvað; *skjarr:* styggur, fælinn; *skjarrastur við skot:* hræddastur við að skjóta.

þú ert við víg varastur
og skjarrastur við skot."

*Bragi kvað:*

14. „Veit eg, ef fyr utan værag,
svo sem fyr innan emk,
Ægis höll um kominn,
höfuð þitt
bæra eg í hendi mér;
lét eg þér það fyr lygi."

14. *lét eg þér það fyr lygi:* ég borgaði þér það fyrir lygina.

*Loki kvað:*

15. „Snjallur ertu í sessi,
skal-at-tu svo gera,
Bragi bekkskrautuður;
vega þú gakk,
ef þú vreiður sér;
hyggst vætur hvatur fyrir."

15. *vreiður:* reiður; *hyggst vætur hvatur fyrir:* kjarkmaður vílar ekkert fyrir sér; *vætur:* ekkert.

*Iðunn kvað:*

16. „Bið eg, Bragi,
barna sifjar duga
og allra óskmaga,
að þú Loka
kveðir-a lastastöfum
Ægis höllu í."

16. *barna sifjar duga og allra óskmaga:* gæta venzla, bæði skyldleika og þeirra, sem unnar eru á annan hátt; hér er átt við, að Loki hafi gerzt óskasonur Óðins, er hann blandaði blóði við hann.

*Loki kvað:*

17. „Þegi þú, Iðunn,
þig kveð eg allra kvenna
vergjarnasta vera,

17. *sízt:* síðan er; *íturþveginn:* ágætlega þveginn; 4.—6. lína. Ekki er annars staðar getið um bróður Iðunnar.



sízt arma þína
lagðir íturþvegna
um þinn bróðurbana."

*Iðunn kvað:*

18. „Loka eg kveðk-a
lastastöfum
Ægis höllu í:
Braga eg kyrri
bjórreifan;
vilk-at eg, að ið vreiðir vegizt."

*Gefjun kvað:*

19. „Hví ið æsir tveir
skuluð inni hér
sáryrðum sakast?
Loftki það veit,
að hann leikinn er
og hann fjörg öll frjá."

19. *Loftki það veit:* Loftur (Loki) veit það ekki; *hann;* hér hlýtur að vera átt við Braga; *leikinn:* kátur, glaðvær; *fjörg;* merking óviss, sennilega: goð; *frjá:* elska.

*Loki kvað:*

20. „Þegi þú, Gefjun,
þess mun eg nú geta,
er þig glapti að geði
sveinn inn hvíti,
er þér sigli gaf
og þú lagðir lær yfir."

20. *sigli:* skrautgripur; 4.—6. lína. Frásögn þessara vísuorða er annars ókunn og kemur illa heim við ummæli Gylfaginningar um Gefjun, að hún hafi verið mær.

*Óðinn kvað:*

21. „Ær ertu, Loki,
og örviti,
er þú fær þér Gefjun að gremi,

21. *fær þér Gefjun að gremi:* gerir Gefjun þér reiða; *aldar örlög:* örlög manna.

því að aldar örlög,
hygg eg, að hún öll um viti
jafngerla sem eg.“

*Loki kvað:*

22. „Þegi þú, Óðinn,
þú kunnir aldregi
deila víg með verum;
oft þú gaft,
þeim er þú gefa skyldir-a,
inum slævurum sigur.“

22. *deila víg með verum:* útkljá bardaga með mönnum; *slær:* sljór, bitlaus, (hér) daufgerður.

*Óðinn kvað:*

23. „Veiztu, ef eg gaf,
þeim er eg gefa né skylda,
inum slævurum sigur,
átta vetur
vartu fyr jörð neðan,
kýr mjólkandi og kona,
og hefir þú þar börn borið,
og hugða eg það args aðal.“

23. 4.—8. lína er brigzl um ergi, sem var mjög algengt í illvígum orðasennum; *args aðal:* eðli ósamboðið karlmanni.

*Loki kvað:*

24. „En þig síða kváðu
Sámseyju í,
og draptu á vétt sem völur;
vitka líki
fórtu verþjóð yfir,
og hugða eg það args aðal.“

24. *síða* (leiðrétting fyrir síga): efla seið; *vétt:* frumstæð galdratrumba; *draptu á vétt sem völur:* barðir á trumbu eins og spákonur (*völur* ft. af *völva*); *vitki:* galdramaður; *verþjóð:* mannkyn.



*Frigg kvað:*

25. „Örlögum ykkrum
skylið aldregi
segja seggjum frá,
hvað ið æsir tveir
drýgðuð í árdaga;
firrist æ forn rök firar.“

25. *seggur:* maður; *firrist æ forn rök firar:* menn skulu forðast frásagnir um forn örlög.

*Loki kvað:*

26. „Þegi þú, Frigg,
þú ert Fjörgyns mær
og hefir æ vergjörn verið,
er þá Véa og Vilja
léztu þér, Viðris kvæn,
báða í baðm um tekið.“

26. *Fjörgyns mær:* Fjörgyns dóttir; *Vili og Véi* voru bræður Óðins, en þeir gengu eitt sinn báðir að eiga Frigg í fjarveru hans (Ynglingasaga 3); *Viðris kvæn:* kona Óðins; *baðmur:* faðmur.

*Frigg kvað:*

27. „Veiztu, ef eg inni ættag
Ægis höllum í
Baldri líkan bur,
út þú né kæmir
frá ása sonum,
og væri þá að þér vreiðum vegið.“

27. Hér er Baldri lýst sem meiri vígamanni en annars staðar í íslenzkum heimildum; *bur:* sonur.

*Loki kvað:*

28. „Enn viltu, Frigg,
að eg fleiri telja
mína meinstafi:
eg því réð,
er þú ríða sér-at
síðan Baldur að sölum.“

28. *meinstafir:* illvirki, verk, sem valda meini.

*Freyja kvað:*

29. „Ær ertu, Loki,
er þú yðra telur
ljóta leiðstafi;
örlög Frigg,
hygg eg, að öll viti,
þótt hún sjálfgi segi."

29. *leiðstafir:* meinstafir.

*Loki kvað:*

30. „Þegi þú, Freyja,
þig kann eg fullgerva,
er-a þér vamma vant:
ása og álfa,
er hér inni eru,
hver hefir þinn hór verið."

30. *er-a þér vamma vant:* þú hefur nóg af göllum; *hór:* friðill, elskhugi.

*Freyja kvað:*

31. „Flá er þér tunga,
hygg eg, að þér fremur myni
ógott um gala;
reiðir eru þér æsir
og ásynjur,
hryggur muntu heim fara."

31. *gala sér ógott:* baka sér tjón með tali sínu (sjá Hávamál 29).

*Loki kvað:*

32. „Þegi þú, Freyja,
þú ert fordæða
og meini blandin mjög,
sízt þig að bræður þínum
stóðu blíð regin
og myndir þú þá, Freyja, frata."

32. *fordæða:* galdranorn; *mein:* illska; *bræður:* þgf. af bróðir; *stóðu* er leiðrétting fyrir *siðu*; *bræður — regin* bendir til þess, að systkinahjónabönd tíðkuðust meðal vanagoðanna; *frata:* leysa vind.



*Njörður kvað:*

33. „Það er válítið,
þótt sér varðir vers fái
hós eða hvors;
hitt er undur, er ás ragur
er hér inn um kominn
og hefir sá börn um borið."

33. *válítið:* meinlítið; *varðir,* ft. af *vörð:* kona; *ver:* eiginmaður; *það — hvors:* það er meinlítið, þó að konur fái sér eiginmann eða friðil eða hvorttveggja; *ragur:* kynvilltur.

*Loki kvað:*

34. „Þegi þú, Njörður,
þú vart austur héðan
gísl um sendur að goðum.
Hymis meyjar
höfðu þig að hlandtrogi
og þér í munn migu."

34. *þú — goðum:* Samkvæmt þessu hefur skáldið hugsað sér Vanaheim fyrir vestan Ásgarð og ekki langt frá höll Ægis (sjá nánar Vafþrúðnismál 39); *Hymis meyjar:* jötnameyjar; *Hymis meyjar — migu;* þessi sögn er annars ókunn.

*Njörður kvað:*

35. „Sú erumk líkn,
er eg vark langt héðan
gísl um sendur að goðum,
þá eg mög gat,
þann er manngi fjár,
og þykir sá ása jaðar."

35. *mögur:* sonur; hér er átt við Frey; *fjá:* hata; *ása jaðar:* vörn ása.

*Loki kvað:*

36. „Hættu nú, Njörður,
haf þú á hófi þig,
munk-a eg því leyna lengur:
við systur þinni
gaztu slíkan mög,
og er-a þó vonu verr."

36. *við systur þinni...* Þessi systir Njarðar mun hafa verið samnefnd honum og þau dýrkuð saman til árs, sjá frásögn Tacitusar um gyðjuna Nerþus (Germania 40) og Ynglingasögu 4; *era þó vonu verr:* það er þó ekki verra en von er á.

*Týr kvað:*

37. „Freyr er beztur
allra ballriða
ása görðum í.
Mey hann né grætir
né manns konu
og leysir úr höftum hvern."

37. *ballriði* (baldriði, Atlakviða 21): harðsnúinn reiðmaður. Hér mun vera átt við goðin; *höft:* fjötrar.

*Loki kvað:*

38. „Þegi þú, Týr,
þú kunnir aldregi
bera tilt með tveim;
handar innar hægri
mun eg hinnar geta,
er þér sleit Fenrir frá."

38. *tilt:* hæfilegt, gott (hk. af lo. tilur); *bera tilt:* bera sáttarorð; 3.—6. lína. Þessu er erfitt að koma saman. Komið hefur fram þessi leiðréttingartilraun:
hönd ina hægri,
munka hinnar geta,
þér sleit Fenrir frá.
(F. J.)
Frá þessum atburði er gleggst sagt í Gylfaginningu 25 og 34; *Fenrir:* Fenrisúlfur.

*Týr kvað:*

39. „Handar em eg vanur,
en þú hróðursvitnis,
böl er beggja þrá;
úlfgi hefir og vel,
er í böndum skal
bíða ragnarökurs."

39. *hróðursvitnir:* hinn frægi úlfur: Fenrisúlfur; *böl er beggja þrá:* óhamingja beggja er söknuður; *úlfgi hefir og vel:* úlfurinn á ekki gott.

*Loki kvað:*

40. „Þegi þú, Týr,
það varð þinni konu,
að hún átti mög við mér;
öln né penning
hafðir þú þess aldregi
vanréttis, vesall."

40. Kona Týs er hvergi nefnd annars staðar; *öln:* alin (vaðmáls).



*Freyr kvað:*

41. „Úlf sé eg liggja
árósi fyrir,
unz rjúfast regin.
Því muntu næst,
nema þú nú þegir,
bundinn, bölvasmiður."

41. *árós* getur þýtt hvort sem er: upptök eða mynni ár. Er því annaðhvort, að hólmurinn, þar sem úlfurinn var bundinn, hefur verið við ármynni, eða átt er við upptök árinnar Vánar, sem rennur úr kjafti úlfsins (sjá Gylfaginningu 34); *rjúfast:* farast; *regin:* goð.

*Loki kvað:*

42. „Gulli keypta
léztu Gymis dóttur
og seldir þitt svo sverð;
en er Múspells synir
ríða Myrkvið yfir,
veizt-a þú þá, vesall, hve þú vegur."

42. *gulli — sverð,* sjá Skírnismál; *Múspells synir,* sjá Völuspá 51.

*Byggvir kvað:*

43. „Veiztu, ef eg eðli ættag
sem Ingunar-Freyr
og svo sællegt setur,
mergi smærra
mylda eg þá meinkráku
og lemda alla í liðu."

43. *eðli:* ætt eða óðal; *Ingunar-Freyr:* Yngvi-Freyr. Yngvi var annað nafn Freys, og af því draga Ynglingar nafn sitt; *meinkráka:* skaðsemdarkráka, hér skammaryrði um Loka.

*Loki kvað:*

44. „Hvað er það ið litla
er eg það löggra sék
og snapvíst snapir?
Að eyrum Freys
muntu æ vera
og und kvernum klaka."

44. *löggra:* dingla rófunni; *snapvís:* sníkjulegur; *snapa:* láta sníkjulega; *klaka:* kvaka.

*Byggvir kvað:*

45. „Byggvir eg heiti,
en mig bráðan kveða
goð öll og gumar;
því em eg hér hróðugur,
að drekka Hrofts megir
allir öl saman."

45. *Byggvir* er kornvættur, kenndur við bygg, en er jafnframt þjónustumaður árguðsins, Freys; *gumar:* menn; *Hrofts megir:* Óðins synir: æsir.

*Loki kvað:*

46. „Þegi þú, Byggvir,
þú kunnir aldregi
deila með mönnum mat,
og þig í flets strá
finna né máttu,
þá er vógu verar."

46. *flets strá:* hálmur, sem stráð var á bekki (sbr. Þrymskviðu 22); *verar:* menn.

*Heimdallur kvað:*

47. „Ölur ertu, Loki,
svo að þú ert örviti,
– hví né lezt-a-ðu, Loki? –
því að ofdrykkja
veldur alda hveim,
er sína mælgi né man-at."

47. *hví né lezt-a-ðu:* hví heldur þú þér ekki í skefjum (lezt af letjast); *alda hveim:* hverjum manni (*alda* ef. ft. af *öld:* menn); *er:* að (skýringartenging); *né man-at:* man ekki.

*Loki kvað:*

48. „Þegi þú, Heimdallur,
þér var í árdaga
ið ljóta líf um lagið,
aurgu baki
þú munt æ vera
og vaka vörður goða."

48. *lagið* (lh. þt. af leggja): ákveðið, fyrirbúið; *aurgu* eða *örgu:* aurugu eða örðugu.



*Skaði kvað:*

49. „Létt er þér, Loki,
mun-at-tu lengi svo
leika lausum hala,
því að þig á hjörvi
skulu ins hrímkalda magar
görnum binda goð."

49. *létt er þér:* þú ert í léttu skapi; *hjör* merkir venjulega sverð, en sumir skýrendur telja, að hér sé átt við eggsteina þá, er Loki var lagður á bundinn; *inn hrímkaldi mögur* er Narfi sonur Loka, en Loki var bundinn með görnum hans (sjá Gylfaginningu 50).

*Loki kvað:*

50. „Veiztu, ef mig á hjörvi
skulu ins hrímkalda magar
görnum binda goð,
fyrstur og efstur
var eg að fjörlagi,
þar er vér á Þjaza þrifum."

50. *fjörlag:* dráp; *Þjazi* var faðir Skaða (sjá Hárbarðsljóð 19).

*Skaði kvað:*

51. „Veiztu, ef fyrstur og efstur
vartu að fjörlagi,
þá er ér á Þjaza þrifuð,
frá mínum véum
og vöngum skulu
þér æ köld ráð koma."

51. *vé og vangur* er hvorttveggja notað um helgistaði; hér á Skaði við heimkynni sitt.

*Loki kvað:*

52. „Léttari í málum
vartu við Laufeyjar son,
þá er þú lézt mér á beð þinn [boðið,
getið verður oss slíks,
ef vér görva skulum
telja vömmin vor."

52. *görva:* alveg, fullkomlega; *telja vömmin vor:* telja upp lesti okkar. Atriðið, sem sagt er frá í þessari vísu, er hvergi nefnt annars staðar.

Þá gekk Sif fram og byrlaði Loka í hrímkálki mjöð og mælti:

53. „Heill ver þú nú, Loki,
og tak við hrímkálki
fullum forns mjaðar,
heldur þú hana eina
látir með ása sonum
vammalausa vera."

53. Fyrri hluti þessarar vísu er næstum samhljóða fyrri hluta 37. vísu Skírnismála; *hrímkálkur:* glerbikar; *heldur:* svo að þú heldur; *hana:* mig; hér talar Sif um sjálfa sig í 3. persónu.

Hann tók við horni og drakk af:

54. „Ein þú værir,
ef þú svo værir,
vör og gröm að veri;
einn eg veit,
svo að eg vita þykjumk,
hór og af Hlórriða,
og var það sá inn lævísi Loki."

54. *ein þú værir,* undirskilið er vammlaus; *vör og gröm að veri:* varkár og fráhrindandi karlmanni; *að eg vita þykjumk:* svo að ég sé viss; *hór af Hlórriða:* friðill gagnvart Þór, þ. e. a. s. með konu Þórs: Sif.

*Beyla kvað:*

55. „Fjöll öll skjálfa,
hygg eg á för vera
heiman Hlórriða.
Hann ræður ró,
þeim er rægir hér
goð öll og guma."

55. *ræður ró:* kyrrir, stillir.

*Loki kvað:*

56. „Þegi þú, Beyla,
þú ert Byggvis kvæn
og meini blandin mjög,

56. *ókynjan:* óvættur, ófreskja; *deigja:* sú, sem hnoðar brauð, þerna; *dritin:* skítug.



ókynjan meira
kom-a með ása sonum;
öll ertu, deigja, dritin."

*Þá kom Þór að og kvað:*

57. „Þegi þú, rög vættur,
þér skal minn þrúðhamar,
Mjöllnir, mál fyrnema;
herðaklett
drep eg þér hálsi af,
og verður þá þínu fjörvi um
farið."

57. *þrúðhamar:* sterkur hamar; *Mjöllnir:* hamar Þórs; *fyrnema:* banna, binda enda á; *herðaklettur:* höfuð; *drepa:* slá; *verður þá þínu fjörvi farið:* þá er líf þitt á enda.

*Loki kvað:*

58. „Jarðar bur
er hér nú inn kominn,
hví þrasir þú svo, Þór?
En þá þorir þú ekki,
er þú skalt við úlfinn vega,
og svelgur hann allan Sigföður."

58. *Jarðar bur:* sonur Jarðar: Þór; *þrasa* (merking óviss): æða, hvæsa (?).

*Þór kvað:*

59. „Þegi þú, rög vættur,
þér skal minn þrúðhamar,
Mjöllnir, mál fyrnema;
upp eg þér verp
og á austurvega,
síðan þig manngi sér."

59. *á austurvega:* í Jötunheima, þangað, sem Loki var upp runninn.

*Loki kvað:*

60. „Austurförum þínum
skaltu aldregi
segja seggjum frá,

60. 4.—6. lína, sjá Hárbarðsljóð 26; *einheri:* einherji; hér er átt við Þór.

sízt í hanzka þumlungi
hnúktir þú einheri,
og þóttist-a þú þá Þór vera.“

*Þór kvað:*

61. „Þegi þú, rög vættur,
þér skal minn þrúðhamar,
Mjöllnir, mál fyrnema;
hendi inni hægri
drep eg þig Hrungnis bana,
svo að þér brotnar beina hvað.“

61. *Hrungnis bani:* hamar Þórs; *beina hvað:* sérhvert bein.

*Loki kvað:*

62. „Lifa ætla eg mér
langan aldur,
þótt þú hættir hamri mér;
skarpar ólar
þóttu þér Skrýmis vera,
og máttir-a þú þá nesti ná,
og svalzt þú þá hungri heill.“

62. *hæta:* hóta; *Skrýmir;* svo nefndi Útgarða-Loki sig, er hann hitti Þór fyrst.

*Þór kvað:*

63. „Þegi þú, rög vættur,
þér skal minn þrúðhamar,
Mjöllnir, mál fyrnema;
Hrungnis bani
mun þér í hel koma
fyr nágrindur neðan.“

63. *nágrindur:* hlið Helj-ar.

*Loki kvað:*

64. „Kvað eg fyr ásum,
kvað eg fyr ása sonum,



það er mig hvatti hugur;
en fyr þér einum
mun eg út ganga,
því að eg veit, að þú vegur.

65. Öl gerðir þú, Ægir,
en þú aldrei munt
síðan sumbl um gera;
eiga þín öll,
er hér inni er,
leiki yfir logi
og brenni þér á baki!“

65. *leiki yfir logi* er ekki í fullu setningafræðilegu samhengi við hinar línurnar; *brenni þér á baki* virðist hafa verið eins konar talsháttur, er menn óskuðu öðrum ills (sbr. Skíðarímu 19). *eiga þín öll* er frumlag setningarinnar.

En eftir þetta falst Loki í Fránangursfossi í lax líki. Þar tóku æsir hann. Hann var bundinn með þörmum sonar síns, Nara. En Narfi, sonur hans, varð að vargi. Skaði tók eiturorm og festi upp yfir andlit Loka. Draup þar úr eitur. Sigyn, kona Loka, sat þar og hélt mundlaug undir eitrið. En er mundlaugin var full, bar hún út eitrið, en meðan draup eitrið á Loka. Þá kipptist hann svo hart við, að þaðan af skalf jörð öll. Það eru nú kallaðir landskjálftar.

1. Reiður var þá Vingþór,
er hann vaknaði
og síns hamars
um saknaði,
skegg nam að hrista,
skör nam að dýja,
réð Jarðar bur
um að þreifast.

1. *Vingþór:* Þór (sá, sem sveiflar vopni, sbr. sögnina *vingsa*); *skör:* skorið hár; *dýja:* hrista; *Jarðar bur:* Þór (Þór var sonur Óðins og Jarðar); *um að þreifast:* þreifa fyrir sér.

2. Og hann það orða
alls fyrst um kvað:
„Heyrðu nú, Loki,
hvað eg nú mæli,
er eigi veit
jarðar hvergi
né upphimins:
ás er stolinn hamri."

2. *jarðar hvergi né upphimins:* hvergi á himni né jörðu; *ás:* goð (Þór á hér við sjálfan sig); *er stolinn hamri:* hamri hefur verið stolið frá honum.

3. Gengu þeir fagra
Freyju túna,
og hann það orða
alls fyrst um kvað:
„Muntu mér, Freyja,
fjaðurhams ljá,

3. *gengu — túna:* þeir gengu til hinna fögru heimkynna Freyju; *hitta* (hér): finna.



ef eg minn hamar
mættag hitta?"

*Freyja kvað:*

4. „Þó mynda eg gefa þér,
þótt úr gulli væri,
og þó selja,
að væri úr silfri."

4. *selja:* fá í hendur.

5. Fló þá Loki,
— fjaðurhamur dundi, —
unz fyr utan kom
ása garða
og fyr innan kom
jötna heima.

5. *fló,* þt. af fljúga; *ása garðar:* Ásgarður, bústaður goðanna.

6. Þrymur sat á haugi,
þursa drottinn,
greyjum sínum
gullbönd sneri
og mörum sínum
mön jafnaði.

6. *drottinn:* konungur; *grey:* hundur; *mar:* hestur; *mön:* fax.

*Þrymur kvað:*

7. „Hvað er með ásum?
Hvað er með álfum?
Hví ertu einn kominn
í Jötunheima?"

*Loki kvað:*

„Illt er með ásum,
illt er með álfum;

7. *Hlórriði:* Þór.

hefir þú Hlórriða
hamar um fólginn?"

*Þrymur kvað:*

8. „Eg hefi Hlórriða
hamar um fólginn
átta röstum
fyr jörð neðan.
Hann engi maður
aftur um heimtir,
nema færi mér
Freyju að kvæn."

8. *röst* er ókunn vegalengd.

9. Fló þá Loki,
— fjaðurhamur dundi, —
unz fyr utan kom
jötna heima
og fyr innan kom
ása garða.
Mætti hann Þór
miðra garða,
og það hann orða
alls fyrst um kvað:

9. *miðra garða:* í miðjum Ásgarði.

10. „Hefir þú erindi
sem erfiði?
Segðu á lofti
löng tíðindi.
Oft sitjanda
sögur um fallast
og liggjandi
lygi um bellir."

10. *sögur um fallast e-m:* einhver fellir niður úr frásögn; *bella:* beita.





*Loki kvað:*

11. „Hefi eg erfiði
og erindi;
Þrymur hefir þinn hamar,
þursa drottinn.
Hann engi maður
aftur um heimtir,
nema honum færi
Freyju að kvon.“

12. Ganga þeir fagra
Freyju að hitta,
og hann það orða
alls fyrst um kvað:
„Bittu þig, Freyja,
brúðar líni;
við skulum aka tvö
í Jötunheima.“

13. Reið varð þá Freyja
og fnásaði,
allur ása salur
undir bifðist,
stökk það ið mikla
men Brísinga:
„Mig veiztu verða
vergjarnasta,
ef eg ek með þér
í Jötunheima.“

14. Senn vóru æsir
allir á þingi

13. *fnása:* hvæsa, fussa; *bifast:* skjálfa; *stökkva:* hrökkva upp; *men Brísinga:* hálsmen, sem Freyja átti og Brísingar (dvergar) höfðu smíðað; *vergjörn:* hneigð til karla ástar.

14. *senn:* brátt; *ríkir tívar:* voldug goð; *sætti,* vh. þt. af *sækja.*

og ásynjur
allar á máli,
og um það réðu
ríkir tívar,
hve þeir Hlórriða
hamar um sætti.

15. Þá kvað það Heimdallur,
hvítastur ása,
vissi hann vel fram
sem vanir aðrir:
„Bindum vér Þór þá
brúðar líni,
hafi hann ið mikla
men Brísinga.

15. *vita fram:* vita fram í tímann; *vanir* voru sérstök ætt innan goðanna. Heimdallur er ekki talinn til þeirra. Þess vegna hafa skýrendur reynt að þýða þetta á þann veg, að vanir hafi annars verið fjölkunnugastir.

16. Látum und honum
hrynja lukla
og kvenvoðir
um kné falla,
en á brjósti
breiða steina,
og haglega
um höfuð typpum."

16. *látum — lukla:* látum lykla hanga niður frá belti hans; lyklar voru tákn húsmóðurstöðunnar; *steinar:* skartgripir úr steini; *typpa:* setja topp á, skauta.

17. Þá kvað það Þór,
þrúðugur ás:
„Mig munu æsir
argan kalla,
ef eg bindast læt
brúðar líni."

17. *þrúðugur:* sterkur; *argur:* sem ekki sæmir karlmanni.



18. Þá kvað það Loki
Laufeyjar sonur:
„Þegi þú, Þór,
þeirra orða.
Þegar munu jötnar
Ásgarð búa,
nema þú þinn hamar
þér um heimtir."

18. *þegar:* strax; *búa:* byggja, leggja undir sig.

19. Bundu þeir Þór þá
brúðar líni
og inu mikla
meni Brísinga,
létu und honum
hrynja lukla
og kvenvoðir
um kné falla,
en á brjósti
breiða steina,
og haglega
um höfuð typptu.

20. Þá kvað Loki
Laufeyjar sonur:
„Mun eg og með þér
ambátt vera
við skulum aka tvö
í Jötunheima."

21. Senn voru hafrar
heim um reknir,

skyndir að sköklum,
skyldu vel renna.
Björg brotnuðu,
brann jörð loga,
ók Óðins sonur
í Jötunheima.

22. Þá kvað það Þrymur,
þursa drottinn:
„Standið upp, jötnar,
og stráið bekki.
Nú færið mér
Freyju að kvon
Njarðar dóttur
úr Nóatúnum.

23. Ganga hér að garði
gullhyrndar kýr,
öxn alsvartir
jötni að gamni;
fjöld á eg meiðma,
fjöld á eg menja,
einnar mér Freyju
ávant þykir."

24. Var þar að kveldi
um komið snemma
og fyr jötna
öl fram borið.
Einn át uxa,
átta laxa,
krásir allar,

21. *skyndir að sköklum:* spenntir í skyndi við dráttartaugarnar (eða vagnkjálkana).

22. *strá bekki:* breiða hálm á bekki; en svo var gert, áður en veizlur voru haldnar.

23. *gullhyrndar:* með gull í hornum (gulli rennt í skorur í hornunum); *öxn,* ft. af *oxi:* uxi; *meiðmar:* dýrgripir; *men:* hálshringur, í ft. *menjar:* auðæfi; *þykja ávant:* þykja skorta.

24. *einn:* þ. e. Þór; *Sifjar ver:* eiginmaður Sifjar: Þór; *sáld:* ker.



þær er konur skyldu,
drakk Sifjar ver
sáld þrjú mjaðar.

25. Þá kvað það Þrymur,
þursa drottinn:
„Hvar sáttu brúðir
bíta hvassara?
Sák-a eg brúðir
bíta breiðara,
né inn meira mjöð
mey um drekka."

26. Sat in alsnotra
ambátt fyrir,
er orð um fann
við jötuns máli:
„Át vætur Freyja
átta nóttum,
svo var hún óðfús
í Jötunheima."

27. Laut und línu,
lysti að kyssa,
en hann utan stökk
endlangan sal:
„Hví eru öndótt
augu Freyju?
Þykir mér úr augum
eldur um brenna."

25. *sáttu:* sástu.

26. *alsnotur:* mjög vitur; *sitja fyrir:* verða fyrir svörum; *vætur:* ekkert.

27. *lína:* höfuðblæja, brúðarslæða; *öndóttur:* harðlegur, illilegur.

28. Sat in alsnotra
ambátt fyrir,
er orð um fann
við jötuns máli:
„Svaf vætur Freyja
átta nóttum,
svo var hún óðfús
í Jötunheima."

29. Inn kom in arma
jötna systir,
hin er brúðfjár
biðja þorði:
„Láttu þér af höndum
hringa rauða,
ef þú öðlast vilt
ástir mínar,
ástir mínar,
alla hylli."

29. *brúðfé:* fé eða gersemar, sem brúðurin skyldi gefa ættingjum manns síns.

30. Þá kvað það Þrymur,
þursa drottinn:
„Berið inn hamar
brúði að vígja,
leggið Mjöllni
í meyjar kné,
vígið okkur saman
Várar hendi."

30. *berið — vígja;* þessi frásögn hefur verið sett í samband við forna bergristu, sem sýnir karl og konu og mann, sem heldur hamri yfir þeim, eins og hann sé að vígja þau saman; *Mjöllnir:* hamar Þórs; *Vár* var gyðja hjúskapar og eiða; *vígja Várar hendi:* gefa saman í löglegt hjónaband.

31. Hló Hlórriða
hugur í brjósti,
er harðhugaður



hamar um þekkti;
Þrym drap hann fyrstan,
þursa drottin,
og ætt jötuns
alla lamdi.

32. Drap hann ina öldnu
jötna systur,
hin er brúðfjár
um beðið hafði;
hún skell um hlaut
fyr skillinga,
en högg hamars
fyr hringa fjöld.
Svo kom Óðins sonur
endur að hamri.

32. *skillingur:* peningur; *endur:* aftur; *koma að:* ná.

*Alvís kvað:*

1. „Bekki breiða,
nú skal brúður með mér
heim í sinni snúast,
hratað um mægi
mun hverjum þykja;
heima skal-at hvíld nema.“

1. *bekki — mér:* Nú skal brúðurin breiða (klæði eða hálm) á bekki (fyrir brúðkaupið); *sinni:* fylgdarlið; *hratað um mægi:* flýtt sér mjög með brúðkaupið (*mægi:* mágsemd).

*Þór kvað:*

2. „Hvað er það fira?
Hví ertu svo fölur um nasar?
Vartu í nótt með ná?
Þursa líki
þyki mér á þér vera;
ert-at-tu til brúðar borinn.“

2. *firar:* menn; *þursa líki:* útlit þursa.

*Alvís kvað:*

3. „Alvís eg heiti,
bý eg fyr jörð neðan,
á eg undir steini stað;
vagna vers
eg em á vit kominn;
bregði engi föstu heiti fira.“

3. *vagna ver:* Þór.



*Þór kvað:*

4. „Eg mun bregða,
því að eg brúðar á
flest um ráð sem faðir,
— vark-a eg heima,
þá er þér heitið var —
að sá einn er gjafver með goðum.“

4. *gjafver* (leiðrétting fyrir gjöfer): giftingarmaður, sá sem á ráð á gjaforði.

*Alvís kvað:*

5. „Hvað er það rekka,
er í ráðum telst
fljóðs ins fagurglóa?
Fjarrafleina
þig munu fáir kunna;
hver hefir þig baugum borið?“

5. *rekkur:* maður; *er i ráðum telst fljóðs ins fagurglóa:* telur sig eiga ráð á hinni glóbjörtu konu; *fjarrafleinn:* umrenningur, flakkari; *hver — borið:* hver hefur fætt þig, svo að þú sért borinn til arfs.

*Þór kvað:*

6. „Vingþór eg heiti,
eg hefi víða ratað,
sonur em eg Síðgrana;
að ósátt minni
skaltu það ið unga man hafa
og það gjaforð geta.“

6. *Vingþór:* Þór (sjá Þrymskviðu 1); *Síðgrani:* Óðinn; *að ósátt — hafa:* ég gef ekki samþykki mitt til þess að þú fáir hina ungu mey.

*Alvís kvað:*

7. „Sáttir þínar
er eg vil snemma hafa
og það gjaforð geta;
eiga vilja
heldur en án vera
það ið mjallhvíta man.“

7. *er* er óþarft; *snemma:* strax.

*Þór kvað:*

8. „Meyjar ástum
mun-a þér verða,
vísi gestur, um varið,
ef þú úr heimi kannt
hverjum að segja
allt það, er eg vil vita.

8. *varið:* neitað.

9. Segðu mér það, Alvís,
— öll um rök fira
vörumk, dvergur, að vitir —:
hve sú jörð heitir,
er liggur fyr alda sonum,
heimi hverjum í?"

9. *rök fira:* vísdómur um menn og aðrar verur; *vörumk:* varir mig: ég býst við; *alda synir:* menn.

*Alvís kvað:*

10. „Jörð heitir með mönnum,
en með ásum fold,
kalla vega vanir,
ígræn jötnar,
álfar gróandi,
kalla aur uppregin."

10. *ígrænn:* mjög grænn; *uppregin:* uppheimsgoð.

*Þór kvað:*

11. „Segðu mér það, Alvís,
— öll um rök fira
vörumk, dvergur, að vitir —:
hve sá himinn heitir,
erakendi,
heimi hverjum í?"

11. *erakendi* hlýtur að vera mjög afbakað.



*Alvís kvað:*

12. „Himinn heitir með mönnum,
en hlýrnir með goðum,
kalla vindófni vanir,
uppheim jötnar,
álfar fagraræfur,
dvergar drjúpan sal."

12. *hlýrnir* er dregið af hvorugkynsorðinu *hlýrn:* himintungl; *vindófnir:* vefari vindsins; *fagraræfur:* hið fagra þak; *drjúpan salur:* höll, sem regnið drýpur úr.

*Þór kvað:*

13. „Segðu mér það, Alvís,
— öll um rök fira
vörumk, dvergur, að vitir —:
hversu máni heitir,
sá er menn sjá,
heimi hverjum í?"

*Alvís kvað:*

14. „Máni heitir með mönnum,
en mylinn með goðum,
kalla hverfanda hvel helju í,
skyndi jötnar,
en skin dvergar,
kalla álfar ártala."

14. *mylinn* (skylt moli): þverrandi tungl; *hverfanda hvel:* hjól, sem snýst; *skyndir:* sem flýtir sér.

*Þór kvað:*

15. „Segðu mér það, Alvís,
— öll um rök fira
vörumk, dvergur, að vitir —:
hve sú sól heitir,
er sjá alda synir,
heimi hverjum í?"

*Alvís kvað:*

16. „Sól heitir með mönnum,
en sunna með goðum,
kalla dvergar Dvalins leika,
eygló jötnar,
álfar fagrahvel,
alskír ása synir."

16. *Dvalins leika:* sem leikur dvergana hart, gerir þá að steini með skini sinu. *Dvalinn* er dvergsheiti; *leika:* leiksystir; *eygló:* sem alltaf glóir; *fagrahvel:* hið fagra hjól; *alskír:* albjört.

*Þór kvað:*

17. „Segðu mér það, Alvís,
— öll um rök fira
vörumk, dvergur, að vitir —:
hve þau ský heita,
er skúrum blandast,
heimi hverjum í?"

*Alvís kvað:*

18. „Ský heita með mönnum,
en skúrvon með goðum,
kalla vindflot vanir,
úrvon jötnar,
álfar veðurmegin,
kalla í helju hjálm huliðs."

18. *vindflot:* sem flýtur með vindinum; *úrvon:* skúrvon; *veðurmegin:* vindkraftur (vegna þess að skýin hrekjast fyrir vindi); *hjálmur huliðs:* huliðshjálmur, hjálmur, sem gerði þann mann ósýnilegan, er hann bar. Skýin eru nefnd svo, vegna þess að þau byrgja fyrir útsýni.

*Þór kvað:*

19. „Segðu mér það, Alvís,
— öll um rök fira
vörumk, dvergur, að vitir —:
hve sá vindur heitir,
er víðast fer,
heimi hverjum í?"



*Alvís kvað:*

20. „Vindur heitir með mönnum,
en váfuður með goðum,
kalla gneggjuð ginnregin,
æpi jötnar,
álfar dynfara,
kalla í helju hviðuð."

20. *váfuður:* sem reikar um; *gneggjuður:* sem hneggjar; *ginnregin:* hin voldugu goð; *hviðuður* er myndað af orðinu *hviða:* vindhviða.

*Þór kvað:*

21. „Segðu mér það, Alvís,
— öll um rök fira
vörumk, dvergur, að vitir —:
hve það logn heitir,
er liggja skal,
heimi hverjum í?"

*Alvís kvað:*

22. „Logn heitir með mönnum,
en lægi með goðum,
kalla vindslot vanir,
ofhlý jötnar,
álfar dagsefa,
kalla dvergar dags veru."

22. *lægi:* hlé í stormi; *dagsefi:* blíða dagsins (dregið af sögninni *sefa); dags vera:* sem er á daginn.

*Þór kvað:*

23. „Segðu mér það, Alvís,
— öll um rök fira
vörumk, dvergur, að vitir —:
hve sá mar heitir,
er menn róa,
heimi hverjum í?"

23. *mar:* sjór.

*Alvís kvað:*

24. „Sær heitir með mönnum,
en sílægja með goðum,
kalla vog vanir,
álheim jötnar,
álfar lagastaf,
kalla dvergar djúpan mar.“

24. *sílægja:* sem liggur alls staðar, sem umlykur alla jörðina; *álheimur:* annaðhvort heimur álsins eða hinna djúpu ála; *lagastafur* er dregið af orðinu *lögur:* vökvi, en erfitt er að sjá, hvað stafur merkir hér.

*Þór kvað:*

25. „Segðu mér það, Alvís,
— öll um rök fira
vörumk, dvergur, að vitir —:
hve sá eldur heitir,
er brenn fyr alda sonum,
heimi hverjum í?“

*Alvís kvað:*

26. „Eldur heitir með mönnum,
en með ásum funi,
kalla vog vanir,
frekan jötnar,
en forbrenni dvergar,
kalla í helju hröðuð.“

26. *vogur* er annars ókunnugt sem eldsheiti. Sumir skýrendur vilja setja í staðinn *væginn,* sem er eldsheiti í þulum; *frekan:* sem er frekur; *forbrennir:* sem brennir til skaða; *hröðuður:* hinn hraði.

*Þór kvað:*

27. „Segðu mér það, Alvís,
— öll um rök fira
vörumk, dvergur, að vitir —:
hve viður heitir,
er vex fyr alda sonum,
heimi hverjum í?“



*Alvís kvað:*

28. „Viður heitir með mönnum,
en vallarfax með goðum,
kalla hlíðþang halir,
eldi jötnar,
álfar fagurlima,
kalla vönd vanir.“

28. *eldi:* viðurværi (elds), eldiviður.

*Þór kvað:*

29. „Segðu mér það, Alvís,
— öll um rök fira
vörumk, dvergur, að vitir —:
hve sú nótt heitir,
in Nörvi kennda,
heimi hverjum í?“

29. *in Nörvi kennda:* dóttir Nörs (sjá Vafþrúðnismál 25).

*Alvís kvað:*

30. „Nótt heitir með mönnum,
en njól með goðum,
kalla grímu ginnregin,
óljós jötnar,
álfar svefngaman,
kalla dvergar draumnjörun.“

30. *njól:* hin dimma; algengara er næturheitið njóla; *draumnjörun:* draumadís.

*Þór kvað:*

31. „Segðu mér það, Alvís,
— öll um rök fira
vörumk, dvergur, að vitir —:
hve það sáð heitir,
er sá alda synir,
heimi hverjum í?“

*Alvís kvað:*

32. „Bygg heitir með mönnum,
en barr með goðum,
kalla vöxt vanir,
æti jötnar,
álfar lagastaf,
kalla í helju hnipin.“

32. *lagastafur* er talið merkja bygg, sem öl var bruggað úr; *hnipinn* merkir hér ef til vill: með beygðan stöngul.

*Þór kvað:*

33. „Segðu mér það, Alvís,
— öll um rök fira
vörumk, dvergur, að vitir —:
hve það öl heitir,
er drekka alda synir,
heimi hverjum í?“

*Alvís kvað:*

34. „Öl heitir með mönnum,
en með ásum bjór,
kalla veig vanir,
hreinalög jötnar,
en í helju mjöð,
kalla sumbl Suttungs synir.“

*Þór kvað:*

35. „Í einu brjósti
eg sák aldregi
fleiri forna stafi.
Miklum tálum
eg kveð tældan þig:
Uppi ertu, dvergur, um dagaðr,
nú skín sól í sali.“

35. *fornir stafir:* forn fræði; 6.—7. lína. Sumir dvergar urðu að steini, ef þeir sáu dagsljósið; *salur:* jörð.



# Völundarkviða

*Frá Völundi.*

Níðuður hét konungur í Svíþjóð. Hann átti tvo sonu og eina dóttur. Hún hét Böðvildur. Bræður vóru þrír, synir Finnakonungs. Hét einn Slagfiður, annar Egill, þriðji Völundur. Þeir skriðu og veiddu dýr. Þeir kómu í Úlfdali og gerðu sér þar hús. Þar er vatn, er heitir Úlfsjár. Snemma um morgun fundu þeir á vatnsströndu konur þrjár, og spunnu lín. Þar vóru hjá þeim álftarhamir þeirra. Það vóru valkyrjur. Þar vóru tvær dætur Hlöðvés konungs, Hlaðguður svanhvít og Hervör alvitur, in þriðja var Ölrún Kjársdóttir af Vallandi. Þeir höfðu þær heim til skála með sér. Fékk Egill Ölrúnar, en Slagfiður Svanhvítrar, en Völundur Alvitrar. Þau bjuggu sjö vetur. Þá flugu þær að vitja víga og kómu eigi aftur. Þá skreið Egill að leita Ölrúnar, en Slagfiður leitaði Svanhvítrar, en Völundur sat í Úlfdölum. Hann var hagastur maður, svo að menn viti, í fornum sögum. Níðuður konungur lét hann höndum taka, svo sem hér er um kveðið:

1. Meyjar flugu sunnan  
myrkvið í gögnum,  
alvitur ungar  
örlög drýgja.  
Þær á sævarströnd

Frá Völundi.  
*skriða:* fara á skíðum;  
*alvitur:* annarleg vættur; kona, sem ekki er mennsk að ætt eða yfirlitum;  
*Kjár:* Cæsar, keisari;  
*vitja víga:* fremja víg.





settust að hvílast,
drósir suðrænar,
dýrt lín spunnu.

2. Ein nam þeirra
Egil að verja,
fögur mær fira,
faðmi ljósum.
Önnur var Svanhvít,
svanfjaðrar dró,
en in þriðja
þeirra systir
varði hvítan
háls Völundar.

3. Sátu síðan
sjö vetur að það,
en inn átta
allan þráðu,
en inn níunda
nauður um skildi.
Meyjar fýstust
á myrkvan við,
alvitur ungar,
örlög drýgja.

4. Kom þar af veiði
veðureygur skyti,
Slagfiður og Egill,
sali fundu auða,
gengu út og inn
og um sáust.

1. *myrkviður:* dimmur skógur. Sem eiginnafn er *Myrkviður* haft um Erzgebirge og skóg á Holtsetalandi; *örlög drýgja* (annaðhvort): þola örlög sín eða fremja víg (sbr. orðið örlygi); *sær:* haf eða stöðuvatn (sbr. nöfnin Stórisjór og Litlisjór).

2. *ein,* þ. e. Ölrún; *nam verja faðmi:* tók í faðm sér; *firar:* menn; *draga* virðist hér hafa merkinguna: bera (sbr. þýzku tragen).

3. *að það:* eftir það; *átta:* áttunda; *þráðu,* af þreyja: bíða með eftirvæntingu; *nauður:* nauðsyn; *nauður um skildi:* hlutu þau að skilja.

4. *veðureygur:* veðurglöggur; *skyti:* skotmaður. Ekki er ólíklegt, að eftir *skyti* hafi fallið úr orðin: *Völundur líðandi um langan veg,* eins og stendur í 10. erindi.

5. Austur skreið Egill
að Ölrúnu,
en suður Slagfiður
að Svanhvítu,
en einn Völundur
sat í Úlfdölum.

6. Hann sló gull rautt
við gim fástan,
lukti hann alla
lind baugum vel.
Svo beið hann
sinnar ljóssar
kvonar, ef honum
koma gerði.

6. *gimur:* gimsteinn; *fástan* getur verið efsta stig af *fár:* marglitur, litskrúðugur; *lukti* af *lykja:* umlykja; *lind:* linditré; *baugum* er leiðrétting fyrir bauga; *honum:* honum til heilla.

7. Það spyr Níðuður,
Njára drottinn,
að einn Völundur
sat í Úlfdölum.
Nóttum fóru seggir,
negldar vóru brynjur,
skildir bliku þeirra
við inn skarða mána.

7. *Njárar:* þjóð sú, er Níðuður ræður yfir. Í inngangskafla kviðunnar segir, að hann væri konungur í Svíþjóð; *seggur:* maður; *negldar vóru brynjur,* líklega þannig, að smáar málmplötur hafi verið festar á leðurstakk; *bliku:* blikuðu (af sögninni *blíkja:* blika); *við hinn skarða mána:* við skin minnkandi tungls.

8. Stigu úr söðlum
að salar gafli,
gengu inn þaðan
endlangan sal;
sáu þeir á bast
bauga dregna,

8. *salur:* höll; *bast:* himna undir berki á trjám. Úr henni fást seigir þræðir; *allra:* alls.





sjö hundruð allra,
er sá seggur átti.

9. Og þeir af tóku
og þeir á létu,
fyr einn utan,
er þeir af létu.

10. Kom þar af veiði
veðureygur skyti,
Völundur, líðandi
um langan veg.
Gekk brúnnar
beru hold steikja,
ár brann hrísi
allþurr fura,
viður inn vindþurri,
fyrir Völundi.

10. *líðandi:* gangandi; *brúnnar,* leiðrétting fyrir *brúnni; ár:* snemma dags (í handriti stendur *hár*); 7.—8. lína. Gera má ráð fyrir að hrís sé notað í uppkveikju, áður en furan fer að loga.

11. Sat á berfjalli,
bauga taldi,
álfa ljóði,
eins saknaði;
hugði hann, að hefði
Hlöðvés dóttir
alvitur unga,
væri hún aftur komin.

11. *berfjall:* bjarnarfeldur; *álfa ljóði:* maður af þjóð álfa (*ljóði* er skylt orðinu lýður).

12. Sat hann svo lengi,
að hann sofnaði,
og hann vaknaði
viljalaus:

12. *viljalaus:* sviptur vilja sínum, sjálfræði sínu; *höfugur:* þungur; *nauð* er hér haft um bönd eða hlekki.

vissi sér á höndum
höfgar nauðir,
en á fótum
fjötur um spenntan.

*Völundur kvað:*

13. „Hverjir eru jöfrar,
þeir er á lögðu
bestibyrsíma
og mig bundu?“

13. *jöfur:* konungur; *bestisíma:* bastþráður, en hvað *byr* er inni í miðju orðinu, veit enginn.

14. Kallaði nú Níðuður,
Njára drottinn:
„Hvar gaztu, Völundur,
vísi álfa,
vora aura,
í Úlfdölum?
Gull var þar eigi
á Grana leiðu,
fjarri hugða eg vort land
fjöllum Rínar.“

14. *vísi:* konungur; *Grana leið:* leið Sigurðar Fáfnisbana, er hann reiddi á hesti sínum, Grana, gull það, er hann tók eftir víg Fáfnis á Gnitaheiði; *fjöll Rínar* eru hér nefnd sem gullauðugt land, sennilega vegna þess, að Gjúkungar sökktu þessu sama gulli í Rín. Í tilsvari Níðaðar felst aðdróttun, að hann eigi í rauninni það gull, sem Völundur hefur komizt yfir.

*Völundur kvað:*

15. „Man eg, að vér meiri
mæti áttum,
er vér heil hjú
heima vórum.
Hlaðguður og Hervör
borin var Hlöðvé,
kunn var Ölrún
Kjárs dóttir.“

15. *mæti:* dýrgripir; *hjú:* hjón eða heimilisfólk; *kunn:* margs kunnandi.



16. [Úti stendur kunnig
kvon Níðaðar],
hún inn um gekk
endlangan sal,
stóð á gólfi,
stillti röddu:
„Er-a sá nú hýr,
er úr holti fer.“

16. *stillti röddu:* hagaði máli sínu; *holt:* skógarlundur.

Níðuður konungur gaf dóttur sinni Böðvildi gullhring þann, er hann tók af bastinu að Völundar, en hann sjálfur bar sverðið, er Völundur átti. En drottning kvað:

17. „Tenn honum teygjast,
er honum er téð sverð
og hann Böðvildar
baug um þekkir.
Ámun eru augu
ormi þeim inum frána.
Sníðið ér hann
sina magni
og setjið hann síðan
í Sævarstöð.“

17. *tenn honum teygjast:* hann teygir tennurnar (eftir sverðinu); *téð,* af *tjá:* sýna; *Böðvildar baugur* er eflaust sami hringurinn og nefndur er í 9. vísu; *ámunur:* áþekkur; *fránn:* gljáandi (oft notað um orma, einnig um hvasst augnaráð eða hvasst vopn, sjá næstu vísu); *sníða:* svipta með skurði.

Svo var gert, að skornar vóru sinar í knésfótum, og settur í hólm einn, er þar var fyrir landi, er hét Sævarstaður. Þar smíðaði hann konungi alls kyns gersimar. Engi maður þorði að fara til hans nema konungur einn.

*Völundur kvað:*

18. „Skín Níðaði
sverð á linda,

18. *lindi:* belti; *mækir:* sverð; *sékka ég:* ég sé ekki; *bíðka-eg:* ég bíð ekki. Í báðum þessum

það er eg hvessta,
sem eg hagast kunna,
og eg herðag,
sem mér hægst þótti.
Sá er mér fránn mækir
æ fjarri borinn,
sékk-a eg þann Völundi
til smiðju borinn.
Nú ber Böðvildur
brúðar minnar
— bíðk-a eg þess bót, —
bauga rauða."

19. Sat hann, né hann svaf, ávallt
og hann sló hamri;
vél gerði hann heldur
hvatt Níðaði.
Drifu ungir tveir
á dýr sjá
synir Níðaðar
í Sævarstöð.

20. Kómu þeir til kistu,
kröfðu lukla,
opin var illúð,
er þeir í sáu.
Fjöld var þar menja,
er þeim mögum sýndist,
að væri gull rautt
og gersimar.

línum kemur 1. persónufornafnið á tveim stöðum.

19. *vél:* vélabrögð, svik; *drífa:* skunda; *á dýr sjá.* Bræðurnir eru að svipast um eftir dýrum í skóginum.

20. *lukla:* lykla; 3.—8. lína. Þeim bræðrum sýnist gull og gersemar í kistunni, en í raun og veru er þar illúð opin (fjandskapur blasir við); *menja,* ef. ft. af (háls)men. Þetta á ekki vel við. Þess vegna hafa sumir skýrendur gizkað á, að *meina* eigi að standa fyrir *menja.*



*Völundur kvað:*

21. „Komið einir tveir,
komið annars dags;
ykkur læt eg það gull
um gefið verða.
Segið-a meyjum
né salþjóðum,
manni öngum,
að ið mig fyndið."

22. Snemma kallaði
seggur á annan,
bróðir á bróður:
„Göngum baug sjá!"

23. Kómu til kistu,
kröfðu lukla,
opin var illúð,
er þeir í litu.

24. Sneið af höfuð
húna þeirra
og undir fen fjöturs
fætur um lagði,
en þær skálar,
er und skörum vóru,
sveip hann utan silfri,
seldi Níðaði.

25. En úr augum
jarknasteina
sendi hann kunnigri

21. *salþjóð:* heimafólk.

22. *snemma* getur þýtt hvort sem er: brátt eða að morgni dags.

24. *húnn* merkir venjulega ungviði bjarndýra, en er hér haft um unga sveina; *fen fjöturs* hefur ekki tekizt að skýra, svo að öruggt sé. *Fen* merkir dý, en fjötur hefur verið talið merkja: stoðir undir smiðjubelg. Eftir þessu er *fen fjöturs* vilpa eða gróf undir stoðum þeim, sem héldu uppi smiðjubelgnum; *skör:* skorið hár; *skálar er und skörum vóru:* höfuðskeljar; *sveip:* sveipaði.

25. *jarknasteinn:* gimsteinn; *kunnigur:* margfróður eða fjölkunnugur;

konu Níðaðar,
en úr tönnum
tveggja þeirra
sló hann brjóstkringlur,
sendi Böðvildi.

*brjóstkringla:* einhvers konar skartgripur, borinn á brjósti.

26. Þá nam Böðvildur
baugi að hrósa
— — —
— — —
er brotið hafði:
„Þorig-a eg að segja
nema þér einum."

26. *hrósa* merkir hér sennilega: miklast af.

*Völundur kvað:*

27. „Eg bæti svo
brest á gulli,
að feður þínum
fegri þykir
og mæður þinni
miklu betri
og sjálfri þér
að sama hófi."

27. *að sama hófi:* sömuleiðis.

28. Bar hann hana bjóri,
því að hann betur kunni,
svo að hún í sessi
um sofnaði.
„Nú hefi eg hefnt
harma minna
allra nema einna
íviðgjarna."

28. *bera bjóri:* gera ölvaðan; *allra nema einna.* Engum getum skal að því leitt, hvaða harmar það voru, sem Völundur telur óhefnt; *íviðgjarn:* illgjarn. Af því er hugsanlegt, að dregið sé atviksorðið: *íviðgjarna.*



29. „Vel eg," kvað Völundur,
„verða eg á fitjum,
þeim er mig Níðaðar
námu rekkar."
Hlæjandi Völundur
hófst að lofti,
grátandi Böðvildur
gekk úr eyju,
tregði för friðils
og föður reiði.

29. *vel eg.* Hér hælist Völundur um afrek sín; *verða eg* er óskháttur; *fit:* fótur; *nema:* svipta; *rekkar:* menn.

30. Úti stendur kunnig
kvon Níðaðar,
og hún inn um gekk
endlangan sal.
En hann á salgarð
settist að hvílast:
„Vakir þú, Níðuður,
Njára drottinn?"

30. *hann:* Völundur; *salgarður:* (varnar)garður umhverfis höllina.

*Níðuður kvað:*

31. „Vaki eg ávallt
viljalaus,
sofna eg minnst
sízt mína sonu dauða;
kell mig í höfuð,
köld eru mér ráð þín,
vilnumk eg þess nú,
að eg við Völund dæma.

31. *viljalaus:* gleðivana eða hálfsljór, vissi ekki, hvað hann vildi; *sízt:* eftir; *kell,* nt. af sögninni að kala; *vilnumk:* ég óska mér; *dæma:* tala.

32. Seg þú mér það, Völundur,
vísi álfa,

32. *heill:* heilbrigður.

af heilum hvað varð
húnum mínum."

*Völundur kvað:*

33. „Eiða skaltu mér áður
alla vinna,
að skips borði
og að skjaldar rönd,
að mars bægi
og að mækis egg,
að þú kvelj-at
kvon Völundar
né brúði minni
að bana verðir,
þótt vér kvon eigim,
þá er þér kunnið,
eða jóð eigim
innan hallar.

33. Efnið í orðum Völundar er, að allir þeir hlutir, sem nefndir eru, skulu bregðast þeim, er rýfur eiðana; *rönd:* málmbrydding á skildi; *mar:* hestur; *bægi,* þgf. af bógur; *kvon Völundar* og *brúði minni* á hvorttveggja við Böðvildi; *jóð:* barn.

34. Gakk þú til smiðju,
þeirrar er þú gerðir,
þar finnur þú belgi
blóði stokkna;
sneið eg af höfuð
húna þinna,
og und fen fjöturs
fætur um lagðag.

34. *belgi,* vafalaust af sveinunum, ekki smiðjubelgi.

35. En þær skálar,
er und skörum vóru,
sveip eg utan silfri,
senda eg Níðaði;



en úr augum
jarknasteina
senda eg kunnigri
kvon Níðaðar,
en úr tönnum
tveggja þeirra
sló eg brjóstkringlur,
senda eg Böðvildi.

36. Nú gengur Böðvildur
barni aukin,
einkadóttir
ykkar beggja."

*Níðuður kvað:*

37. „Mæltir-a þú það mál,
er mig meir tregi,
né eg þig vilja, Völundur,
verr um níta.
Er-at svo maður hár,
að þig af hesti taki,
né svo öflugur,
að þig neðan skjóti,
þar er þú skollir
við ský uppi."

37. *trega:* hryggja; *níta* virðist eftir sambandinu merkja: hegna, pína; *skolla:* sveima.

38. Hlæjandi Völundur
hófst að lofti,
en ókátur Níðuður
sat þá eftir.

*Níðuður kvað:*

39. „Upp rístu, Þakkráður,
þræll minn inn bezti,
bið þú Böðvildi,
meyna bráhvítu,
ganga fagurvarin
við föður ræða.

39. *fagurvarin:* fagurlega búin.

40. Er það satt, Böðvildur,
er sögðu mér:
Sátuð ið Völundur
saman í hólmi?“

*Böðvildur kvað:*

41. „Satt er það, Níðuður,
er sagði þér:
Sátum við Völundur
saman í hólmi
eina ögurstund,
æva skyldi.
Eg vætur honum
vinna kunnag,
eg vætur honum
vinna máttag.“

41. *ögurstund:* þungbær stund, óheillastund (ögur: þungur móður); *æva:* aldrei; *vinna* (hér): veita viðnám.